# LÝSÍNG

# LANDSINS HELGA

Á

# KRISTS DÖGUM,

GEFIN ÚT

AF

ENU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

---

Með steinprentaðri landsmynd.

---

KAUPMANNAHÖFN, 1842.

PRENTAÐ HJÁ S. L. MÖLLER.

# FORMÁLI.

Dr. Brammer, er ritaði bók þessa á danskri túngu, hefir ætlað hana handa skynsömum og guðræknum mönnum, svo leikum sem lærðum; skírir hún ljósliga frá landi og háttum Gyðínga frá því er Kristur fæddist þartil er Jórsalaborg var unnin og eyðilögð af Rómverjum, og vitum við eigi að nein bók hafi fyrr útkomið þessa efnis á íslenzkri túngu; mætti vera hún kæmi sèr eigi illa á Íslandi, einkum hjá þeim er athuga hve náin eru sagnafræði og landafræði, þegar landafræðin er einsog hún á að vera, segir frá gjörvallri náttúru og ásigkomulagi landanna, en lætur sèr ekki nægja tóm nafna-registur. En náttúra og einkunn hvers lands lætur sig í ljósi í margháttuðum eiginligleikum, fyrst og fremst í loptslagi og landslagi, en þareptir fara kostir og ókostir á hverju landi, nytjar allar, hægindi og óhægindi fyrir landsbúa, þá atvinnuvegir þeirra og háttsemi, menníng og mentun andlig og veraldlig.

En hvaðeð nú Gyðíngaland snertir, þá hlýtur það að vera fýsiligt fyrir hvern kristinn mann að vita, hversu því var háttað, hvaða lifnaðarhættir þar voru, hvaða trúarbrögð, í einu orði hvernig landsfólkinn var farið í allan máta, and-

ligan og líkamligan, er það er undirstaða Biblíusögunnar og ennar fyrstu Kristnisögu, með því að Kristur fæddist í landi þessu og kristnin hófst þar fyrst.

Bók þessi mun því hverjum manni þykja fróðlig og skemtilig, en þaraðauk er hún talin meðal helztu bóka, er nauðsynligar þykja til að skilja nýja testamentið.

Hið íslenzka Bókmentafèlag hefir, eptir uppástúngu og undirlagi Prestsins Síra Ólafs Indriðasonar að Kolfreyjustað, látið semja útleggíngu þessarar ritgjörðar af þremur hèrverandi guðfræða-iðkurum, er og hafa viðbætt nokkrum skíríngargreinum. Fèlaginu virtist nauðsynligt að auka bókina með uppdráttum Gyðíngalands og Jórsalaborgar, löguðum eptir þeim áreiðanligustu fyrirmyndum er hèr fengist gátu.

Kaupmannahöfn, þann 18 Maí 1842.

---



# LANDIÐ HELGA
## Á KRISTS DÖGUM.

### 1. §.
*Nöfn á landinu.*

Land það, sem hèr skal lýsa, nefndu heiðnar þjóðir „Kanaan"; en fyrir því það var heitið niðjum Abrahams kölluðu þeir það „fyrirheitna landið", uns drottinn efndi heit sitt, þá er Jósúa vann landið með vopnum. Fyrst það hafði nú verið kennt við Kananíta fyrrum og nefnt Kanaan, þá var það nærri sanni að kalla það „Ebrealand", eptir að niðjar Abrahams unnu það[1]; þó á betur við að nefna það „Ísraelsland", eins og engillinn gjörði er hann vitraðist Jósep[2], þareð Ísmael var einnig Abrahams

[1]) Hebreskir, eður Ebreskir rèttara nafni, ætla sumir sè dregið af nafni *Ebers*, er var einn af forfeðrum Abrahams (1 Mos. 11, 16; Lúk. 3, 35), aðrir af orðinu *Abar*, „að fara yfirum", og *Eber*, „landið hinumegin" þ. e. Jórdanar eður Evfrats, sem austar liggur; þá þýðir Ebreskur „þann er kominn er frá enum austlægari landareignum", yfir Evfrat til Gyðingalands; er þessi þyðing nafnsins sennilegri, einkum þessvegna, að Kanverjar tíðkuðu það, en ólíklegt er að þeir hafi þekkt forfeður Abrahams, er bjuggu lángt austur frá Kanaanslandi.

[2]) Math. 2, 20.

son[1]. En Ísrael, er tekið hafði fyrirheitið í arf af Ísaki, lagði aptur æðri blessun yfir Júda enn nokkurn þeirra bræðra, og mátti það á sjá: því Júdafylki varð mestur og merkastur hluti gjörvalls Ísraelslands, einkum eptir herleiðínguna; gengu því hinir partar landsins ástundum undir sama nafni og olli því meðfram dramb Júdeumanna. Grikkir og Rómverjar kenndu landið við Filistea og kölluðu „Palestínu"; var það raunar heiðið nafn, því heiðnir menn, sem bar að Filistalands-ströndum, nefndu það eptir heiðnum landsbúum og virtu lýð drottins sem kaupmenn eina, á líkan hátt og Kananíta fyrrum, er svo mátti með sanni kalla[2]. Þótt engu fari nú betur að hánga í nafnavali enn dagavali, og ekki sè áhorfsmál að hafa nöfn þó heiðin sèu, ber þó þess at gæta, hversvegna hugur vor hvarflaði til jafnlítillar og fjærlægrar landsálfu: að það er landið guðs, sem hèr skal um rætt; það er landið, sem guð hafði að sèr tekið á allan annann hátt enn nokkurt annað í heimi; það er landið, sem um lángan aldur var það eina um víða veröld, er tignaði hann; það er landið, hvar hann lèt son sinn ein-

---

[1]) Ísraelítar var heiðursnafn Gyðinga og þannig kölluðu þeir sig sjálfir; var og Gyðingaþjóð með því nafni nákvæmar tilgreind og aðskilin bæði frá Ísmaelitum og Edomitum, er voru niðjar Esaús Ísakssonar, þó hvörutveggi væri Ebreskir að uppruna; samt sem áður nefnast þessar kynslóðir ekki Ebreskir i Gyðingasögunni, því Jakobs (þ. e. Ísraels) niðjum einum hlotnaðist blessan feðranna og hið fyrirheitna landið.

[2]) Því Kananíti þýðir: 1) slèttubúi, þ. e. sá er býr við höf, vötn eður fljót og liggur vel við kaupverzlun; 2) kaupmaður.

getinn holdgast og í heiminn fæðast; það er landið, er Móses gaf fyrirheitið um: „þú munt innleiða þá og gróðursetja á fjalli arfleiðar þinnar"[1], og sem Asaf[2] kvað um fagnaðarljóðin, því þá var það ekki lengur fyrirheitið[3], heldur eign orðin. Þarí er þetta: „hann leiddi þá til landamæra helgidóms síns, til þess fjallsins, sem hann hafði unnið með styrkleika sínum; hann stökkti burt þeim heiðíngjum, en lèt Ísraels kynkvíslir setjast að í tjaldbúðum þeirra"[4]. Það var því ekki um skör fram, þótt öllum Ísraels niðjum væri landið sem helgidómur, og svo skal það einnig oss, sem tekið höfum æðri hluta arfleifðar þeirra.

## 2. §.

### *Nálæg lönd og nágrannaþjóðir.*

Takmörk ens helga lands voru eins margbreytilig einsog nöfn þess. Sèrhverr aðgætinn lesari heilagrar ritníngar mun hafa tekið eptir, að landið, sem öndverðliga var heitið kynslóð Abrahams, lá hèrnamegin Jórdanar eður vestanmegin, og að það var ekki nema á enum góðu dögunum, þegar þeir Davíð og Salómon sátu að ríkjum, að Ísraels land var svo víðlent, sem heitið vakti vonar á[5], þ. e. að það næði að Evfrat. Ef vèr nú köllum „landið helga" allar

1) 2 Mós. 15, 17.

2) Asaf var bezta sálmaskáld á dögum Davíðs konúngs og forsaungvari við tíðir Ebrea.

3) Hebr. 11, 9. 4) Sálm. 78, 54. 5) 5 Mós. 11, 24.

lendur þær er Jakobs kynkvíslir bygðu meðan stjórnarlögun þeirra bar nokkurn keim af þjóðfrelsi því, er fyrr hafði verið, þá voru landamerkin þessi á Krists dögum: Að norðanverðu fjöllin Líbanon og Antilíbanon; að austanverðu hinn austlægi fjallgarður Basans- og Gíleaðsfjalla; að sunnanverðu suðurströnd Dauðahafs og Arabía Petrea (hin grýtta[1]); að vestanverðu Miðjarðarhafið. Þessi eru hin sjálfsköpuðu landamerki; en þyki það miður við eiga að segja þessi merki einúngis, þegar lýsa skal landi sem áfast er við önnur — því opt hefir hernaður brotið og umbilt landamerkjum, er þjóðir urðu sáttar á sín á milli — þá virðist því ótilhlýðiligra að láta hèr staðar nema, fyrst það er ásetníngurinn að fá glögga þekkíng á landi því, sem bæði er lítið í sjálfu sèr, og fjærlægt heimsálfu vorri, en því fjærlægra átthögum vorum. Vèr viljum því dvelja lengur enn venja er til við skoðun hinna næstu landa, áður enn byrjað er á lýsíngu Gyðíngalands sjálfs, og geta helztu þjóða og borga sem nefndar eru í heilagri ritníngu.

Eptir landaskipun Rómverja var Palestína talin með Sýrlandi enu mikla, og var syðsta fylki þessa víðlenda skattlands[2]. Af hinum sjálfgerðu landamerkjum að ráða hafa þá hin nyrðri fylkin hlotið að liggja við Líbanons og Antilíbanons fjalllendur;

[1]) Sumir halda landið svo kallað af stað nokkrum, er hafi heitið Petra, en þýðíngin verðr hin sama, því nafn það mun dregið af grýttu landslagi. [2]) Post. g. 21, 3.

svo var og. Landið sem lá fyrir vestan Líbanon var kallað Fönikuland (*Phoenice*); það náði til Miðjarðarhafs, og var því frægt orðið; það var svo ófrjófsamt, að landsmenn urðu að hafa aðdrætti frá Galíleu, sem þar lá skamt frá. En þó ekki fengi þeir akurinn plægðan, erjuðu þeir samt hafið og urðu fyrstir frægir farmenn í veröldu. Í veraldligum efnum var að sönnu nágrenni þetta Ísraels börnum fullhagkvæmligt, og það því heldur sem hvorutveggi áttu kyn sitt að rekja til Sems, hèldu optast á friði sín á milli, og voru, til að minda á dögum þeirra Davíðs og Híranis, skiptavinir og kaupanautar[1]. En þó voru Fönikumenn Gyðingum að öðru leiti voðaligir vinir, er þeir tældu þá til verzlunarhyggju móti lögum þeirra, og það sem þessa var verst, er þeir komu þeim á viðbjóðsligasta blótskap, þar þeir blótuðu sól og mána og nefndu þau Baal og Astarot. Þegar á Gídeons dögum var búið að reisa þar ölturu og byggja lunda til heiðurs við Baal[2]; en þó nú svo bæri við, t. a. m. þá og optliga seinna meir, er þjóðin tók sinnaskipti, að goðin væri brotin og höggvin niður[3], þá kom þar þó að, að landsfólkið sneri til guðleysis og blótskapar að nýju, og fór svo mörgum sinnum; þó er auðsèð, að það stundum hefir verið ráð illfúsra nágranna, til að minda þegar Jessabel, dóttir Fönikukonúngs, rèði öllu við Akab Ísraelskonúng, og spillti honum svo, að hann varð óguðligri maður enn nokk-

[1]) 1 Kron. 14, 1. [2]) Dóm. 6, 27. [3]) 2 Kóng. 11, 18.

urr forfeðra hans þó vondir væri. Meðal borganna í Fönikulandi er Týrus og Sætt (*Sidon*) kunnugri enn frá þurfi að segja. Sætt lá norðar og telur ritníngin hana eldri enn Týrus. Týrus stóð fyrst á meginlandi við Ljónsfljót (*Leontis*), en síðar á eyju nokkurri skamt undan landi. Innbúar beggja þessara borga voru hinir mestu auðmenn, manna drambsamastir og munaðargjarnastir[1], og allra manna hraustastir og harðsóttastir; var það eitt merki þess, að þeir fluttu borg sína úr landi og út á ey þá er hún stóð á síðan, jafnframt og þeir vörðust með frábærri harðfengi árásum Nebúkanesars konúngs; var það hreysti þeirra ein sem gaf þeim svifrúm til slíkra vígvèla. Síðar veittu þeir Alexandri hinum mikla drengiliga mótstöðu, þó þeim heppnaðist þá miður. Hvergi voru Sættarmenn óhraustari, því þegar borgin varð ekki lengur varin fyrir aðsókn Okkus Persakonúngs, kveiktu þeir í, og brenndu sig inni með konum og börnum. Slíkt þollyndi lýsti sèr aðdáanlega hjá enni kanversku konu þaðan úr heraði, er gædd var stöku trúartrausti[2]. Það hafa menn fyrir satt, að á millum Týrus og Sættar, þó nær hinni síðari, hafi legið hið litla þorp Sarepta, þar sem ekkjan bjó en guðhrædda og gestrisna, er lèt mat til reiðu handa Elías spámanni og trúði svo orðum drottins, að spámaðurinn ól aptur önn fyrir henni árlángt í hallærinu[3]. Var

[1]) Ezek. 28, 1—24. [2]) Matth. 15, 21—28. [3]) 1 Kóng. 17, 8—16.

það því bæði á dögum spámannanna og dögum drottins, að menn fundust í herúðum þessum, sem fúsliga veittu móttöku sendiboðum drottins og leituðu hans[1]), enda vár Fönikuland eitt af löndum þeim sem kristnir menn leituðu til, er þeir sundruðust eptir líflát Stefáns píslarvottar og boðuðu trú Gyðíngum, er þar bjuggu[2].

Millum Líbanons og Antilíbanons lá Sýrdalaherað[3], er fyrrum hèt Hamat[4]. Innbúar þessa litla heraðs voru sömu þjóðar og innbúar Sýrlands sjálfs fyrir austan Antilíbanon, og náði allt Sýrland þegar bezt lèt austur að Evfrat. Konúngar Sýrlendínga hètu til skiptis Rezín eður Benhadað. Þeir voru hermenn miklir og hættuligir grönnum sínum. Jakobs–niðjar voru jafnan öflugir meðan þeir reiddu sig á guð feðra sinna, en vanmáttugir ávallt, er þeir leituðu styrks hjá mönnum; svo fór og þegar Akas konúngur treystist eigi til að berjast sjálfur við Sýrlendínga, og tók það óráð að kalla Assýríumenn til liðveizlu, að hann vann það fyrir stundarfrið að gjörast jarl Tiglat–Pílesars og hneppa þannig Ísraelslýð í ánauð, svo hann bráðum hlaut að vanmegnast. — Á Sýrlandi stóðu tvær borgir, og eru báður nafntogaðar í veraldarsögunni, en þó engu síður í ritníngunni, það voru þær Damaskus og Antí-

[1]) Lúk. 4, 26. [2]) Post. g. 11, 19.

[3]) *Coelesyria* þ. e. Hol-Sýrland eða Dal-Sýrland; dregur það nafn af landslaginu, því það liggur í djúpu dalverpi millum fjallanna Líbanons og Antilíbanons.

[4]) 4 Mós. 13, 21.

okía. Damaskus lá fyrir austan Antilíbanon, og var fögur borg, gömul mjög og ávallt nafntogud ad blóma og audæfum; þar var fæddur Eleasar, hinn trúi þjón Abrahams[1]; þar tók heidíngjapostulinn (Páll) skírn og helgan anda af Ananías lærisveini, er drottinn hafdi birzt honum utanborgar[2]. Nordur frá Damaskus, í enum nyrdra og láglendari hluta Sýrlands vid Orontsfljót (*Orontes*) lá Antíokía, höfudborg á Sýrlandi; hafdi hún frá því á dögum Selevkus konúngs ens sigursæla (Nikators) verid konúngasetur; en sídan sátu þar landshöfdíngjar edur jarlar Rómverja (*Proconsules*). Þad var því ekki ad undra, þótt heidnir rithöfundar nafntogudu borg þessa fyrir veldi og fegurd, þar sem var slíkt höfdíngjasetur og slík snildarverk og audur samankomin; edur þótt Gydíngar, frá því á dögum vildarmanns þeirra Selevkus, hefdist fjölmennt vid í svo audugum kaupstad; en hitt kynni öllu fremur ad þykja ótrúligt, ad kristin trú nádi þar svo árla rótfestu og brádum þroska, er menn mundu ætla, ad bilífid eitt hefdi átt heima; en Páll og Barnabas hittu þar marga þá sem tóku vel sannleikanum, og nefndust Kristnir fyrstir manna eptir meistara sínum, til audkenníngar frá þeim er hnigu ad ödrum lærdómum[3].

Nú erum vèr á nordur landamærum jarlsdæmis þess, er landid helga lá undir, og gætum því ad vísu, eptir því sem venja er til, látid hèr stadar

[1]) 1 Mós. 15, 2. [2]) Postg. 9. [3]) Postg. 11, 26.

numið í lýsíngu á löndunum norðanvert við Palestínu; en þar ritlíngur þessi er skráður til leiðarvísis handa lesendum ens nýja testamentis og trautt mun síðar gefast jafngott færi á að tala um Asíu ena minni, ætlum vèr flestum muni vel í þarfir koma, að bætt sè við stöku athugasemdum um þetta skattland Rómverja, er svo kveður mikið að. Asía en minni heitir land það hið mikla í norður útnorður frá Palestínu og Sýrlandi, sem nær norður að Svartahafi, austur að Evfrat, suður að Miðjarðarhafi og vestur að Grikklandshafi (Ægeifshafi — *Mare ægeum* — *Archipelagus*). Á gamla testamentisins dögum áttust Ebreskir og austurlandabúar þeir, er bjuggu fyrir handan Evfrat[1], mörg skipti við og stundum fjandskap, en á Krists dögum voru samgaungur miklu tíðari millum Gyðínga og vestlægu þjóðanna, einkum þeirra í Litlu-Asíu; voru þjóðir þessar mjög umfram aðrar þjóðir að fjármegni og mentum. Þegar rætt er um Asíu í hinu nýja testamenti, þá er þar með meint til Asíu ennar minni[2]. Landinu var skipt í mörg heruð, sem á fyrri dögum höfðu hvert verið ríki fyrir sig, en láu nú undir Rómverja. Það er ekki tilgángur vor að nafngreina þessi heruð, og lýsa borgum þar, þó frægar sèu í veraldarsögunni; hèr skulu einúngis þær nefndar, sem að nokkru er getið í ritníngunni, og skulu fyrst

[1]) Þessir austurlandabúar, sem hèr er til meint, bjuggu í landinu Úr eður Mesópótamíu (Meðallandi) milli Evfrats og Tigurár. [2]) Postg. 2, 9.

tilgreindar borgir við sjó og þvínæst hinar í upplandi. Í útnorður frá Antíokíuborg lá Tarsus, höfuðborg í Cilicíu, er var syðsta og austasta herað Asíu ennar minni. Þar var fæddur Páll postuli, og hefir hann gjört oss þess vísari, að hún var enginn smábær[1]; var þar og enginn skortur á vísindum, því svo mátti að kveða, að þar væri heimili þeirra. Borgarmenn nutu sömu hlynninda sem rómverskir borgarar, þeir er ótignir voru[2], til að mynda: óbótamenn sættu ekki jafn þúngum og óvirðugligum refsíngum sem aðrir, þótt sakfelldir væri. Cilicía lá á landsuður-ströndum Asíu ennar minni, sem áður er sagt, en á útsuður-ströndunum láu þau heruð Karía og Dóris. Í Karíu lá Míletuborg við sjó, en frægasta borg; þar settust kristnir menn að öndverðliga; þar hèlt Páll postuli ena snjöllu ræðu, er hann kvaddi vini sína sem komnir voru frá Efesu[3]; er af slíku auðráðið eins og líka var, að skamt hafi verið milli Efesu og Míletuborgar, því Efesuborg og Smyrna voru helztu verzlunarstaðir í Lydíu (en með Lydíu telst Jónía), er lá í grend við Karíu í útnorður. Í Efesu var Artemishof hið mikla, sem talið er eitt meðal furðuverka heims[4]; að vísu var það til ösku brennt

---

1) Postg. 22, 3. 2) Postg. 16, 37; 22, 25. 3) Postg. 20, 17-36.

4) Þessi eru talin furðuverk heims, auk Artemis- (Diönu-) hofs: 1) grafarmark Másóls konúngs i Karíu, er Artemisia drottning lèt reisa i Halikarnassusborg (*Mausolæum*); var það 25 álna að hæð og 411 fet að ummáli. 2) Vitaturninn (*Pharos*) við Alexandríu, er Tólómeus konúngur enn bróðurholli (*Philadel-*

af Heróstrati, manni svo ofmetnaðarfullum, að skamt var til fullrar fásinnu, en á rústum þessa musteris bygðu menn annað nýtt og stóð það á dögum Páls. En hve mjög menn hafi blótað Artemis, þegar Páll flutti kristniboðið, er auðsært þaraf, hversu miklu liði Demetríus gullsmiður fèkk safnað mót lærdómi þessum, er hann sá, að það gat ekki farið saman með kristninni, að skurðgoð hefði samsæti með einum sönnum guði[1]. Þó má vera að Demetríus hafi lifað það, að óðum hafi fækkað þeim er blótuðu Artemis; því þótt fegurðartilfinníng manna væri afvega leidd, einsog drjúgum bar á í borg þessari, þó Apelles[2] væri fæddur þar, hugsuðu menn þó lengra, fóru að yfirvega hagi mannligs lífs og tengdir þess við drottinn; að vísu lenti það fyrir sumum í ókristiligum villulærdómum, en greiddi aptur guðs götu mörgum þeim er trúðu, þeim sem kvöddu postul-

*phos*) byggði. 3) Sólarjötuninn (risavaxin mynd sólarguðsins) á Ródusey, er Kares smíðaði, lærisveinn Lýsipps eirsmiðar; hann var 70 álna hár, og segja sumir hann hafi staðið yfir hafnarmynni og hafi skip öll lagt inn á höfn undir glennu hans; en hitt er sannara að hann stóð við höfnina öðrumegin. Hann stóð eigi lengi og hrundi í jarðskjálfta. 4) Völundarhúsið á Krítarey, er sagt er að Dædalus hafi byggt. 5) Hengigarðarnir í Babýlon, sem mælt er að Semíramis drottning hafi látið gjöra. 6) Steinvarðarnir (Pýramiðar) í Egiptalandi, sem menn halda muni hafa verið ætlaðir til greftrunarstaða; sá var einna mestur sem stendur nálægt Sakköru og eignaður er Keops konúngi; hann er hèrumbil 500 fóta hár, og stendur enn. [1]) Postg. 19, 24.

[2]) Apelles var frægastur meðal málara í fornöld, og lifði á dögum Alexanders; hann málaði þrumu Seifs, og Alexander vildi engum leyfa að mála mynd sína nema honum; sú mynd var gjörð svo, að Alexander stóð með þrumufleig í hendi.

ann í síðasta sinni og þótti þúngt fyrir skilnaði hans[1], og þeim, er voru við banasæng Jóhannesar guðspjallamanns. — Í Smyrnu, sem liggur litlu norðar enn Efesuborg, var og snemma kristinn söfnuður, og veitti Polýkarpus, lærisveinn Jóhannesar, honum forstöðu um 40 ár. Lángtum norðar, í Mýsíu, lá borgin Tróas; hana bygði Alexander hinn mikli; þaðan voru ferðir til Norðurálfu[2]. Borgir þessar voru á ströndum Asíu ennar minni, sem áður er sagt, og bygðu þær mest Grikkir, sem þángað höfðu flutzt til að leita sèr hagræðis í verzlun, en sumir til að leita sèr friðar og hælis. Þeir höfðu einnig setzt að uppí landi, hjá innbúum þeim er þar voru fyrir, en gjörðust brátt undirlægjur eður þjóðblendíngar er Gallar óðu þar inn; við Galla var kennt Galataland (Galla-Grikkland — *Gallogræcia*) eitt með norðlægustu heruðum Minni-Asíu, og nefnt Galatía jafnast, en þó munu þarmeð stundum hafa talin verið fylkin Ísáría og Lýkaonía, þar sem borgirnar Íkoníum, Lystra og Derbe voru, og Pisidía, þar sem Antiokía stóð, en litla; bæði í þessari borg, og þeim er rètt áður voru taldar, voru eigi allfáir er snemma var boðuð kristin trú[3], og hafa menn fyrir satt, að brèfið til Galatíumanna sè ritað þessum söfnuðum öllum ásamt; hafði Páll postuli snúið þeim til kristinnar trúar. En Kólossaborgar brèf er ritað söfnuðinum í Kólossaborg í Frygíalandi, er liggur í vestur frá Antíokíu í Pisidíu;

[1]) Postg. 20, 38. [2]) Postg. 20, 5—6. [3]) Postg. 14, 1—28.

þar hafði Epafras flutt kristniboð[1], og var það eflaust hann, sem kom söfnuðum á fót í nágrannaborgunum Híerópólis[2] og Laódíkeu, sem mest var við brugðið fyrir hálfvelgju í trúarbragða efnum[3].

Þar er áður á vikið, að austurhluti Basans- og Gíleaðs-fjalla sè austur-takmörk Palestínu. Fyrir handan þessi fjöll lá eyðimörk, sem talin var með Arabíu og kölluð Arabía en óbygða. Þar voru engar blómligar borgir, sem nærri má geta, en hèr og þar hittust rennandi lindir og grænar flesjar. Hèr var því ekki kostur á fyrir heiðíngja-postulann að flytja friðarins orð í slíku fámenni, en næði var þar gott fyrir enn umventa Sál, að yfirvega köllun þá sem hann var kvaddur til[4].

Í útsuður frá Arabíu enni óbygðu lá Arabía en grýtta; þángað var að fara yfir suður-takmörk Palestínalands. Þar höfðu ríki Ísmaelítar, fjölmenn þjóð; lètu þeir það ásannast, er fyrir þeim var spáð: því bæði voru þeir óstýrilátir og harðfengir og var hönd þeirra upp á móti öllum og allra móti þeim[5]. Þeir voru einir eptir af öllum Arabíu-sonum og bar því landið með rèttu nafn þeirra á Krists dögum. Meðal hinna þjóðanna, sem þar höfðust við, er helzt að telja Amalekíta og Midíaníta, þeir lifðu af fjárrækt og ránum. Amalekítar, sem Jósúa sigraði þá er Móses bað til guðs[6], urðu að fullu sigraðir á dögum þeirra Sáls, Davíðs og Esekías

1) Kól. 1, 7. 2) Kól. 4, 13. 3) Opinb. 3, 14. 4) Gal. 1, 17. 5) 1 Mós. 16, 12. 6) 2 Mós. 17, 11.

Gyðíngakonúnga. Midíanítar fluttu sig smámsaman nær landamærum Ísraels, til að geta gjört árásir á land þeirra; en Gídeon bar sverð drottins karlmannliga mót þeim á Esdrelons–völlum. Við Arabíufjörð stóð kaupstaðurinn Ezíongeber, nafnkendur á Salómons dögum; þaðan gengu skip þau er fluttu gullið frá Ófír til musterisins. Þess er að geta, áður vèr hverfum frá Arabíu, að tindar eru á Midíansfjöllum, og er það ætlun manna, að sá er í landnorður veit muni Sínaí verið hafa, en Hóreb hinn er veit í útsuður[1]. Að vísu var það lítill hluti Egyptalands ens nyrðra, sem með eyðimörkinni var áfast við suðurhluta landsins helga, og landamerki þar eru ekki að öllu kunn, en þó eru sögur landa þessara svo náskildar, að oss verður það ósjálfrátt, er vèr stöndum hèr við hafið rauða, að minnast ættfeðranna helgu, Faraóna, Makkabea, Tólómea, flótta Jóseps með Maríu ok barnið Jesús, og að lyktum Alexandersborgar, þar sem enir 70 menn sneru biblíunni á grisku og kristin trú náði brátt föstum fæti, þótt hún hitti fyrir helzt til smásmugliga gyðíngalærdóma í borg þar sem slík mentan var.

Miðjarðarhafið var vestur–takmörk Palestínu á Krists dögum; vèr verðum því enn að geta þess: að haf þetta er kallað í ritníngunni ýmist hafið mikla, ýmist vesturhafið, eður þá einúngis hafið. Ey sú er nafnkenndust er í hafi þessu heitir Kýpur

[1]) 2 Mós. 3, 17—19.

(*Cyprus*); hún liggur í flóanum millum Sýrlands og Cilicíu. Á Kýprey boðuðu þeir kenníngu drottins Barnabas og Páll, og þar sló Páll Elímas með blindu, en sneri Sergíusi til rèttrar trúar[1] í Pafusborg, en sú borg var aðsetur ens fyrsta kristins safnaðar á eyjunni ásamt Salamis. Maltey og Krítarey eru nafnkendar bæði af sjóferð Páls postula[2] og dvöl Títusar á hinni síðari.

Það var þannig á miðbiki jarðar, að því er menn þekktu hana í fornöld, að drottinn hafði afmarkað landið, og skyldu þjónar hans þaðan út gánga og boða náðarlærdóminn. Menn ferðuðust til ens helga landsins, sumir til fróðleiks sèr, aðrir til fjár og sumir til frægðar. Þeir sem því urðu svo heppnir að öðlast það orðið sem gat hólpnar gjört sálir þeirra, hve auðvelt hlaut þá ekki að vera fyrir hina grisku spekínga að flytja það til Atenuborgar, Etíópa til upplanda suðurálfunnar, farmenn frá Alexandríu til Egyptalands og ena rómversku höfuðsmenn til Ítalíu. Drottinn setti ekki náðarljós sitt undir mæliask, heldur á háfan stað, svo það næði að lýsa öllum heimi.

### §. 3.

### *Víðátta landsins og fólksfjöldi.*

Landið, sem drottinn hafði ætlað þjóð sinni, var lítið um sig í samanburði við en feikna stóru ríki, sem láu umhverfis það. Það var á Krists dögum hèrumbil 450 ferhyrndar mílur ummáls;

---

[1]) Postg. 13, 4—12. [2]) Postg. 27.

sumstaðar var það 20, sumstaðar að eins 6 mílna breitt, lengdin er talin 28 mílur frá norðasta þorpinu (Dan) til ens syðsta, sem hèt Bersaba, en 32 mílur, ef þau lönd eru með talin, sem liggja millum Dans og Antilíbanons, Bersöbu og Arabíu grýttu. — Fólkfjöldi var þar meiri enn hèr um slóðir[1] og hèldu til þess bráðgjör hjónabönd, góðir landskostir, blómlig kaupverzlan og mikil aðsókn aðkomumanna; voru þar, að því sem næst verður komizt, hálf þriðja millíón sálna.

§. 4.

*Þjóðmálið.*

Væri þjóð sú að öllu ókunn, sem hèr er um að ræða, bæri að minnsta kosti að segja sögu hennar að því er viðvíkur þjóðafræði og landa. Munum vèr að vísu svo hátta riti þessu að saman beri við Gyðíngasögu, en gjörum þó við hún sè lesendum kunnug annarstaðar að. Er nú þegar að gefa gaum að sögunni; því hvernig getum vèr minnst á mál þjóða og ekki undireins á sögu þeirra, t. a. m. viðskipta við aðrar þjóðir og hve þetta olli umbreytínga málsins? Getur nokkurr minnst á drottins fyrirætlun með Gyðínga, án þess undireins að fá sèð, að þeir, er um svo lángan aldur voru öðrum fráskekktir, hafa hlotið að nema mörg babýlónisk og kaldeisk orð og talshætti á þeim tímum, er þeir urðu herleiddir til Babýlónar, og hafa flutt þau aptur heim með sèr til Jórsala? því dámaði af kalde-

[1] þ. e. í Danmörku.

isku meðal Gyðínga í höfuðborginni og nágrenninu; en norðurfrá, á Sebúlons og Naftalís landamærum, lærðu landsmenn Sýrlendsku af nágrönnum sínum, einsog von var af innbúum Galíleu ennar heiðnu. Að síðustu varð það úr málbreytíngum þessum, að en ebreska túnga var lögð niður í hversdags málinu, en því kostgæfiligar var hún varðveitt við lestur enna helgu ritnínga. Hversu mjög borið hafi á málbreytingum þessum, bæði að orðum og framburði, þó náskyldar væri, fá ólærðir biblíulesendur ráðið af því, að það var málfærið er gjörði Pètur uppvísan þá er hann afneitaði Kristi[1]. Til þess nú að nefna mál það einu nafni, sem tíðkaðist bæði hjá Júðum og Galíleumönnum, og nær því var ein túnga, hafa menn kallað það Sýrókaldeisku, og þetta var málið, er sá talaði í holdinu, sem „í upphafi var orð hjá guði". Eitt andvarp hans, sem ekki er um skör fram tekið inní bibliu útleggíngar vorar, rètt eins og hann bar það fram, höfum vèr margan lángafrjádaginn heyrt; það eru orðin: *Eli! Eli! lama sabachtani.* Í öðrum óútlögðum orðum ens nýja testamentis eymir eptir af rödd enna helgu manna, t. a. mynda í orðunum: *Abba*[2], *Mammon*[3], *Maran atha*[4]. Og ef oss er jafnvel óljúft að missa bergmál ens lifanda orðs, þótt óskírt sè, þá er ei kyn, þótt Nehemías og hans

[1]) Matth. 26, 73. [2]) Róm. 8, 15. [3]) Lúk. 16, 9.
[4]) 1 Kor. 16, 22.

líkar mætti mikils fornmál feðra sinna. Vèr megum virða þá villu til vorkunnar, því ekki var hún eingaungu sprottin af þjóðdrambi, að Ebreskir álitu þá túngu helgari enn allar aðrar í heimi, er spámennirnir töluðu, og guð sjálfur, er hann birtist sínum útvöldu. Þó er eigi að neita, að villa sú gjörði menn miður mentaða, því einstöku Gyðíngar hengu svo í mindum málsins, að þeir fyrirlitu og höfðu óbeit á öllum útlendum túngum, einkum þeirra Grikkja og Rómverja. Samt varð grisk túnga hin tíðkanligasta í Palestínu á þeim dögum, sem hvervetna annarstaðar hjá mentuðum þjóðum. Flestir kaupmálar voru samdir á grisku, og þar flestir Gyðíngar lögðu hug á verzlun, þá skildu þeir þessa túngu, töluðu og skrifuðu. Þaraðauk bar saman fundum Gyðínga frá Palestínu við Gyðínga í Alexandríu, er áttu griska túngu að móðurmáli. 70-manna útleggíngin ennar ebresku biblíu[1] var enn á Krists dögum í hávegum, einnig hjá Gyðíngum í Palæstínu; gátu menn sèð af henni, hvernig koma skyldi

[1]) Það segja menn, að útlegging hinna 70 (72) manna sè til orðin á þann hátt: að Demetríus Falereus, er var bókavörður hjá Tólómeus Philadelphus Egiptalandskonúngi, hafi gjört konúng áskynja um, að Gyðingar ættu bók nokkra ágæta, er fá þyrfti í bókasafnið, hafi þá konúngur sent 2 sendiboða til Eleazars, æðsta prests í Jórsalaborg, þess erindis að fá bókina; þá er sagt, að Eleasar sendi honum bókina, vandaða að öllu, og 72 þýðendur, 6 af hverjum kynþætti Gyðinga, er síðan sneru bók þessari. Það var hèrumbil 280 árum fyrir Krists burð, er þetta gjörðist, og er þessi útlegging því hin eldsta af útleggíngum hins gamla testamentis.

á grisku orðum að enni helgu þánkagnægð, sem átti heima hjá Ísraelsbörnum. En við því var að búast, að túnga þessi lèti öðruvísi í munni Gyðínga enn innfæddra Grikkja; fór því rètt að felldu, þótt hið svonefnda hèlleniska mál blandaðist ýmsum ebreskum orðum; þaðan er Amen, hverju kristnu mannsbarni kunnugt, og ekki allfáir ebreskir talshættir, t. a. m. „þú segir það", í staðinn fyrir: svo er sem þú segir[1]. Af þessu dæmi er þegar auðráðið, að rithöfundar ens nýja testamentis (sem optast ber saman við 70–manna útleggínguna í þeim greinum, er þeir færa til úr gamla testamentinu) hafi sjálfir skrifað það sem heilagur andi blès þeim í brjóst, á griska túngu að orðunum til, en ebreska að anda og eðli. Það var ráð drottins, að þannig skyldi vera; þareð allur hinn sami andi átti að vera í ritum ens nýja og gamla sáttmála, og Evangelíum Krists um skamt átti að kunngjörast hvervetna þar er menn töluðu grisku. Þannig ræitust ritníngarinnar orð: að drottinn mundi tala við sitt fólk á aðra túngu[2].

[1]) Matth. 26, 25.

[2]) Jes. 28, 11; sbr. 1 Kór. 14, 21. Þessi grein hins gamla testamentis á hèr ekki við, þó þykir tilhlýðiligra að hnýta við útskíríngu heldur enn að sleppa greininni með öllu. Meiníngin hjá Jesajasi er sú: spámaðurinn hótar Gyðíngum hegníngu í guðs nafni, sökum synda þeirra, að útlendar þjóðir, er tali annarligum túngum, skuli hneppa þá í ánauð. Í 1 Kór. 14, 21 kemur postulinn Páll með grein þessa til sönnunar því, að eigi sè það jafngott og nytsamligt að tala ennm ókunnu túngum,

5. §.

*Þjóðernið.*

Málið segir til ennar andligu náttúru, eins hjá heilum þjóðum, sem einstökum mönnum, og geta því að eins þróast að hvert þróist með öðru; vèr hverfum því frá máli Gyðínga, og yfirvegum hversu þeir voru skapi farnir á Krists dögum, eður hvílíkt var þjóðerni þeirra. Það átti vel við, sem spámaðurinn gjörði, að líkja þeim við vínvið, því einsog hann er góður og ágætur, þegar hann ber gnægð af vöxnum vínberjum, eins er lítið í hann varið, þegar hann vantar vökva til lífs sèr. Það virðist fyrir oss, sem Gyðíngar á Krists dögum væri líkir vínviði, er á einstöku grein ber vínber ágæta-fögur, en þó eru flestar greinirnar þurrar og hafa ekki annað sèr til ágætis enn víngarðsmanninn og menjar hinna fyrri daga. Það sem drottinn hafði heitið forfeðrunum það vanræktu niðjarnir, einsog fyrirheitið gæti hjálpað þeim börnunum, sem ekki líktust föður sínum í trúnni! Sína helgu feður möttu þeir mikils, einsog vera bar, og að heita Ísraelíti þótti mesti heiður[1], en fáir vildu vinna eins mikið

sem margur ætli og þyki frami í, er það tákni reiði guðs og refsingu í hinu gamla testamenti. Má það vel vera sem postulinn segir, þegar að er gætt, hversu óvandir Gyðingar voru á þeim dögum, er þeir tilfærðu greinir úr gamla testamentinu fyrir því að þeir ætti satt að mæla, því flestir lètu sèr nægja ef ritningargreinin eitthvað svaraði til efnisins; en að ætla, að spámaðurinn á þessum stað meini kristniboðið í ýmsum löndum, einsog Dr. Brammer heldur, nær engu lagi.

[1]) Jóh. 1, 48; Postg. 2, 20.

fyrir blessuninni og Ísrael. Í nafni forfeðranna báðu þeir til guðs, og vitnuðu til, hversu dygðngir forfeðurnir hefði verið, einkum Abraham, einsog ekki þyrfti meira til að ávinna öllum niðjum hans slíka einkavernd guðs, að ættsprengið aldrei skyldi undir lok líða og guðs sonur fæðast á meðal þeirra, og þaráofan, að þeir þrátt fyrir syndir sínar væri útvaldir og ætti sáluhjálpina vissa[1]; en lögmál drottins, sem átti að aga þá þartil Kristur kæmi, ránngskildu þeir svo, að þeir töldu sér hefð í að það var þeim gefið, þó lángt væri þeir frá að gjöra það, er lögmálið bauð[2]; einnig þótti þeim sem þeir ynni til launa og væri réttlátir haldnir, ef þeir gætti Levíta-lögmáls, einkum umskurnar og offurgjörða[3]; en mikið vantaði þá á, að þeir hlýddi enu mikilvæga mannelsku boðorði, því meðan þeir gættu enna ytri tilskipana og voru vandir að, breyttu þeir gagnstætt því er þær bentu til og umhverfðu þeim til ógæfu sér. Móses ætlaðist ekki til að þeir væri undirlægjur heiðíngjanna; Kanverjum skyldi útrýma úr landinu, og síðan skipta því; skyldu erfðahlutarnir annaðhvort vera stöðug eign ættleggsins eður hverfa til hans aptur, svo enginn maður skyldi brjótast þar til ríkis og verða harðstjóri yfir bræðrum sínum; Abrahams þjóð skyldi vera frjáls, er hún var guðs þjóð, — en nú var því lokið! menn líktust meir og meir heiðíngjum að hugarfari, það fór því einsog við var að búast, að heiðíngjar fengi

[1]) Jóh. 8, 39 o. s. frv. [2]) Róm. 2, 17 o. s. frv. [3]) Róm. 2, 25.

ráð yfir landinu. Þó girntust menn frelsið enn sem áður, en þar þeir ekki vildu láta sannleikann frelsa sig frá hlekkjum syndanna, varð frelsisfýsnin óróagjörn, og leiddi af því, að þeir urðu reknir úr enu fyrirheitna landinu, og gjörðust allra þrælar[1]. Þar sem hjarðir Abrahams höfðu gengið, áttu niðjar hans að hafa ofanaf fyrir sèr með fjárrækt og akuryrkju, en eigi með kaupverzlun eður hauðönum; við því hafði löggjöfin varað og lagt mikið við, að þeir ekki kæmist í samgaungur við útlendar þjóðir; en af því þeir voru guði ótrúir, hafði hann endrum og sinnum látið þá fá að reyna, hvílíkt það var að þola útlegð og ríki útlendra konúnga. Þó lètu þeir þessa hirtíng sèr ei að kenníngu verða, er þeir bendluðust við heiðíngja og gjörðust vinir þeirra. Þar af leiddi, að svo kvað ramt að verzlunarfýsn þeirra á Krists dögum, að þeir áttu í kaupum heimsendanna á milli að kalla mátti, og var forgarður sjálfs musterisins þá orðin sölubúð.

Hreinlæti líkamans skyldi minna á flekklausa sál; því hafði Móses gefið margháttuð lagaboð um hreinlæti, og virðist sem hreinlæti líkamans á Krists dögum hafi meira verið matið enn það hreinlætið, er eigi mátti augum sjá[2]; að því slepptu hversu saurugri og mannvondskufullri sál Krists óvinir bjuggu yfir. Það átti því með öllu vel við, er Símon Pètur kallaði landa sína „rángsnúna kynslóð"[3].

En til að ná því ágæti, sem þeir höfðu svo

[1]) Jóh. 8, 33 o. s. fr. [2]) Matth. 23, 26. [3]) Postg. 2, 40.

lengi haft hug á, en sáu sig ekki færa um að ná af eigin ramleik, þráðu þeir Messías öllum hlutum fremur, skyldi hann vera konúngur af Davíðs ætt, búinn krapti guðs, kominn af hæðum ofan í himneskri mind, hann skyldi og geta sannað með himneskum táknum, að hann hefði heilar hersveitir (Legíónir) engla til umráða, og með fylgi þeirra skyldi honum auðunnið að leggja alla kynþáttu heiðinna þjóða undir fætur sèr og krýna Ísrael heill og heiðri[1].

Þareð nú Gyðíngar vóðu í slíkum trúarvillum, sem ekki voru aðsvífandi og hverfular einsog draumur manns, heldur rótgrónar í þjóðerninu og magnaðar við dýrðina sem forfeðurnir gjörðu sèr von um; þá er ekki að undra þótt þjóðin lèti sèr einkum annt um helgitíða siði, væri skinheilög, full metnaðar og mannhaturs, kviklynd í öllu góðu, þar hún ekki mátti þekkja það sökum munaðargirni, en þrá í vondskunni, er hún hèlt hún mundi þóknast guði með því. Hversu fáir voru þeir meðal Ísraels, er voru fúsir til að þjóna drottni í hreinskilni hjartans, og þráðu andligan frelsara, sem ekki að eins endurleysti Ísrael, heldur og lýsti einnig heiðíngjunum!

6. §.

*Kennilýðurinn og hversu hann skiptist.*

Hvaða þjóð sem ímindar sèr, að guð hafi útvalið hana einúngis og gæti hennar öllum þjóðum fremur, og hvaða þjóð sem er mjög trúrækin (en

[1]) Jóh. 6, 30.

trúrækni hennar er ekki orðin annað enn hjátrú) og færir rök fyrir trú sinni frá gömlum ritum: henni hlýtur að vera ærin þörf á kennimannastètt og mjög hlýtur hún að gefa gaum að, hversu mikilvæg og háleit stètt þessi sè. Það væri oss því ómöguligt, að fá stutta og greiniliga þekkíngu á hinum andligu háttum Gyðínga á Krists dögum nema því að eins, að vèr þekktum hvernig kennilýð þeirra var háttað í helztu greinum. Prestar voru allt annað enn kennarar alþýðu; æðsti presturinn var formaður prestanna og fulltrúar þeirra sátu í enu mikla ráði í Jerúsalem, sem Ebreskir kölluðu Sanhedrín, en Grikkir og Rómverjar *Synedrium* (þ. e. samsæti) og skal síðar sagt, hvílíkan þátt ráð þetta átti í stjórnarefnum. En sá var munur á prestum og Levítum um þessar mundir, að Levítar voru skrifarar og dómarar í landinu, en prestar áttu ekki að gjöra annað, enn gegna þjónustugjörð í musterinu og standa fyrir helgihöldunum til skipta, eptir prestaröðinni[2]. Meðan musterið stæði skyldi guðsþjónustugjörðin tíðkast, og þau hlynnindi haldast, sem lögmálið áskildi prestunum[3].

Þá er enn að gjöra mun á prestum og Rabbínum (þ. e. kennurum); þeir þóttust færir til kennara-embættis, er þeir voru fróðir í ritníngum og leiknir í að svara flóknum vafa-spurníngum; þótti mönnum og sem þeir væri svo, ef þeir urðu svo frægir að geta safnað að sèr nokkrum lærisveinum

[1]) Lúk. 10, 31-32. [2]) Lúk. 1, 5 o. fr. [3]) Matth. 8, 4.

sem lærðu af þeim speki og heilræði, þótt ekki væri þeir tilkjörnir af ráðinu. Rabbíuar af landsbygðinni voru minna metnir enn þeir í höfuðborginni, þó þóttu engir síðri þeirra sveita-rabbínanna enn þeir í Galíleu.

Allur kennilýðurinn skiptist í tvær sveitir, og hafði hvor um sig þjóðina í hendi sèr meir enn skyldi; þær hètu Farísear og Sadúsear, einsog álkunnugt er. Báðum þessum bar saman í því, að halda fast fram trúnni á Jehóva, sem orðin var rótgróin hjá landsfólkinu eptir að hótanir spámannanna voru fram komnar og þjóðin herleidd til Babýlonar; einnig kom þeim saman í að rángfæra lærdóminn um útvalníngu Ísraelslýðs og hinn fyrirheitna Messías, til að æsa hrokann, sem ekki hafði annað fyrir sèr enn hugarburð einn, og hefndargirnina sem leitaði sèr svölunar; þá kom þeim saman í því, að kennilýðurinn skyldi mesta mannvirðíng hafa allra stètta, og gekk það lengra enn nokkru hófi gegndi; skyldi það á sjást, að þeim var allskonar sómi veittur, t. a. m. þeir skyldu efstir sitja í samkundum og veizlum; þeim skyldi heilsa fyrstum manna á strætum úti; þeir skyldu bera breiðar leggíngar á klæðum, er á væri rituð andlig snillyrði. Áttu þær meðfram sem helgur dómur að verja óvættum og sjúkdómum. Að öðru leiti fór fjærri því, að vingott væri með Faríseum og Sadúseum, því opt var fullur fjandskapur þeirra í milli, enda voru þeir mjög ólíkir að háttum og kenníngu.

Faríseaflokkur var innlendur gyðíngaflokkur að öllu. En til þess að vita, hversu flokkur þessi er til orðinn, þá er þess að geta, að Esras hlaut að gjöra sèr allt far um að gæta helgisiða við guðsþjónustugjörðina með hinni mestu nákvæmni eptir að þjóðin var losnuð úr herleiðíngunni; þareð nú skyldi taka upp allar trúarbragða venjur, einsog þær höfðu verið á dögum þeirra Mósis og Spámannanna, til þess að guðsþjónustugjörðin gæti farið fram að öllu einsog á dögum feðranna, (því henni skyldu menn halda í þessu nýja ríki, á hverju sem gengi), þá gat ekki hjá því farið, að Ísraels niðjar, er fastheldnir voru við trú sína, hlustaði með virðíngu á væri mjög fúsir að hlýða og þætti mikils um vert, þá er öldúngarnir mæltu: „svona var venjan forðum!" En þessar sögur um venjurnar gömlu, sem gengu mann frá manni, urðu hèr sem víðar annarstaðar hættuligar, og komu þeim er metnaðargjarnir voru til þess, að vilja ráða fyrir trú og breytni náúngans. Þessir voru Farísear, er einir þóttust kunna frá að segja venjunum; gætir flokks þessa hèrumbil 150 árum fyrir Krists burð. Nafnið sýnir þegar að þeir þóttust öllum fremri, því það þýðir: aðskilin, þ. e. framúrskarandi, einnig lýsti því kenníng þeirra og öll háttsemi. Lærdómur þeirra var blandaður: mart var rángt; mart það er ei varð sannað; má og vera að sumt hafi tekið verið úr speki Kaldeumanna t. a. m.

hvað andarnir[1] hefðist að og með hvílíkum hætti; um upprisu dauðra og hversu sumir risi fyrr upp enn sumir síðar og hvaða klæðnað þeir fengi á síðasta degi. Lögmálið hártoguðu þeir margvísliga, t. a. m. fjórða boðorðið og það sem þaraf leiddi, með því að gefa musterinu nokkurn hlut eigna sinna, er kallaðist uppfrá því Korban þ. e. heitgjöf, þóttu það helgispjöll, væri gáfu þessari varið til að bæta úr nauð manna, þótt þurfandi foreldrar væri[2]. Í hversdags háttsemi voru jafnvel þeir, sem bezt voru að sèr, allir í smámunum, gættu t. a. m. grandgæfiliga þvotta, þótt óþarfir væri; einnig Sabbatsdagsins, þá skyldi ekkert verk vinna; þeir gerðu og að ábyrgðarhluta, ef ei væri tíund svarað af öllum sáðjurtum, hversu lítilfjörligar sem væri. En svo fór að lokunum hjá flestum, að vandfýsni þessi og ráðvendni, sem ekki hafði annað til að bera enn útlitið, olli því, að menn viljandi og vitandi urðu hræsnarar, litu út einsog þeir væri guðhræddir en voru hinni sönnu guðhræðslu fjærlægir, og er það með sanni sagt, að þeir lètu lúðurþeytara lýsa góðgjörðum sínum[3], en hugurinn var fullur af vondum hugsunum. Þó voru Farísear vinsælir af alþýðu, því þeir lètust vera sannir Gyðíngar og þjóðin

[1]) Orðið Dæmon, sem hèr er útlagt anda, þýddi hjá Grikkjum æðri verur, og hèldu þeir að þær rèði fyrir kjörum manna og fyrir því sem menn kunnu ekki skil á í náttúrunnar ríki, en í nýja testamentinu þýðir það ætíð illa anda, að einum stað fráteknum: Potsg. 17, 18, 22.

[2]) Mark. 7, 11. [3]) Matth. 6, 2.

var svo gjörspillt, að svó þótti sem það eitt væri satt er þeir kenndu. Hillel og Schamai hètu helztu greinir þessa flokks. Margir af þeim er hærra hugðu, hnigu að Fáríseaflokki; bar það til þess að flokkurinn var þjóðligur og leit út fyrir að vera ráðsettur og vakti því þokka manna. Meðal þessara nefnir ritníngin Nikódemus[1], Gamalíel[2] og Pál postula[3], jafnvel eptir að hann tók kristni[4].

En ekki var vantrúin minni hjá Sadúseum enn hjátrúin hjá Faríseum; Faríšear ýktu ritnínguna, Sadúsear eingdu hana; þótti þeim það eina satt í henni er Mósisbækur sögðu, og mundi þeim einnig hafa orðið lítið fyrir að bera brigð á, að það væri guðlig sannindi er þær sögðu, ef ei hefði þeir óttast að missa virðíng alþýðu. Jarðnesk speki þótti þeim meira verð enn það er spámennirnir höfðu mælt; en ekki fengu þeir þessa speki af því þeir hefði brotið heilann yfir ritgjörðum góðra heimspekínga, heldur lètu þeir sèr lynda, ef þeir höfðu enhverja nasasjón, sem vakti hjá þeim efa um það er þeir ekki fengu skilið í ritníngunni. Svo stóð á, að grisk heimspeki var komin lengst inn í Asíu eptir að Alexander hinn mikli óð þar inn, er var lærisveinn Aristótelis spekíngs; lítur svo út, sem Sadúsear hafi einir fengist við speki þessa á Gyðíngalandi, þó ekki færist þeim það vel. Þóað nafnið „Sadúsear" ekki þýði rèttláta, heldur segi fyrsta formann flokks þessa, þá þóttust þeir þó svo rèttlátir,

[1]) Jóh. 3, 1. [2]) Postg. 5, 34. [3]) Postg. 26, 5. [4]) Postg. 23, 6.

að þeir kenndu, að allt væri undir ráðvendninni komið einúngis; þeir trúðu ekki forsjón sem gætti manna[1], heldurenn Epíkúrear, en líktust Stóiskum[2], er þeim þótti sem dygðin mætti að fullu launa sig sjálf; þeir þurftu því ekki trúarinnar um upprisu líkamans og hið eilífa líf sèr til huggunar[3]; en þar þeir höfðu enga von um líkama er aldrei eyddist, þá leituðust þeir með því meiri kostgæfni við að njóta ens dauðliga líkamans meðan kostur var, og lifðu því að sið Epíkúrea, einsog ríki maðurinn sem guðspjallið umgetur. Margir auðmenn og höfðíngjar meðal Gyðínga hnigu að þessum flokki, t. a. m. Kaífas og aðrir hans líkar, margir gjörðust og til að fylla hann af hirðmönnum Antípas konúngs, er voru menn gjálífir og hvikulir, þeir nefndust Heródisþènarar, til aðgreiníngar frá öðrum Sadúseum[4]. Þenna flokk átaldi Drottinn sjaldnar enn Farísea, er hann var miður metinn hjá lýðnum, en þó var hann enn gjarnari til ofsókna við þjóna hans, eptir að hann var til himna farinn, er þeir kenndu Krists upprisu og gjörðu hana að aðalatriði kristinnar trúar sem væri hún ónýt ella.

Ekki var heldur trútt um, að gyðíngatrúin væri ei að nokkruleiti blönduð egipzkri trú á Krists

[1]) Matth. 22, 29.

[2]) Epikúriskir og Stóiskir voru spekíngaflokkar griskir, og tók annarr nafn af Epikúr, er fyrstur hóf flokk þenna, en annarr af gángboga þeim i Atenuborg, er Stóa var nefndur, þar sem Zenon kenndi, höfundur speki þeirra.

[3]) Matth. 22, 23. [4]) Mark. 12, 13, 18.

dögum. Hið guðrækiliga einlífi, sem átti heima hjá Egipzkum, lýsti sèr einkum hjá Þerapevtum [þ. þýðir (sálna)lækna]. Þeir voru komnir frá Gyðíngum í Alexandersborg, hugðust þeir mundu verða heilagir ef þeir lifði einlífi, og gæfi nákvæmar gætur að sínum innra manni, þó tóku þeir aðra menn inní fèlag sitt og völdu þá eptir hlutkesti. Meðal annarra Gyðínga í Alexandersborg má einkum telja þá Fíló, djúpsærasta mann, og Apollon, allra manna málsnjallastan[1]. Gyðíngum þessum í Alexandersborg lá fremur við að gjöra ofmikið úr tilfinníngum, þó óljósar væri, en oflítið úr ljósri þekkíngu og ráðvöndu framferði; þó þótti þeim meir í ritnínguna varið enn Sadúseum, og þekktust þeir betur það satt var enn Farísear[2]. Þerapevtum voru Essear allsvipaðir; þó voru þeir starfsamari og mannvandari, er þeir völdu menn til fèlags síns, en bjuggu afsíðis frá öðrum mönnum, þótti líkaminn einkisvirði og þjáðu hann allmjög, hugsuðu hátt og djúpt um guðliga hluti, og brutu heilann yfir því, sem ekkert hafði fyrir sèr nema heimspeki Austurálfumanna, er ekki kunnu henni neitt hóf, er kenndu t. a. m. um ættartölur englanna og annað þvíumlíkt. En það á ekki við að fara hèr mörgum orðum um Essea og Þerapevta, er hvorugra er getið í ritníngunni; þó er ekki ólíkligt að víða sè mótmælt villulærdómum Essea í enu nýja testamenti, t. a. m. í

[1]) Postg. 18, 24. [2]) Postg. 18, 25.

brèfunum til Efesusmanna og Kólossumanna og í Júdasar brèfi.

7. §.

*Hvernig kennt var og hvar.*

Þegar einhverr skriftlærður eða lögspakur maður (sem er hið sama[1]) var orðinn svo frægur, og hafði fengið svo marga lærisveina að hann gat gjörzt lærifaðir (Rabbí), hvernig kenndi hann þá og hvar?

Allir rèttir spámenn báru guð fyrir því sem þeir kenndu; en það stóð ekki svo á fyrir Rabbínum að þeir gæti sagst vera spámenn; það átti betur við fyrir þá að lesa og útleggja spádómanna er þá voru til, enn að kenna nýja lærdóma af sjálfs viti[2]. Það var því helzta ætlunarverk þeirra Rabbína að leggja út bækur þær sem lesa skyldi til guðrækni, einsog ákveðið hafði verið og venja var til, einkum lögmálið. Þeir hèldu þá annaðhvort ræður og þýddu ritníngargreinir, einsog Kristur í upphafi fjallræðu sinnar, eður innrættu mönnum stutt spakmæli, einsog Kristur í niðurlagi hennar, þó að þau kæmi ekki ætíð við því, sem upp var lesið úr ritníngunni, heldur áttu að eins eitthvað skylt við einstöku orð í því[3], eða einhver atvik sem þá bar að höndum[4]. Þaraðauki var það mjög algengt, að hvorutveggi þeirra Sadúsea og Farísea báru upp spurníngar hvorjir fyrir aðra, til að reka hvorjir aðra í vörðuna,

[1]) sbr. Matth. 22, 35 við Mark. 12, 28. [2]) Lúk. 4, 17.
[3]) Jóh. 6, 31. [4]) Lúk. 4, 22, 23.

og hverr sem Rabbí hèt varði þá öllum sínum vitsmunum til að verja sitt mál, annaðhvort með ritníngargreinum, gömlum munnmælum eða eigin vitsmunum, því aldrei gekk á öðru enn einlægum deilum milli þeirra og matníngi millum lærisveina hvorutveggja flokksins; það má víða sjá í guðspjöllunum (einkum hjá Matth. 22), að þeir báru upp slíkar flækju-spurníngar fyrir Krist, einnig má þar sjá (í 46ta v.) að drottinn bar upp spurníngar fyrir þá aptur, er þeim var um megn úr að leysa, því hjörtu þeirra voru vantrúuð. Það var og einatt, að kennarinn spurði lærisveina sína nærri því einsog börn, svo að þeir því fremur sjálfir færi að yfirvega hlutina og kenndi fáfræði sinnar, þó megum vèr ei ætla, að það hafi að öllu verið einsog þegar presturinn spyr börnin. Stundum gjörðu kennararnir þetta til að komast að, hvernig lærisveinar sínir væri skapi farnir og koma þeim til að þekkja sjálfa sig[1]; þó var það optar, að þeir kenndu í viðræðum, og spurðu þá lærisveinarnir og andæfðu á móti[2]. Kristur mun sjaldnar hafa kennt á þenna hátt enn aðrir lærifeður, því ei var þess að vænta, að neinir lærisveinar bæri slíka virðíngu fyrir kennurum sínum, sem lærisveinar hans fyrir honum, er þeir á stundum eigi höfðu uppburði á að spyrja hann, svo ástúðligur sem hann var, og svo mikið sem þá furðaði á því er hann sagði[3]. Þá hafði Kristur

[1]) sbr. Mark. 5, 8; Jóh. 4, 35; Matth. 16, 5.

[2]) Jóh. 16, 19 — 14, 5. [3]) Jóh. 4, 27.

enn eina aðferð í kennslunni, auk þessara er nú voru taldar, og ei eru ólíkar þeim sem nú tíðkast; hana höfðu þeir einkum Austurálfubúar, og var hún í því fólgin, að menn annaðhvort kenndu með skáldligum orðatiltækjum, eða sögðu dæmisögur og fálu þarí sannindi þau, er mönnum skyldu hugföst. Þessar dæmisögur eru mesta afbragð, og verður eigi gjört svo mikið úr þeim sem skyldi, mætti hverjum þykja að þær væri honum hið mesta gersemi, er hann hefði átta frá blautu barnsbeini; er aðferð þessi, að kenna í dæmisögum, umfram alla aðra kennsluháttu að því, að hún er óflókin og því hæg fyrir þann sem skilníngslítill er, en þarhjá er í dæmisögum þessum en mesta gnægð speki og ástúðar, og finnur slíkt sá er vel er að sèr. Þóað nú dæmisögurnar ekki þá þegar fengi á hugarfar manna eða glæddi þekkíngu, mátti það þó vera auðvelt að muna þær og eptirá að sjá hvað með þeim var meint, með aðstoð heilags anda. Þareð þessi kennslumáti átti svona vel við, þá var eigi að undra, þó drottinn kenndi í dæmisögum, ekki einúngis alþýðu, heldur og lærisveinum sínum[1]. — Þá er enn að telja eina aðferð í kennslunni, er Kristur hafði við þá, sem faðirinn gaf honum; hún tíðkaðist einnig hjá Austurálfumönnum; var sú fólgin í einstökum athöfnum, er táknuðu lærdóminn er nema skyldi; því þegar Kristur lèt sjá, að hann var vinur barnanna

[1]) sbr. Lúk. 8, 10 við Jóh. 16, 25.

og þjón lærisveina sinna, þá er þýðíngin engin önnur í atvikum þessum, er þó miðuðu til mikils, enn að leysa úr einhverri spurníngu[1], eða kenna, hversu menn eigi að vera skapi farnir[2]; því er aðalþýðíngin uppfræðíng og upphvatníng.

Í sjálfu musterinu skyldi einúngis þjóna guði, þar skyldi eigi kenna; þó lèt það að líkindum, að kenníngin færði sig nær musterinu, og því voru mörg kennsluhús áföst við það; eru gángbogar Salómons[3] og kvennagarðurinn[4] hin merkustu. Í musterinu færðu prestarnir fórnir; hjá musterinu kom ráðið hið mikla (*Synedrium*) saman; til musterisins komu lögvitríngarnir úr höfuðborginni; þángað kom og múgur og margmenni úr öllum hèruðum landsins; því var ekki kyn þótt Musterisskólinn væri umfram hvern annann í landinu helga. Hverr sem því tókst það í fáng, að fara að kenna í musterinu — hvað þá ef hann var sveita-rabbí frá Galíleu — hann mátti búast við að tekið yrði eptir sèr, og vantaði á að það færi leynt sem hann kenndi (einsog t. a. m. það sem Essearnir fóru með) er það varð allt heyrum kunnugt; einnig mátti hann búast við þúngum ofsóknum, ef hann berliga mótmælti þeim lærdómum, er menn höfðu mestar mætur á[5].

Þá voru einnig Samkundur (*Sýnagógur*) í flestum borgum Palestínalands þeim er heldri voru, í sumum ein, í sumum fleiri, en í Jórsalaborg einni svo

[1]) Matth. 18, 1—2. [2]) Jóh. 13, 4 o. s. frv. [3]) Jóh. 10, 23; Postg. 3, 11. [4]) Jóh. 8, 20. [5]) Matth. 26, 55.

hundruðum skipti. Þessar samkundur voru skólar landsins; þó voru þær eigi að öllu einsog skólar nú á dögum, því síður einsog barnaskólar; því þó menn með ýmsum aðgjörðum hefði það fyrir augum, að fræða þá er upp voru að vaxa, þá var þó mentan barnanna enganvegin það fyrsta og fremsta, er farið var eptir, þá er menn settu samkundur; ekki voru samkundurnar heldur háskólar, einsog t. a. m. háskólinn í Tiberías er seinna var, eða spámannaskólarnir gömlu, er Samúel setti, svo að þeir næmi þar mentir er síðar skyldu verða alþýðukennendur. En samkundurnar voru settar á dögum þeirra Esras og Nehemías til þess, að viðhalda þekkíngu á ritníngunni og rèttri guðsdýrkun, bæta þetta og koma því inn að nýju. Voru þessar aðgjörðir því meir áríðandi, þar ekki var nema eitt musteri innanlands, þurfti alþýða þá ekki að koma saman að eins á einn stað, til þess að dýrka þar guð í sameiníng, eða sækja kenníng til Jórsala á hverjum helgum degi. Börnunum kenndu menn og ólu þau upp heima að öllu, einsog verið hafði á dögum feðranna helgu[1], og einsog Móses hafði boðið[2] (hlutu menn og að hafa þessa venju á dögum ennar fyrstu kristni), en fullorðna fólkið sótti samkundurnar á hverjum sabbatsdegi, og hverjum mánudegi og fimtudegi, ef vildi; þar kenndu enir skriptlærðu því, og þar skyldu allir biðja ásamt[3]. En til þess að allt

[1]) 1 Mós. 18, 19. [2]) 2 Mós. 12, 26; 5 Mós. 6, 7. [3]) Postg. 15, 21.

3*

færi fram tilhlýðiliga, þá voru samkunduhöfðíngjar fyrir samkundunum, einn eða fleiri fyrir hverri; meðal þessara er Jaírus oss kunnur orðinn[1]; skyldi samkunduhöfðínginn hafa vald til að ákveða, hverjum leyfa mætti að kenna alþýðunni[2], hvort sem maðurinn var Rabbí eða Rabbí ekki. Það þótti ekki minna ágæti að byggja samkunduhús handa alþýðu[3], heldur enn svívirðíng að vera rekinn úr samkundu[4], en þó voru til refsíngar, er þessari voru þýngri, einsog síðar mun sagt verða. Því víðar sem Ísraels lýður tvístraðist um víða veröld, því meiri var þörf á samkundum, til þess að bæta þeim það upp, er ekki varð komizt til Jórsala. Það var því bæði í borgunum í Asíu, þeim er ritníngin nefnir og fyrr er getið, að slík hús voru byggð til guðræknisiðkana og í öðrum stórum borgum, þar sem lögmálsins börn höfðu tekið sèr aðsetur, t. a. m. í Filippusborg[5], Tessalóniku[6], Beróeu[7] í Makedoníu; í Atenuborg[8] og Korintuborg[9] í sjálfu Grikklandi. En þegar svo voru fáir Gyðíngar í einhverri borg, að þeir eigi fengu byggt samkundu, eða þar sem svo stóð á, að kennurunum var hægra að kenna annarstaðar þó samkundur

[1]) Mark. 5, 22; Lúk. 13, 14. [2]) Postg. 13, 15. [3]) Lúk. 7, 5. [4]) Joh. 9, 22.

[5]) Postg. 16, 13. Bænahús stóðu optast á árbökkum, svo hægra væri til helgra þvotta í árvatninu; svo var og bænhús það sem hèr er umgetið á bakkanum við Strýmonsfljót; sbr. Phil. 1, 5.

[6]) Postg. 17, 1 og 1 Tessal. 2, 2. [7]) Postg. 17, 10.

[8]) Postg. 17, 17. [9]) Postg. 18, 4.

væri til, þá áttu menn guðrækiligar samkomar í heimahúsum, einkum á efstu loptunum[1]; urðu menn og til þess að taka í hinni fyrstu kristni, þeir er reknir voru úr samkundunum og ekki gátu fengið af sèr að eiga samkomur í goðahofum. Að vísu voru ekki nema einstök hús ætluð til slíkra guðrækuisiðkana, en með því sèrhverr staður er af guði ætlaður til að vera bænastaður, þá horfðu postularnir ekki á að boða trú og apturhvarf á mörgum öðrum stöðum, svo menn mega ekki ætla, að sèrhverr staður hafi verið aukasamkunda þar sem guðs orð var boðað. Þegar Páll postuli var kominn til Rómaborgar fánginn, bauð hann Gyðíngum þar heim til sín, til þess að útskíra ritnínguna og lýsa fyrir þeim guðs ríki[2].

Þá höfðu Gyðínga-rabbínar, einsog enir grisku spekíngar, musteri sitt úti á bersvæði; mátti segja að það væri allmikið; því þegar þeir voru á gángi hvervetna með lærisveinum sínum og höfðu ekki annað yfir sèr enn bláan himininn, þá hófu þeir ræður sínar og lögðu annaðhvort útaf fuglunum, sem voru að kvaka þar, eða liljunum, sem stóðu alblómgaðar á mörkinni; í einu orði að segja, útaf öllu sem þeir sáu og heyrðu á leiðinni[3]. Kristur sneri máli sínu ýmist til lærisveina sinna, ýmist til múgans sem fylgðist með þeim.

---

[1]) Lúk. 5, 19. [2]) Postg. 28, 16 o. s. frv.
[3]) Joh. 4, 35; Matth. 19, 23; Lúk. 28, 34.

§. 8.

*Helgi-siðir.*

Helgisiðum þeim, er Gyðíngar skyldu gæta, má bezt skipta í tvær greinir eptir eðli þeirra, er þá undir því komið hvort siðvenjur þessar voru ætlaðar til endurminníngar um einhvern viðburð, er menn gæti metið sem náðargáfu, er guð hafði gefið þjóð sinni — eða þær voru settar til þess, að helga hversdagslífið með lögmálinu.

Páskahátíðin var mikil hátíð hjá Gyðíngum; hún var sett í minníngu þess, er Ísraelslýður á svo furðanligan hátt var frelsaður úr greipum Faraós, skyldi hátíð þessi vera hvert ár, og skyldu Ísraels niðjar þá allir safnast til þakkargjörða í musterinu; þá skyldi og flytja guði hið fyrsta þakklæti fyrir ávöxtu ársins; bar hvorttveggja uppá sama tíma. Hvítasunna var reyndar uppskeruhátíð, þó skyldi þessi hátíð líka minna á það, er guð setti þjóð sinni lög á Sínafjalli. Laufskálahátíðin skyldi vera ljós vottur þess, er feðurnir enir gömlu gengu um í eyðimörku með samkundutjaldbúðina. Friðþægíngarhátíðin mikla skyldi á ári hverju setja fyrir sjónir: hversu menn þráðu endurlausn og leituðu eptir betrun lifnaðarins. Hvíldardagur (Sabbatsdagur) skyldi vera í hverri viku. Þá skyldu menn renna huga til guðs og búa sig undir ena eilífu hvíld hjá honum. Þá var enn hátíð haldin með hverju nýju túngli, Túnglkomuhátíðin; fyrsta túnglkomuhátíðin var í Október mánuði (*Tisri*),

og var sú einnig Nýárshátíð. Þessi hátíðahöld Gyðínga má ætla þegar kunnug lesendum bæklíngs þessa, og þykir ekki þörf að fara fleirum orðum hèrum enn nú er gjört; en vera má, að meiri sè þörf á að geta þess, að Gyðíngar hèldu Musterisvígsluhátíð á Krists tímum, í minníngu þess, er Júdas Makkabeus, er var trúmaður mikill, lèt hreinsa musterið eptir að Antíókus enn drambláti hafði saurgað það[1]; þessi hátíð er og kölluð altarishátíð og ljósahátíð, mun hún fremur kennd við altari, þar eð menn á henni færðu brennifórnir á altarinu, enn að nafnið sè kenníngarorð, en við ljós var hún kennd, þareð ljós loguðu á henni bæði í musterinu og úti fyrir öllum dyrum; hátíð þessi byrjaði þann 15 dag Desembers eptir voru mánaðatali[2] og stóð yfir 7 daga; það var öll von á, þó allir sannir Ísraels niðjar hefði mætur á þessari hátíð, sem var seinasti vottur þess, hversu aðdáanliga guð hafði verndað þjóð sína, og þess, hversu hraustir þeir voru ennþá á þeim dögum. Þó þótti flestum enn meir til annarrar hátíðar koma af enum seinni hátíðum. Það var Púrimshátíðin[3]; hún var mánuði fyrir páska; stælti hún svo upp í Gyðíngum bæði þjóðardramb og hefndargirni, að þeir sem hrokamestir voru hugðu, að sú hátíð mundi aldrei eiga sèr enda, þó hvíldardagurinn sjálfur yrði aftekinn[4].

---

[1]) 1 Makk. 4, 54 o. s. frv. [2]) Jóh. 10, 22. [3]) Esth. 9, 26 o. s. frv.

[4]) Til þess að vita hvernig hátíð þessi er til komin, og hvi

Á hinni miklu Friðþægíngarhátíð fór mesta fórnin fram, einsog alkunnugt er: þá er hinn æðsti prestur hafði flutt fórn fyrir sig og ættmenn sína, gekk hann inní musterið það er helgast var (hið allrahelgasta), skríddur hvítum línklæðum, með hinn glæsiliga skjöld á brjósti[1], og stökkti blóði á gólfið og á náðarstólinn, meðan örkin var þar; þá fórnaði hann hafri fyrir syndir þjóðarinnar, en rak annann útá eyðimörk; skyldi það tákna að þjóðin hyrfi frá syndum[2]. Auk brennifórna, þeirra sem fram fóru dag hvern, höfðu menn og þakklætis- og hreinsunarfórnir[3]. Það er auðvitað, að þegar menn færðu sláturfórnir þá offruðu menn dýrum, en jarðarávöxtum þá er menn færðu hinar aðrar, er ekki voru sláturfórnir.

Þareð trúarbragða-flokkarnir voru hverr öðrum svo ólíkir og svo marghátaðir, má nærri geta, að þeir, er hnigu að hverjum þeirra fyrir sig, hefði hverr sína siðu og gæfi meiri eða minni gaum að þeim siðum sem flestir höfðu. Hverr og einn Rabbí átti t. a. m. með, að láta lærisveina sína fasta lengur eða skemmur, læra lengri eða skemri bænir

hún hefir nafnið Púrim, verða menn að lesa allan kapitulann í ritningunni, sem til er vitnað, verður þá og auðskilið, hversu hátíð þessi vakti hefndargirni hjá Gyðingum, einsog sagt er.

[1]) Á skildinum voru leyndardómarnir Úrim og Túmmim og kemur fræðimönnum ekki saman um hversu þeim var háttað; þó var til þeirra tekið í málum þeim, er vandi var úr að ráða, og má vera, að kastað hafi verið hlutkesti, og á þann hátt skorið úr málinu. (2 Mós. 28, 30; 1 Sam. 23, 9 o. s. frv., 30, 7—8.)

[2]) 3 Mós. 16, 8 o. s. frv. [3]) 3 Mós. 12, 6 o. s. frv.; Lúk. 2, 24.

orðréttar; gæta hreinsunarsiða fleiri eða færri; gjöra heit, að hafna einhverri nautn lengri eður skemri tíma o. s. frv.; til þessa sýnist Kristur opt að líta í fjallræðunni.

Enn er þess að geta, að ekki veitti af að lögmálsins börn hefði nokkuð af helgisiðum útlendra þjóða; það var t. a. m. vandi hjá Gyðíngum, að karlmenn huldu andlit meðan á stóð embættisgjörð, og eru líkindi til, að siður þessi sè kominn af viðkynníng við Rómverja, er þeir byrgðu andlit sitt meðan blót fóru fram, svo hvorki sæi þeir til hægri eður vinstri, þareð þeir óttuðust að þeir mundi sjá illa fyrirburði meðan á blótinu stóð[1]. Þessir voru helgisiðir sem nú eru sagðir.

Nú er að geta um ena helztu háttu í hversdagslífi Gyðínga, höfðu þeir tekið þá annaðhvort af því svo var boðið í lögmálinu eða það var orðið að vana. Er þá fyrst að taka til er maðurinn fæddist. Það er alkunnugt, að Abrahams niðjar gættu nákvæmliga umskurnarinnar á Krists dögum, er forföður þeirra hafði boðin verið[2], þó ekki hefði menn ætíð getað gætt þess, að láta börn sín umskera, t. a. m. meðan verið var á eyðimörkinni; börn voru umskorin 8 daga gömul, þá var þeim og nafn gefið, eða því var yfirlýst með mikilli helgi ef það var áður ákveðið hvað barnið skyldi heita[3]; jafnan þýddi nafnið eitthvað, og var það dregið af einhverju sem við bar þegar barnið fæddist, eða af

[1]) 1 Kor. 11, 4. [2]) 1 Mós. 17, 10. [3]) Lúk. 1, 31; 2, 21.

því sem menn gjörðu sèr von um að úr barninu mundi verða, eða einhverju slíku; þannig eru t. a. m. nöfn þeirra Jakobs barna. það var vandi að gefa barninu aðeins eitt nafn, en ekki fleiri; það var einnig ætíð kennt við föður sinn, t. a. m. Símon Jónasson; en opt bar svo við, að menn breyttu síðar nafni, þegar eitthvert mikilvægt atriði bar að höndum í lífinu, sem breyttu manninum svo, að hann varð sem annarr, hvað þá ef þeim var boðið það af guði; úr Abrami varð t. a. m. Abraham, úr Sarai Sara, úr Jakobi Ísrael, einsog kunnugt er af gamla testamentinu; af nýja testamentinu má einnig sjá, að úr Símoni varð Pètur, úr Sáli Páll. þó var það ósjaldan, að menn voru nefndir báðum nöfnunum samt eða til skipta: þannig gjörðu t. a. m. Rabbínar, er þeir gáfu nöfn lærisveinum sínum eptir einhverju því, er þeim þótti skera úr í lunderni þeirra. þóað Kristur hefði gefið Símoni nafn og kallað hann Pètur (klett) fleirum sinnum[1], þá kallaði hann hann þó seinna Símon Jónasson þrisvarsinnum hvað eptir annað[2]; Pètur hafði og skömmu áður sýnt, að hann var ekki það bjargið á hverju kirkja Krists yrði byggð. þess er og að geta, að en útlendu mál áttu ekki lítin þátt í að breyta mannanöfnum og framburði á þeim, þegar menn athuga að Pètur hèt Kefas á sýrókaldeisku[3]; þannig var og nafnið Jósúa breytt í Jason á grisku

[1]) Jóh. 1, 43; Matth. 16, 18. [2]) Jóh. 21, 15.
[3]) 1 Kor. 15, 6.

eptir herleiðínguna; seinna breyttist það aptur í Jesús-nafnið, og þannig nefndi engillinn.

Þá er hjónabandið annað aðalatriði mannligs lífs; mátti konum Gyðínga finnast því meir um þessa stöðu, er undir því var komin virðíng þeirra að þær ætti börn í lögligu hjónabandi, nema ef þær tóku sèr fyrir að lifa sem spákonur fyrir guðs sakir, og hèldu þær með því sæmd sinni[1], en hitt þótti en mesta óvirðíng fyrir konuna, ef hún annaðhvort giptist ekki, eða varð eigi barna auðið þá er hún giptist; það lèt því að líkindum, að konur frestuðu ekki ráðahagnum, ef þær áttu völ á, þó úngar væri eða kostavandar; mundi það og hafa komið þeim fyrir lítið, þó þær hefði svo gjört, þareð vandi var til að þær voru fastnaðar, þegar ráðahagur bauðst, og hvergi um spurðar; skyldi maðurinn, er sèr vildi kvonfángs biðja, leita um við föður og bræður mærinnar og leggja fè til að ná þessum ráðahag, rèðu þeir þá einir, en ekki mærin sjálf. Fyrir fegurð konunnar gengust menn ekki svo mjög, en meir var á það litið, að hún hefði gott orð á sèr. Varla bar það við, að heitmaður og heitkona sæist fyrr enn brúðkaup þeirra var haldið. Brúðkaupið var mesta hátíð hjá Gyðíngum, og er að sjá af enu nýja testamenti, að ekki er gjörður munur á brúðkaupum og stórveizlum: skyldi brúðgumi tilleggja kostnað allan; hann skyldi senda þènara sína og bjóða gestum[2]; hann skyldi sjá fyrir mat-

[1]) Jes. 7, 14; 8, 3. Postg. 21, 9. [2]) Matth. 22, 3.

arkaupum á torgum; þá skyldi og gefa gaum að þeim er fátækir voru[1]; það var og vandi, að brúðgumi lèt klæðnað til, er gestirnir skyldi á sig taka áður þeir gengi inn í veizlustofuna[2]. Þegar nú viðbúnaði var lokið, bjóst brúðgumi heiman með vinum sínum að hitta mág sinn og sækja heitmeyju sína; var hún þá þar fyrir og vinkonur hennar hjá henni[3], og er brúðguminn hafði tekið á móti konunum, er hún var búin brúðarklæðunum, og notið fagnaðar vina sinna, þá hvarf hann aptur með öllu þessu föruneyti, en hinar meyjarnar, vinkonur hennar, gengu á undan flokkinum með blisljós, sem þær báru á staungum. Var nú búizt við ágætri veizlu að heimili brúðgumans eða föður hans, ef hann var þá á lífi, þótti mönnum lítið til hennar koma, væri þar ekki ýmisligt til leikfánga, dansleikar og gnægð ljósa; þar stóð fyrir veitíngum frammistöðumaður (öndvegismaður, kæmeistari, *Tricliniarcha*) og hafði nákvæma umsjón yfir öllum hlutum[4]. En ef að brúðkaupsgleðin fór af í hjúskapnum, þá fór svo enn, að maðurinn var rèttarhærri enn konan að lögum, því Móses hafði leyft manninum að skilja við konu sína (til að koma í veg fyrir annað verra) vegna harðúðar hjartna þeirra, og skyldi maðurinn þá gefa konu sinni skilnaðarskrá[5], þó eigi yrði henni ámælt fyrir saurlifnað hvorki áðurenn hún giptist nè síðan; en sannaðist það uppá

[1]) Lúk. 16, 21. [2]) Matth. 22, 11. [3]) Matth. 25, 1 o. s. frv.
[4]) Jóh. 2, 8. [5]) 5 Mós. 24, 1.

hana, átti maðurinn kost á að skilja við hana samstundis. Meðal Farísea var það flokkur Hillels á Krists dögum, sem ekki þótti það efunarmál að maðurinn mætti skilja við konuna eptir eigin geðþótta, með því móti að hann gæfi henni skilnaðarskrána[1].

Í ræðum Krists getur þess opt, að glaumur og glaðværð er í brúðkaupsstofunni, er öll ljómar af ljósum, en aptur hinsvegar grátur og tannagnýr í myrkrinu utanstofu. Er því nú að hverfa frá brúðkaupsgleðinni og geta harmanna. Ef vèr ímynduðum oss, að vèr værum þar nærstaddir er einhverr Ísraels barna andaðist á sóttarsæng, þá mundum vèr sjá einhvern náúnga hans veita honum nábjargir[2]; þá mundum vèr sjá karla reita skegg sitt og rífa klæði sín, heyra konur veina og gráta sáran en þó sorgar-saungvana taka yfir. Þó er þetta eigi sagt í því skyni, að menn ætli, að ekki syrgði menn svona mikið nema þegar menn mistu sína, því þess er að gæta, að það var næsta venjuligt meðal Gyðínga að syrgja ákafliga og berast lítt, ekki einúngis útaf láti einhvers náúnga síns, heldur útaf mörgu öðru andstreymi; þess er og að geta, að konurnar, sem grètu með, voru eigi alltíð frændkonur eða vinkonur, heldur fengnar til þess með fè[3]. Meðan á stóð sorgarsaungunum, var líkið þvegið og borið upp á lopt[4]; menn smurðu ekki líkin á

[1]) Matth. 19, 3. [2]) 1 Mós. 46, 4. [3]) Matth. 9, 23.
[4]) Postg. 9, 37.

þann hátt sem Egipzkir; þó var alltítt að smyrja þau með ylmandi smyrslum[1]; þaraðauk sveipuðu menn þau líni, vöfðu um liðamótin breiðum borðum og huldu höfuðið með sveitadúki[2]; þvínæst skyldi jarða líkið. Það þótti vera mesta miskunarverk að jarða, einkum þar ekki mátti lík snerta eptir lögum, og var sá óhreinn er snerti, því er svo mjög að orði gjört um góðsemd Tobíasar. Lærisveinar jörðuðu kennara sinn, ef þeir unnu honum[3]. Það voru einnig guðhræddir menn, sem báru Stefán út til greptrunar[4] og hræddust ekki banamenn hans, er ella mundu ekki hafa horft á að brenna lík hans einsog vandi var að gjöra illgjörðamönnuum. Lík stóðu skamma stund uppi[5]; líkið var lagt á börur[6]; báru ættmenn það út; til líkfylgðar buðust menn sjálfkrafa[7], þá kváðu við harmasaungar fjöllunum hærra[8]; engar höfðu menn líkkistur[9]; eigi var heldur fé lagt í gröf með dauðum manni, nema ef hann var hermaður, þá voru vopn hans í gröf með honum[10]; í gröfunum voru brenndar ángandi jurtir til ylms[11]. Grafirnar voru

1) Matth. 26, 12. 2) Matth. 27, 59. Jóh. 11, 44. 3) Matth. 14, 12. 4) Postg. 8, 2. 5) Matth. 27, 50—60. Postg. 5, 6—10. 6) Lúk. 7, 14. 7) Lúk, 7, 12. 8) 2 Kron. 35, 25.

9) Þó Jósep væri kistulagður (1 Mós. 50, 26), þá var það öðru máli að gegna, er hann var egipzkur höfðíngi. Þaraðauki átti að flytja lík hans lángan veg á burt. 10) Ezek. 32, 27.

11) Híngað kynni að mega heimfæra það, sem um er getið Jóh. 19, 39—40, ef menn ætla að brennt hafi verið til ylms myrru og viðsmjöri því, er afgángs var og ei var haft til smurnínga.

utanbæjar og jafnan höggnar í stein í hellrum; þannig var t. a. m. Jóseps frá Arimatíu[1]. Í hellrum þessum voru gaung, og voru líkin sett þar í röð á báðar hendur. Fyrir framan hellismunnana settu menn mikil björg, til þess að refsbræður (Schakalar) skyldi ekki geta brotizt inn og rænt líkunum[2]. Steinana mökuðu menn kalki og gjörðu hvíta til auðkenníngar, að allir fengi sèð að þar voru menn leiddir og gæti varað sig á að koma svo nærri að þeir saurguðust[3]. Stundum voru hvolf uppi yfir leiðunum til skjóls fyrir óveðri[4].

### 9. §.

*Hversdagshættir.*

Nú er að hverfa frá leiðum hinna dauðu og víkja málinu til háttsemi hinna lifendu, slíkrar er var um þær mundir er Kristur var á dögum; er þá hægast og fljótast að skilja hana, ef menn íminda sèr að þeir fari að finna einhvern af löndum hans. Skundum þá í hús það, er oss er inní boðið, og þar er menn bíða vor, að ei fáum vèr ryk á strætunum, er þau eru eigi steinlögð; húsið er engin konúngshöll, að forstofa sè utanveggja, og menn verði að láta dyravörðinn útvega sèr leyfi hjá herranum til að koma inn[5]; en þó er það álitligt, byggt í ferhyrníng úr steini, með nokkrum loptsölum, og mætti kalla það sèligt hús, ef gluggar væri á, er vissi út að strætum, en þar ekki er svo; þá er

[1]) Lúk. 23, 53. [2]) Jóh. 11, 39. Lúk. 24, 2. [3]) Matth. 23, 27. [4]) Mark. 5, 2—3. [5]) Esth. 6, 4. Jóh. 18, 16.

dymmt inni og fremur skuggaligt. Vèr færum oss nær; en þó Austurlendíngum sè við brugðið fyrir gestrisni sjáum vèr samt, að þar er hurð í lási, eru á henni margsháttaðir orðskviðir; vèr hljótum að drepa á dyr og fer það saman, að konurnar, sem heyra, hlaupa í þau herbergin er vita frá strætinu, en bóndi kemur til dyra, lýkur upp með trèlykli og biður gesti velkomna; hann leggur hægri höndina á brjóstið, hneigir sig djúpt og segir: „friður veri með yður" (þ. e. sælir verið þèr). Ef nú svo væri, að komumaður er meiri háttar enn sá er fyrir er, eða hann þyrfti að biðja hann nokkurrar ásjár, þá fellur hann til fóta komumanni og kyssir á fót honum[1]. Það sèst á búníngi hans hvort hann ætlar að hafa mikið við komumenn eða ekki; er hann jafnan svo búinn, að hann er í víðum nærfötum, girtur belti fyrir neðan bríngspalir, en þar utan yfir í kápu víðri eður kyrtli, með vafhúfu (*Túrban*) á höfði, úr dúki er sívafið er um höfuðið, og hefir hann þá við ef hvít er húfan; hvítan klút hefir hann á vinstra handlegg til að þerra vit sín; eru klæði þessi sem nú eru talin purpurarauð, svo þau glita, því það er ríkra manna og ofláta að berast mikið á í klæðnaði[2]; ylm ber af honum hvar sem hann gengur, því hárið er smurt; fötin ánga af brenndum jurtum

[1]) Matth. 18, 26, 29. Af því minna var um kurteisi hjá Rómverjum enn Austurlendíngum, þá var það ekki tiltökumál, að Pètri fyndist mikið um, er Kornelius fèll á knè fyrir honum. Postg. 10, 26. [2]) Matth. 6, 19. Jak. 5, 2.

og skeggið lángt og mikið, er þykir mannsins mesta prýði, ángar af viðsmjöri og ylmandi smyrslum[1]. Þannig var þá höfðíngi þessi búinn er veitti oss móttöku í víðu gángrúmi fyrir framan húsið, og er þaðan að gánga útí hið auða rúm á húsabaki; býður hann oss þángað fyrst, því hèr eru allir hlutir þægiligri og skemtiligri enn inni í herbergjunum: loptið hreint og svalt, kalt uppsprettu-vatn, sem rennur óðum, og laugahús[2]. Meðan þessu fór fram, hafa konurnar búið sig og má nú sjá þær skrautbúnar. Klæðnaður þeirra líkist karlmanns-búníngnum, þó má kenna þær á því, að þær hafa blæju fyrir andliti og men á hálsi og hrínga, er þær bera mjög, og speigil úr málmi í vinstri hendi, þær lita kinnarnar tállit og leita bragða til að gjöra sig fagureygðar. Líður nú þegar að matmálstíma. En áður tekið er til matar vill húsbóndi tala við oss leyndarmál nokkurt; hann leiðir oss þá að nýju í hin víðu gaung og gánga þaðan dyr til ymisra herbergja niðri undir loptsölunum; í einu þessara herbergja vísar hann oss til sætis á legubekk, er hann annarr skársti hluturinn sem til er innanstokks, næstur gólftjaldinu, enni mestu gersemi, svo vèr máttum leysa ilskóna af fótum oss áður vèr á það stigum. Þá hann hefir nú látið í ljósi það sem honum býr innanbrjósts án alls afdráttar[3], þá tökum vèr handlaug að venju Gyðínga áður vèr mötumst, í kerum

[1]) Sálm. 133, 2. [2]) 2 Sam. 11, 2. [3]) Sálm. 1, 1; 111, 1.

þeim er þar standa handa borðgestunum[1]; ef að vèr gleymum að taka handlaug, þá mundi það ekki þykja minna varða hjá hverjum Rabbí af Fariseaflokki, enn að vèr hefðum brotið eitt af enum tíu boðorðum. Menn mundu líta mjög á hefðarsæti við matborð[2], vèr mundum sitja til borðs á gólftjaldinu — þó voru heldri menn vanir að hafa lága legubekki — hafa kreppta fæturna, snúa hægri hlið að matnum og halla oss þannig hverr uppað annars brjósti[3]; sjálfsagt helzt að þess brjósti, sem oss er bezt við. Áður til matar er tekið les húsbóndinn borðsálm og þakkar hinum mikla gjafara, sem allra augu vona til[4]; brauðið er ekki eins þunnt og páskakökurnar ósýrðu, en þó er það ekki þykkra enn svo, að brjóta megi; þá dýfa menn brauðbitum í vín það er blandað er áður með vatni, og draga við það vökvann úr bikurunum[5] og þykir engin ósvinna að brúka til þess lúkurnar; þarf og ei heldur kníf eður gaffal við matinn, en maturinn er annaðhvort egg eða fiskur eða húnáng eða sauðakjöt. Þar gánga sveinar fyrir borði er vèr mötumst og bera oss það er vèr mælumst til. Ef kalt væri, mundum vèr leita oss hita með því að drepa fótum undir ullarábreiðurnar, er liggja yfir eldstó, er stendur í miðri stofu og leggur ilinn þaðan um allt húsið af eysu og glóðheitum kolum er þar brenna[6]; stundum voru eldstór þessar svo gjörðar, að flytja

[1]) Jóh. 2, 6. [2]) Lúk. 14, 7. [3]) Lúk. 16, 23. Jóh. 13, 23. [4]) Mark. 8, 7. Matth. 26, 26. [5]) Matth. 26, 23. [6]) Jóh. 18, 18.

mátti. En gjörum við, vèr þurfum ekki il, og viljum heldur út og fá kvöldblæinn á þakinu, sem er flatt einsog eggslètta; þá eru stigar upp að gánga gegnum loptsalina, því það er þægiligra enn að gánga upp svalirnar að utanverðu, er gánga frá stèttinni til þekjunnar[1]; er mold borin á þekjuna og troðin vel, ef ei fæst grjót til. Þó er miðjan á þekjunni hærri enn brúnirnar, að regnvatnið renni af eptir vatnsrennunum, liggja þær til hliðanna og rennur vatnið um þær ofaní vatnsdældina á húsabaki. Húsbóndi verður að gæta laganna, og því hefir hann látið gjöra girðíng út við þakrendurnar umhverfis, svo að óhult megi þar uppi vera að ei falli menn útaf og verði hann við það sekur[2]; en þeim megin er veit til næsta húss þarf girðínguna ei hærri enn svo, að auðveldliga megi stíga yfir, ef menn vilja hafa meira gángrúm. Vèr gjörum nú við að nokkrir af komumönnum sè burtfarnir, og er þá tvennt til fyrir oss, sem eptir erum, annaðhvort að leggja af stað undir nóttina og er það alvenja[3], eða vèr viljum gista hjá bónda um nóttina og kjörum vèr það. Hann vísar oss til rekkju í einhverju af loptherbergjunum, er vèr áður (í 7 §) gátum um að stundum hefði verið notuð fyrir helgistað. Bóndi hvílir sjálfur í neðstu stofunni á legubekk, og er setán troðin með hári, nema hann hafi

[1]) Lúk. 5, 19. Matth. 24, 17. [2]) 5 Mós. 22, 8.
[3]) Lúk. 11, 6.

heldur viljað nátta uppi á þekjunni með góðum aðbúnaði. Sængurfötin, sem vèr liggjum við, eru tvær hársængur eða tvær þykkar ábreiður úr tóvinnu, höfum við aðra undir enn aðra ofaná; þær eru svo lèttar, að hverr maður getur haft með sèr og geymt um daga[1]. Liggur hverr í rúmi sèr, og er ekki svo mikið sem börn og foreldrar sofi saman, heldur einúngis í sama herbergi[2]. Þar logar hjá oss ljós alla liðlánga nóttina, því svo kunnu Gyðíngar illa myrkrinu, að þeir lètu sèr það mestu skipta að flæma það á burt; því meir hlaut þeim að bregða við sèrhverja líkíng, er þeir heyrðu að dregin var af myrkrinu.

Vèr sofum af um nóttina, en vöknum við kvarnarhljóð um morguninn, er ambáttirnar mala handkvörnum, og er þá malað korn það, er hafa skal til matar um daginn. Ljósið var þá það er vèr sáum síðast um kvöldið, og kvarnarhljóðið það er vèr heyrðum fyrst um morguninn, og ráðum vèr þar af að hèr eru góðar mannabygðir og máttur manna á milli[3].

### 10. §.

### *Mál, vog og gángsilfur.*

Það er næsta ómissandi að kynna sèr, á hvern hátt landsmenn mæla, vega og virða skotsilfur, meðal hverrar þjóðar sem er, eigi menn að geta fengið glögga þekkíng á landsháttunum. En þó að mál þetta sè harðla óljóst, og menn greini mjög á hèr-

[1]) Matth. 9, 6. [2]) Lúk. 11, 7. [3]) Jerem. 25, 10.

um, svo ekki er við því að búast að vèr hittum það eina er sannast er og rèttast í þessu efni, þá skal samt geta þess, hversu þessum hlutum var niðurskipað hjá Ebreskum; er það opt, er menn spyrja um slíkt, að meira ræður hnýsni enn lærdómsfýsn, t. a. m. þegar spurt er hvað laung hafi verið alinin eða hve mikið mælirinn tók sem getið er[1], þá er hægt að sjá að það gjörir lítið til lífernisbetrunar; enda þótt menn hefði sannar sagnir um hversu þessu var skipað, þá virðist þó svo, sem eigi sè mikið fyrir það gefanda, það gjörir t. a. m. kraptaverkinu í Kana ekki mikið, hvort að vínkerin, sem þar er um getið, voru 40 potta kvartil ellegar tveggja potta ílát[2].

Fyrstu dagsmörk þau, sem fornmenn tóku eptir, voru þegar sól gekk til viðar og rökkva tók; því lèt að líkindum, að hver þjóð, sem lifði svo snemma á tímum einsog Ebreskir, gjörði það að dægraskiptum, eða teldi daginn frá kvöldinu, einsog mælt er þeir gjört hafi. Einnig lá það við, að byrja vikuna á sunnudegi, er hann var fyrsti dagur sköpunar. En svo var degi og nóttu skipt á Krists dögum, að hvort um sig var greint í fjóra stærri

1) t. a. m. hjá Matth. 5, 15; 6, 27.

2) Jóh. 2, 6. Hèr er að athuga, að höfundurinn lítur að eins á trú og siðgæði, og hefir hann að því leiti rètt að mæla; en þegar á allt er litið, hefir hann rángt að orði komizt, því engin atvik eru svo litil í sögu neinnar þjóðar, að eigi glæði þau þekkíngu á sögunni, ef maður á með að fara, er veit hvar þau eiga heima og hversu þau benda á annað meira.

hluta eður dagsmörk, en hvert dagsmark aptur í 3 smærri, eða klukkustundir[1]. Forntíðamenn Ebreskra skiptu nóttinni að eins í 3 vökur: var hin fyrsta frá sólarlagi til miðnættis, önnur frá miðnætti til aptureldíngar (hanagals), hin þriðja frá apturelding til sóluruppkomu[2]. Mánuður byrjaði með túnglkomu; lá það bæði nærri og minnti einnig Ísraels niðja á ferðina úr Egiptalandi, sem hófst þann 15da dag í Nísan-mánuði, en það er Apríls-mánuður hjá oss. Því byrjaði kirkjuárið með fyrstu túnglkomu í Apríl, en nýjárið hófst strax sem jarðirkjustörf byrjuðu, í Október mánuði, en það var Tisrí hjá Gyðíngum. Til þess nú að bæta upp mismuninn millum þess ársins, er menn töldu eptir gángi sólarinnar (sólarárs) og þess, er menn töldu eptir mánuðum (mánaðaárs), er byrjuðu með túnglkomum, þá varð að auka einum mánuði við sum árin eður telja þeim aukamánuði. Ekki var ennþá svo komið, að fræðimenn Gyðínga væri farnir að telja árin frá sköpun veraldar, er þeir töldu þau frá ymsum minniligum aðburðum í þjóðsögu sinni, t. a. m. frá því er Gyðíngar fóru yfir hafið rauða;

[1]) það lítur svo út sem Markús 15, 25 meini 3ja dagsmark, en Jóhannes (19, 14) hina 6tu klukkustund, er þeir segja frá krossfestíngu Krists, og þá telst svo til, sem dagurinn byrji með miðjummorgni, en Kristur hafi krossfestur verið að nóni.

[2]) það er að ráða af Markús 14, 30, 72, að ekki sè meint annað með hanagali, enn einsog orðin hljóða, að haninn gól, en hinir guðspjallamennirnir, Matth. 26, 34; Lúk. 22, 34; Jóh. 13, 38, meina með því eitt af dagsmörkunum, einsog Ebreskir í fyrndinni.

frá því að lögmálið var sett, eða frá því, er þeir fengu heimfararleyfi frá útlegðinni í Babýlon.

Gyðíngar skiptu á líkan hátt vegalengd sem tímalengd; þeir skiptu vegum í áfánga. En það var áfángi, er fara mátti á 10 klukkustundum, jafnvel þó stundum mætti fara á lengri tíma, stundum á skemri. Svo eigi væri vanhelgaður hvíldardagurinn að nauðsynjalausu, mátti þá að eins fara eina dagleið, en hún var ekki lengri enn 1,900 danskar álnir og var hún kölluð helgidagaleið[1]. Þessi helgidagaleið er nær því 7 skeiðvellir (*stadia*) að lengd; en hverr skeiðvöllur[2] var nær 3 hundruðum álna, og var hlaupsvið í leikum meðal Grikkja og Rómverja[3]. Það var rómversk míla, er var 8 skeiðvellir að lengd, en það er einn fimmti hluti danskrar mílu, og er þá hver dansk míla svo laung sem 40 skeiðvellir; en 200 skeiðvalla er í þíngmannaleið.

Hver ebresk alin (*Amma*) var annaðhvort 5 þverhandar-breiddir (*Tefak*) að lengd, en það er 21 þumlúngur, eða 6 þverhandar-breiddir, en það eru 26 þumlúngar, hálfum fátt í. Menn höfðu og griska alin (*Pekys*) hálft annað griskt fet að lengd, en griskt fet er nær því svo mikið sem danskt. Til lagarmáls höfðu menn mæliaska[4] (*Metretes*), tók hverr

---

[1]) Postg. 1, 12. Matth. 24, 20. [2]) Lúk. 24, 13. Jóh. 11, 18. [3]) 1 Kor. 9, 24. Fil. 3, 14.

[4]) Jóh. guðspjallamaður nefnir mæliaska (*Metretes*) í 2 kap., 6 v., en meinar ef til vill hálfmerkurkana (*Xestes*).

mæliaskur 40 potta, sem er gylt kvartil að dönsku máli. Þá var enn annarr mælir *Sea*, er tók 13 potta. Hinn þriðji mælir var *Xestes*, það er hálfmerkur mál. Margir voru enn aðrir mælirar, þar á meðal rómverski mælirinn *Amphora*, það er 27 potta mál. Til að mæla korn og aðra þurra vöru höfðu menn rómverskan mæli (*Modius*), og hafa menn kallað hann skeppumál, en þó var hann ekki meira enn hálfúr skeppumælir að dönsku máli. Enn minni var griski mælirinn *Koinix*, það var tveggja marka mál. Enn var *Satum*[1] eða *Sea*, hálft annað kútmál; *Efa*, hálft fimta kútmál; *Letek*, einnar tunnu og 7 kúta mál. Kórus eða *Kómer*[2] helmíngi stærri, eða tveggja tunna og 14 kúta mál.

En ekki breyttust minna vogarmálin hjá Gyðíngum enn hin önnur, er hèr eru sögð. Móses hafði fyrir guðs sakir gjört það sem í hans valdi stóð, að allan rètt og grandvara skyldi við hafa við vog og mælira, sem ekki mátti án vera í skiptum manna á milli[3]. Hann hafði látið löggylda sýnishorn af hvorutveggju mælirunum, og látið geyma í samkundutjaldbúðinni, og voru þau flutt þaðan í musterið, er það var byggt, en týndust er það var eyðilagt. Nú tóku við munnmæli og fègirni; einnig fóru Gyðíngar að taka upp vogir og mælira þeirra þjóða er yfir þeim áttu að ráða, eða nábúaþjóðanna sinnar í hvört sinn, eptir að þeir voru heim komnir úr Babýlónar-herleiðíngu, olli því ýmist, að þeir

[1]) Matth. 13, 33. [2]) Lúk. 16, 7. [3]) 3 Mós. 27, 25.

þorðu eigi annað, ýmist ágirnd þeirra. Meðal helztu vogarmála á Krists dögum er þá fyrst að telja *Drökmu*, það er kvintín að dönsku máli; þá *Sikil*, en það eru 5 drökmur eður rúmt lóð; þá *Litru*, en það er 21 lóð[1]; þá *Mínu*, það er 28 lóð, þá *Talentu*, en það eru 5 fjórðúngar og 5 merkur.

Áður enn menn fóru að slá penínga, vógu menn málminn og verðlögðu hann að því er hann var þúngur til. Þannig var Mína og Talenta hjá Grikkjum, og Sikill hjá Ebreskum, hvorutveggi þýngdarmál. Því vóg Abraham silfrið í hendur Efroni, og Davíð gullið í hendur Ornani[2]. En eptir að Gyðíngar voru heimkomnir úr herleiðíngunni, verðum vèr þess varir, að þeir höfðu myntfè. Helzti peníngur þeirra var *Sikill*, stóð öðrumegin á honum rjúkanda reykelsisker og þaryfir ritað þetta: „einn sikill Gyðínga", en hinumegin Aronsstafurinn blómgaður; þaryfir var þetta skrifað: „Jórsalaborg en helga"; skattinn skyldi borga með þessum peníngi, er bæði var helgur og innlendur, en engu öðru fè; en því sjaldgæfari var peníngur þessi meðal þeirra Gyðínga er utanlands bjuggu, sem hann gekk ekki einusinni í skiptum manna á milli innanlands á Krists dögum. Sem nú þeir er utanlands bjuggu skyldu borga þjóðskattinn[3], þá urðu þeir að leita eptir einhverjum þeim er skipti peníngum, og gat haft skipti við þá á enu útlenda silfrinu fyrir þjóð-

[1]) Jóh. 12, 3; 19, 39. [2]) 1 Mós. 23, 16. 1 Kron. 21, 25.
[3]) 2 Mós. 30, 11 f.

peninginn; þennan var þá að hitta í musterisgarðinum, þarsem Kristur margsinnis átaldi fyrir pretti þá, sem þar voru í frammi hafðir[1]. Skatturinn var hálfur sikill fyrir hvern fullorðinn mann, þ. e. þrjú mörk og 12 skildíngar danskir, þegar svo telst til að hverr sikill er 1 ríkisdalur 24 skildíngar. *Stater* nam jafnmiklu sem sikill, og voru það 30 staterar (silfurpeníngar) sem Júdas tók fyrir er hann sveik Krist[2]. En tvöföld drakma eður *Didrakma* var á við hálfan sikil, því var hver drakma einn fjórði hluti sikils eða staters, þ. e. 30 skildíngar danskir. Rómverski peníngurinn *Denarius*, sem var álíka og grisk drakma, er nefndur þessu nafni (Denaríus) af því að hann gildti á við 10 „Asses" (*Decem-As*), því var hverr *As* 3 skildíngar, helmíngur af as eða *Assarion* 3 hálfskildíngar, hálfur Assarion eða *Qvadrans* þrír fjórðupartar skildíngs, og hálfur Qvadrans eða *Lepton* þrír áttundu partar úr skildíngi[3]. Þó var stundum í hversdagsmáli enginn munur gjörður á qvadrans og lepton, hvítíngi og skarfi, þegar talað var um peninga sem litlu verði námu[4]. Vèr höfum nú nefnt gángsilfrið frá sikli til minnsta peníngs, og skulum á líkan hátt nefna það frá enum smærri peníngunum til inna stærri; þá er þess að geta, að 25 siklar eða 100 drökmur er 1 *Mina* silfurs, og mætti því fá hana fyrir 31 rd. 1 mk. 8 sk. En 1 *Talenta*[5], er Lúter útlagði einsog mínu og

[1]) Jóh. 2, 15. Matth. 21, 12. [2]) Matth. 26, 15. [3]) Mark. 12, 42. [4]) Matth. 5, 26. Lúk. 12, 59. [5]) Matth. 25, 15.

kallaði „Centner", hún var ei minni enn 60 mínur, þ. e. 1875 ríkisdalir, þegar metið er eptir attisku gángverði, einsog vèr höfum gjört, því það var eptir öllum líkindum í Palestínulandi á þeim tímum sem hèr er um að ræða.

11. §.

*Landsstjórnin.*

Vèr værum ekki betur farnir enn Farísearnir, ef vèr hèldum að það væri aðalatriðið að gjöra næman mun á qvadrans og lepton, þegar á að segja frá, hvernig á stóð á Krists tímum; en þó að vèr nú ekki megum sleppa athugasemdum, þó smáar sè, er vera mætti þær gjörðu skiljanligt eitt eður annað, sem ritníngin umgetur, þá er oss þó meiri fýsn á að gefa gaum að stórmennunum útlendu, er rèðu fyrir Gyðíngalandi, og með yfirráðum sínum gjörðu breytíngar í því, sem meira kvað að enn vog og mæli. Þessir höfðíngjar voru rómverskir. Rómverjar höfðu í þann tíma ríki um öll lönd, og þjónuðu þeim allar þjóðir um víða veröld, svo lángt sem menn vissu deili á, voru því lángt meiri kynni milli landanna á þeim dögum enn áður hafði verið nokkru sinni. Því gat ekki hjá því farið, að hvar sem fór að bera á einhverri andagipt, svo að afbrigði var að eður fèkk á hugi manna, að þá yrði það hvervetna heyrum kunnugt; mátti þetta öllu fremur segja um andagipt þá, er ei var komin af leir jarðar, heldur af himnum ofan til að spekja hugi manna. Það var lokið óeyrðum innanríkis,

Águstus sat að ríkjum og var einvaldur yfir Rómaríki; því var orðið auðvelt að flytja kristniboðið í þessu enu mikla ríki, og menn höfðu tóm til að fara að hugsa um guðlig efni. Rómverjar vildu ekki að það skyldi mega um sig með sanni segja, að þeir ekki kynni skil á því er vel sæmdi. Þeir gjörðu sèr því allt far um, að verða ekki minni í neinum fræðum enn Grikkirnir, sem þeir höfðu bælt undir sig. En kristinni trú er svo háttað, að sá sem hana vill nema verður að nema hana einsog hún er, og er þá ekki að óttast fyrir að það verði henni að neinni hrynding, þótt öll rannsókn sè við höfð og hún saman borin við þau hin jarðnesku vísindin. Hverr sem var svo farinn, að hann fann hvað satt var, varð þess fljótt varr, að hún var speki æðri enn nokkur önnur. Svona stóð á þegar Kristur fæddist. Sextíu og fimm árum áður höfðu Rómverjar komið sèr svo við, að þeir gjörðu um málin, er þeir frændur Makkabearnir Aristóbúlus og Hirkanus áttu ófrið saman þar í landi og börðust herfiliga. Skömmu áður var Antípas frá Ídúmeu farinn að láta til sín taka, kom og þar að, að fullur aðskilnaður varð valdstèttarinnar og klerkdómsins, er fyrrum hafði verið óaðskilið, og hafði einn maður verið höfuðið fyrir hvorutveggju, frá því er Símon Makkabeus var á dögum. Þá er Pompejus, er kallaður er hinn mikli, hafði unnið Palestínu, lèt hann Hirkanus vera fyrir landinu að nafninu til, og skyldi hann bæði veita forstöðu klerkdóminum og valdstjórninni, en

þó var hann ekki meir enn jarl Rómverja. En Sesar (*Cæsar*) fèkk Antípatri í hendur valdstjórnina, og skyldi hann hafa jarlsdæmið, sem Hirkanus hafði haft (*procurator provinciæ*), en Hirkanus skyldi einúngis mega hafa forstöðu fyrir klerkdóminum. Sonur Antípaters var Heródes, er kallaður er hinn mikli einsog Pompejus, og hafði eigi meira til viðurnefnisins enn hann; hann líktist mjög föður sínum, var maður slægvitur og hamíngjusamur sem hann; við hann barðist Antígónus, seinastur af ætt Makkabea, og hætti svo hamíngju sinni að ónýtu. Sat nú Heródes frá Ídúmeu, vinur og jarl heiðíngja, í Jórsalaborg, þar er Davíð konúngur hafði áður setið. 27 árum síðar fæddist Jesús Kristur af Davíðs ætt og í Davíðs borg; Heródes var þá enn konúngur[1]; hann uggði enn mjög um sig, var svikull og grimmur, sem aðrir harðstjórar[2], og dó fáum árum síðar. Þessi eru börn Heródis, er mest koma við þessa sögu: Arkelás og Heródes Antípas; þeir voru albræður, móðir þeirra var Malthace, ættuð frá Samaríu; Filippus fjórðúngshöfðíngi var hinn þriðji, hans móðir var Kleópatra; Heródes Filippus hinn fjórði, móðir hans var Maríamne Símonardóttir höfuðprests. Heródes Filippus fèkk ekki ríki eptir föður sinn, en þarámót

[1]) Matth. 2, 3. 8. 16.

[2]) Það er alkunnugt, að Heródes var aldrei nema jarl Rómverja, en kallaður var hann konúngur af landsbúum og vildarmönnum til virðínga við hann, og því er hann konúngur kallaður í nýja Testamentinu.

rænti Antípas, bróðir hans, hann Heródíu konu sinni; Aristóbúlus, hinn fimti son Heródis, var drepinn á únga aldri ásamt móður sinni Maríamne, er var Makkabeaættar, hans börn voru þau Heródía og Agrippa hinn fyrsti, og því er hans hèr getið. Heródes konúngur hafði ætlazt svo til, að Arkelás skyldi taka ríkið eptir hann[1], en Rómverjar vildu hlut í eiga málum þessum, er þeir þóttust eiga landið, og skiptu því nokkrum hluta þess millum Antípas og Filippus, en Arkelás skyldi hafa suðurhlutann einúngis og jarlsnafn (*Ethnarchos*). Þó var þessi hluti stærri enn svo, að hann mætti stjórn á hafa, og hlaut hann eptir 10 ár að fara útlægur til Frakklands, í staðinn fyrir að verða konúngur, einsog heitið hafði verið ef honum færi vel að. Rómverjar lètu ekki við svo búið standa; þeir sendu Kópóníus frá Róm eptir að Arkelás var rekinn frá ríki, og skyldi hann vera landshöfðíngi (*procurator provinciæ*) yfir heraði þessu, er nú var höfðíngjalaust, þó skyldi jarlinn í Sýrlandi hafa aðal-yfirráðin (*proconsul*); áður höfðu þeir tekið Antípater, innlendan mann, til landshöfðíngja. Þessir landshöfðíngjar stjórnuðu sjaldan lengur enn 2 ár í senn, meðan Águstus sat að ríkjum, og urðu þannig landshöfðíngjaskipti þriðja hvert ár, en þá hafði Valeríus Gratus, fyrsti landshöfðínginn sem Tiberíus setti, landstjórn á hendi um 11 ár; þá Pontíus Pílatus 10 ár, og kom hann til landstjórnarinnar

[1]) Matth. 2, 22.

þá er Kristur var 28 ára gamall, tveim árum áður enn hann tók að kenna.

Þannig var landið helga einsog það var stórt til skattskylt undir Rómverja um þessar mundir; en þó var mest ríki þeirra í Júdeu og þeim sveitum, er þar láu undir, er Pílatus, rómverskur maður, hafði þar landstjórnina, en hinum heruðum rèðu inulendir heraðshöfðíngjar, og skyldu að eins gjöra Rómverjum skil, er þeir höfðu þegið umdæmi sitt að þeim. Þó skyldu fjórðúngshöfðíngjar eigi gjöra Pílatus nein skil fyrir því, hvernig þeir stjórnuðu, heldur jarlinum á Sýrlandi, einsog Pílatus sjálfur; því bauð Tíberíus keisari ekki landshöfðíngjanum í Júdeu, heldur jarli sínum á Sýrlandi, að senda Antípas lið, er hann komst í vandræðin í stríðinu sem hann átti við Aretas konúng í Arabíu. Pílatus hafði ekki meira fjölmenni enn svo, að nóg væri til að að bæla landsmenn og koma við lögum og rètti; í Jórsölum hafði hann ekki meira lið enn 420 manna (*cohors*), en í Sesarea, þar er hann sjálfur sat, 2100 manna (*quinque cohortes*). Gyðíngar sjálfir höfðu engan landsher; þegar því er talað um hundraðshöfðíngja í ritníngunni, þá eru það rómverskir hermenn. Rómverjar lètu sèr einkar annt um skatttekjur allar, þó er þess að geta, að þeim sköttum, er lúka skyldi af landaurum og óðalseignum, skyldi svara landshöfðíngjanum eða hinum heraðshöfðíngjunum; en tollum, sem var annarr skattur[1], skyldi

[1]) Róm. 13, 6.

ekki lúka landstjórnarmönnum, heldur runnu þeir inn hjá Rómverjum. Það var vandi hjá Rómverjum, að riddarar skyldi hafa tolltekjuna, en þá leigðu aptur riddararnir öðrum, Gyðíngum eður heiðnum, skyldu þeir heimta tollinn og var það embætti mjög óþokkað og óvirt; máttu því tollheimtumenn taka mart óhugnaðarorð af faranda og komanda, þá er þeir sátu við tollbúðir eður hafnir og gættu embættis síns, einsog Leví Álfeifsson, sem sat við tollbúðina í Kapernaum, er Kristur fann hann[1]; gættu menn og vel til, að eigi sýndi þeir á sèr vinarsvip við syndarann, þar sem tollheimtumaðurinn var; því svo þótti Gyðíngum sem hverr tollheimtumaður væri glæpamaður[2]; er og enginn vafi á því, að prettir hafa verið við hafðir hjá sumum tollheimtumönnum, er meir kröfðu enn ákveðið var[3]; en á það er að líta, að fátt þótti Gyðíngum jafnmikil svívirðíng sem það, að lúka skatt til útlendra höfðíngja, og þótti Fariseum sem sá Gyðíngur, sem lèt ginna sig til að vera erindsreki Rómverja í þessu efni, væri engu betri enn ráns- eður óbótamaður[4]. Þó voru margir meðal tollheimtumanna, er nær voru því, að sjá hvar þeir voru aðkomnir og bæta sál sína enn Farísearnir, er svo þótti sem einkis væri sèr ábótavant[5].

Þó skyldu einnig valdsmenn segja lög og rètt í málum manna, voru það fjórðúngshöfðíngjar og

[1]) Mark. 2, 14. Matth. 9, 9. [2]) Matth. 11, 19. [3]) Lúk. 3, 13. Matth. 18, 17. [4]) Lúk. 18, 11. [5]) Lúk. 18, 13; 19, 9.

landshöfðíngjar. En í Júdeu, þar sem landshöfðínginn átti fyrir að ráða, var helzt að ugga að missætti gætu upp komið millum klerka og valdsmanna. Þó var það landshöfðíngjanum einum á hendur falið að gjöra um mál, heyra sókn og vörn og vitnisburði[1], leggja dóm á, og annast að honum yrði fullnægt[2]. Þó voru ein úrræði fyrir þann er undir varð, að hann mátti stefna málinu til keisarans atkvæða, og mátti slíkt mikils, ef að rómverskur borgari átti hlut að[3], mátti með því annaðhvort hjálpa málinu eður lengja það að minnsta kosti. Þá er landshöfðíngi Rómverja hafði fengið vald til að ákveða dauðadóm, tóku menn að krossfesta sakamenn meðal Gyðínga, og þekktist það straff ekki fyrr þar í landi; var það afar kvalafullt bæði fyrir sál og líkama, því þegar Jósúa t. a. m. lèt drepa konúnginn úr Ai[4], þá var sá dauðdagi ólíkur þeim sem Kristur leið, er hann var ofurseldur í heiðíngja hendur og hlýðnaðist þannig föðurnum til þess er hann lètst á krossi[5] Þá er enn þess að geta, að það voru rómverskir stríðsmenn sem skyldu fullnægja dauðadómum[6].

Það var Gyðíngum enginn hugþokki, að verða að játa það fyrir rómverska landshöfðíngjanum, að engan mættu þeir af lífi taka[7]. En samt voru þeir enn ekki með öllu ófrjálsir orðnir, þó meira gjörði

[1]) Jóh. 19, 10. Matth. 18, 16. [2]) Matth. 27, 26.
[3]) Postg. 25, 11, 26, 32. [4]) Jós. 8, 29. [5]) Jóh. 3, 14, 18, 32.
[6]) Matth. 27, 27. [7]) Jóh. 18, 31.

þeir af frelsi sínu enn rètt var, er þeir sögðust einkis manns þrælar nokkrusinni verið hafa[1]; voru þeir að því einu frjálsir er prestarnir rèðu og voru völd þeirra einu menjarnar þeirra daga er þjóðin átti með sig sjálf. Ráðið mikla (Sanhedrín) sem fyrr er getið (í 6 §.), var að líkindum sett á dögum Jóhannis Hirkanus; fór það svo jafnan, að Farísear rèðu mestu í því, voru þeir þegar farnir að láta til sín taka á dögum Hirkanusar, ens ágæta höfðíngja. Í ráð þetta skyldi einkum velja mega þann er þá var æðstiprestur og hafði hann fyrirsæti; þvínæst, þá er áður höfðu verið æðstuprestar, höfðu þeir jafnan æðstaprests-nafnbót; síðan helztu stórmenni prestastèttarinnar[2], þá aðra fræðimenn og mikilsvirta öldúnga, einsog Nikódemus var[3], og skyldu þeir allir samt vera 72 menn að tölu; voru þeir svo vígðir til ráðherra og lagðar hendur í höfuð þeim. Eptir að æðstaprests-embættið hvað af hverju fór einúngis að verða metorð, þá tóku Rómverjar að láta það falt ef fè var við boðið, urðu því opt skipti á æðstuprestum, en þegar svo var komið, hèldust menjarnar af guðveldinu enu forna einúngis við í Jórsalaborg hjá ráðinu; því hafði það vald til að gefa sitt atkvæði og úrskurð í öllum trúarefnum. Kæmi nú einhverr með nýja lærdóma og vildi koma á nýjum eður óvenjulegum helgisiðum, skyldi ráðið gèfa gætur að slíku máli, og at-

[1]) Jóh. 8, 33. [2]) Lúk. 3, 2. Postg. 4, 6.
[3]) Jóh. 3, 1.

huga, hvað slíkt tiltæki hefði fyrir sèr[1]. Ráðið þóttist einnig eiga með að ákveða, hver rètt væri útþýðíng lögmálsins og enna huldu fræða Gyðínga (kabbala)[1]. Ef að er gáð, hve náin voru trúarbrögð og lög hvort öðru hjá Gyðíngum, þá er auðsèð, að ráðið varð að skipta sèr af fleiru enn helgisiðum einum og trúarlærdómum, er það setti lög fyrir hversdags-breytni manna og dæmdi í öllum málefnum, er ekki viðkomu landsstjórn, með því menn fundu hverju boði og banni stað í guðs orði, þótt ekki kæmi það við nema smámunum í hversdags-lífinu[2]; enda þótt málin væri svo viðvaxin, að einhverr óeyrðarmaður vildi hafa sig undan

[1]) Matth. 21, 23. Jóh. 1, 19.

[2]) Á seinni tímum má skipta lærðum mönnum meðal Gyðínga í 3 flokka: fyrst voru skriftlærðir (*traditionarii*); þýddu þeir ritnínguna að mestu orðrètt. Annarr flokkurinn var sá, er stundaði griska heimspeki, og fylgði framar lögum þenkíngarinnar enn bókstaf ritníngarinnar, eða fornsögum; þegar þeir áttu að leggja út eða þýða ritnínguna gjörðu þeir sèr mikið far um, að ná mörgum þýðíngum á hverjum stað (t. a. m. Filó) og vildu aldrei þýða eptir orðunum. Þriðji flokkurinn blandaði saman heimspeki og fornsögum Gyðínga, og ruglaði þar enn saman við leyndum fræðum, er þeir höfðu fengið úr ymsum áttum (t. a. m. um æðri verur, hulið afl náttúrunnar o. s. frv.); með alla þessa fræði fóru þeir mjög dult. Þegar þeir áttu að þýða ritnínguna voru þeir sèrvitrir mjög og undarligir; þeir settu þá opt saman bókstafi með ymsum hætti til að tákna tölur, eða nöfn, eða meiníngar, og var það opt ærið torvelt aðgaungu (þannig er tam, nafn dýrsins í opinber. bókinni 13, 18, sett með tölum, en þær eru aptur ritaðar með bókstöfum). Sèrvitríngaflokkur þessi var síðan kallaður Kabbalistar, og fræði þeirra Kabbala.

hlýðni við keisarann og neitaði að lúka skatt, eða beinlínis vildi brjótast til ríkis[1], þá þótti ráðinu sem þar kæmi til sinna kasta að láta handtaka þann er ákærður var, og gæta að málavexti áður hann væri klagaður fyrir landshöfðíngjanum. En landshöfðínginn vildi þó sjálfur grenslast um málið ef hann var ekki samvizkulaus, því ekki þurfti hann lengi að hafa haft embættið áður hann mætti komast að raun um, að opt komu Gyðíngar með menn og ákærðu, þó ekki gengi þeim annað til enn illmennska, er þeir voru menn, sem eigi skirrtust við að halla rètti, en rómverskir menn að öðru leiti helzt til ókunnugir Mósis lögum og lètu sig litlu varða að gjöra gángskör að slíkum málum, þó einhverr væri klagaður um trúar–afglöpun; og þó átti ráðið ekki með að láta drepa nokkurn mann nema landshöfðínginn leyfði. Einnig skyldi bíða þess að landshöfðínginn kæmi, ef landið var höfðíngjalaust; því varð það Ananíasi höfuðpresti að illu, er hann lèt grýta Jakob hinn rèttláta, bróður Krists, og beið eigi þess að landshöfðínginn Albínus kæmi. Gyðíngar hættu að sönnu á, og tóku upp hjá sjálfum sèr að grýta Stefán píslarvott, en það varð þá er múgurinn æstist, og því gat ráðið gjarnan sagt við þá er hann drápu, eins og þeir höfðu áður sagt við svikarann, „að þeir mætti sjá fyrir; það kæmi sèr ekki við", ef að sagan

[1]) Lúk. 23, 2.

hefði kunnað að berast til Pílatus sem þá var í fjarska[1].

Eigum vèr að geta fengið glögga þekkíng um ráðherrafundinn, einsog hann var, þegar hann var löglegur, þá verðum vèr að ímynda oss að vèr sèum komnir til Jórsala. Þar stóð þá þínghúsið hjá musterinu; því þegar ráðgast var um t. a. m. hvað gjöra skyldi við einhvern spámann, þá þótti það ekki hlýða, að dæma hann eður drepa annarsstaðar enn þar í borginni á einhverjum hátíðisdegi, að lýðurinn mætti á sjá[2]. Þá er forsetinn hafði stefnt ráðherrum saman, tók hann sæti í miðjum flokki þeirra, en hinir aðrir dómendur sátu út í frá honum til beggja handa í baug, er svo var til að sjá sem hálfur máni; á hægri hönd forseta sat sá, er embættis hans skyldi gæta í viðlögum, aukaforsetinn; því var von til, að það biti sárt og snöggt dómendur þá er Kristur sagði frammi fyrir þeim, að hann ætti sæti á hægri hönd föðurnum á himnum[3], með því þeir í annann stað litu á hann litlum augum og virtist sem þeir ætti með að dæma hann til dauða. Hægramegin útí frá þeim er yztur sat stóð skrifari, hann ritaði upp alla þá vitnisburði er hrundu ákærum af þeim er klagaður var,

[1]) Eptir að Pilatus var rekinn frá landi og ríki vegna grimdar hans við Samverska, hafði Vitellius Syrlands jarl landsstjórn yfir þeim hluta, sem Pılatus rèði fyrir og var hann eptirlátur Gyðingum.

[2]) Lúk. 13, 33. [3]) Matth. 26, 64.

en vinstramegin stóð annarr, hann reit þann áburð allan, er borinn var á hinn ákærða[1]. Þegar einhverr var dæmdur til dauða þá lá fleira til um dauðdagann. Það var vandi hjá fornmönnum Gyðínga að þeir lètu hengja glæpamenn eður brenna (ef að orðin í 3 Mós. 21, 9 eru að skilja einsog þau liggja), en þess finnast ekki dæmi í nýja testamentinu. Er og líkara, að það hafi verið rómversk venja að taka menn af lífi á þann hátt, er getur að Antípas lèti drepa Jóhannes skírara að ráðum Heróðíu, og sem þá var og við hafður er Jakob var drepinn, bróðir Jóhannesar[2]. En sú var landsvenja meðal Gyðínga sjálfra, að grýta þá er til dauða vòru dæmdir, og er nýliga á það vikið, að Stefán píslarvottur, er hafði verið færður fyrir ráðið[3], var síðan grýttur af lýðnum[4]; þess er og opt getið, að fljótir voru Gyðíngar í þrjózku sinni að hlaupa til grjótsins, til að reyna að grýta Krist fyrir tímann. Á líkan hátt var Páll laminn grjóti í Lystru, og hèldu menn hann þá dauðan[5]. En þessar voru minni refsíngar meðal Gyðínga: menn voru barðir með svipum eður hýddir[6], og fór það á stundum fram í samkundunum[7]; þá var enn, að menn voru reknir úr samkundum[8], en útrekstur úr samkundu var með þrennum hætti: var sá minnstur, að menn skyldi skilja frá öðrum

[1]) sbr. Matth. 25, 33. [2]) Postg. 12, 2. [3]) Postg. 6, 12.
[4]) Postg. 7, 58. [5]) Postg. 14, 19. [6]) 2 Kor. 11, 24, 25.
[7]) Matth. 10, 17. Postg. 22, 19. [8]) Jóh. 9, 22, 12, 42.

er voru í samkundunni, svo 4 álnir væri í millum, og skyldu þeir er þannig voru út reknir gista þar öðrum fráskildir um 30 daga. Sá var annarr útrekstur að menn voru reknir burt með öllu úr samkundu, og skyldu þeir enga samnautn hafa þaðan í frá með neinum Gyðíng. Sá er á þennan hátt var gjörður samkundurækur var að álíta sem holdsveikan á sálunni; en þó var eigi fyrir von komið að ekki ætti hann apturkvæmt. Þá var enn hinn þriðji útrekstur og var sá harðastur, voru menn þá bannfærðir með ógurlegum óbænum, og skyldi bannið engan enda hafa; áttu menn úr því aldrei apturkvæmt.

Á dögum Makkabea, þegar bezt lèt fyrir þjóðinni, var ráð þetta landsins æðsti dómur í andligum og veraldligum málefnum, og mátti þángað stefna málum, ef miklu þóttu skipta, frá enum lægri dómum, er sagt að tveir væru slíkir í Jórsalaborg en margir í heruðum, en á þeim tímum er hèr er um að ræða þá skyldi þessi hinn mikli dómur eigi gjöra um önnur mál enn þau, er trúnni viðkomu; þættu málin lítilsverð mátti þeim lúka heima í heraði, og er líkligt þeim hafi lokið verið í samkundudómi, var þar samkunduhöfðínginn forseti, en 7 voru meðdómsmenn, beztu menn í heraði.

Þannig var háttað landsstjórn í Gyðíngalandi á þessum tímum sem vèr höfum fyrir augum, en með því vèr meinum með Krists dögum allan þann tíma frá því Kristur fæddist og þángað til spá-

dómurinn rættist um eyðilegging Jórsalaborgar, þá er enn fá einu við að bæta um ástandið í landinu þartil hinir voðaligu tímar duttu á.

Lík urðu afdrif Heróðis Antípas sem Arkelásar bróður hans; því þegar svo var komið, að honum ekki nægði að menn kölluðu hann konúng hversdagslega, þó aldrei væri hann nema fjórðúngshöfðíngi, lèt hann Heróðíu ginna sig til að fara til Rómaborgar, ef svo mætti tiltakazt að hann gæti konúngur orðið, og orðið þannig Agrippa enum fyrsta til meins, syni Aristóbúls, er áður er getið; sáu Rómverjar þá, hverr maður hann var, og leyfðu honum aldrei heimkomu síðan, en gjörðu hann útlægan til Frakklands; þetta var 38 árum eptir Krists burð. Þá fèkk Agrippa landsfjórðúng Antípas til umráða, hafði hann og áður haft hinn, sem Filippus rèði yfir og tveim árum seinna gjörði Kládíus keisari hann að jarli yfir Júdeu og Samaríu. Þar hann nú hafði ríki það allt sem afi hans hafði haft, var hann kallaður hinn mikli einsog hann, en ekki vann hann til þessa nafns hjá Kristnum, því hann var sá er lèt höggva Jakob Zebedeusson með sverði[1] og vildi að Pètur skyldi fara sömu för, en guð ætlaði að annað skyldi að bera, er hann lèt engil sinn frelsa Pètur úr fjötrum og drepa Agrippa illum dauðdaga[2]. Þó þótti Gyðíngum mikið um er hann dó svo snöggliga, og var þess öll von, því hann var seinastur enna innlendu

[1]) Postg. 12, 2. [2]) Postg. 12, 7, 23.

höfðíngja, og sýndist sem þjóðin ei væri með öllu ánauðug meðan hann sat að ríkjum. Hans son var Agrippa hinn annarr með því nafni, hann var ýngri enn svo, að hann gæti tekið konúngdóm er faðir hans dó, en ekki leið á laungu áður hann varð fullnuma í vonzkunni, einsog systir hans Berenice, mesti kvenuskratti[1]. Hann lagði mjög hug á að gjörast vin Rómverja, og tókst það að því leiti, að hann fèkk konúngsnafn og ráðin yfir heraðinu þar eystra, er Filippus hafði áður haft. Sú var önnur systir hans er Drúsilla hèt, hana átti Felix, og eru þeir Festus báðir, landshöfðíngjar Rómverja, kunnir af postulanna gjörníngabók (24, 27), voru þeir hverr öðrum verri að ágirnd og grimmleik, en þó tók yfir þar sem Gessíus Flórus var, í öllu illu. Þegar nú Neró keisari gjörði musteri guðs slíka háðúng, að setja þar líkneski eptir sèr, þá varð úr því fullur fjandskapur er áður hafði brydt á óþokka, og nú drógust ernirnir rómversku þángað að er hræið var[2]. Það er kunnugt hvernig þessum skiptum lauk. Vespasían settist fyrst um Jórsalaborg, en síðan Títus og lauk með því að borgin var lögð í eyði og allt land hneppt í ánauð[3]. Þarmeð steyptist að fullu stjórnarlögun Gyðínga og þjóðfrelsi. Kom það fram, sem Kristur hafði spáð fyrir borg þessari, þar er spámenn voru af lífi teknir, þeir er rèttir voru, en falsspámönnum gefinn góður rómur á síðustu tímum. Agrippa

[1]) Postg. 25, 13. [2]) Matth. 24, 18. [3]) 70 e. Kr.

var þá enn jarl Rómverja, og kom hvergi nærri þessum atburðum. Berenice fylgði kúgunarmanni Gyðínga til Rómaborgar og gjörðist friðla hans, þó hún væri konúngborin úr Gyðíngalandi. Mætti kalla að eigi væri það ofsagt, þótt ókristinn Gyðíngur segði: „að ekki hefði getað hjá því farið, að slík borg sykki í jörð niður, og slíkar ókyndur sem þar bjuggu, hefðu Rómverjar ekki eyðilagt hana og sundrað Gyðíngum víðs vegar."

## 12. §.

### *Landslag.*

Þannig urðu Ísraels niðjar að fara af landi sínu í slíku volæði, að enginn vildi kaupa þá og nota til þræla, slík þjóð, sem áður hafði vaðið á land þetta og þótt ósigrandi og unnið það með fulltíngi guðs, fyrirbænum Mósis og forustu Jósúa. Hefði fólk þetta farið að því, er Móses og spámennirnir kenndu, hefði það viljað renna augum til og sjá guðs handleiðslu, þá mundi hið fyrirheitna land, er var með svo undarligu og breytiligu útliti, hafa orðið þeim að slíkri unun og ágæti, að svo hefði mátt aðkveða sem þeir lifðu í tjaldbúðum guðs, en í annann stað sýnt þeim frammá, hve viðbjóðslig þeirra afdrif yrðu ef þeir ekki skeytti um guð. Nú skulum vèr íminda oss, að vèr stöndum á Pisgas fjalltindi hjá Mósi og horfum yfir land þetta, er vèr höfum kallað land drottins, er það er því sannnefni öllum löndum fremur; er þá að sjá fjöll nokkur, eru þau hvorki svo háf að eigi megi yfir komast, nè brött

og graslaus, heldur hafa þau mart til þess að menn fýsi þángað, er þar eru hellrar og þykkvir runnar með forsælum, og gætu menn þar hresst sig á vöxnum vínberjum; þá er að sjá völlu slètta, renna þar lækir, en blómstur vaxa alla vega lit á bökkunum beggja vegna og ángandi jurtir, liggja þar í grasinu þriflegar hjarðir kvikfènaðar; þá er þar enn stöðuvatn, sem liggur í mörgum lykkjum, og má ei gjörla sjá nema þær er næst liggja, og þóað þær sè yndisligar, er þær litast af heiðríkjunni en bakkarnir kafnir í liljugrösum, grunar menn þó, að meira sè þar nýstárligt og fagurt, er menn eigi hafi enn sèð. Þá er enn að sjá önnur fjöll af fjallstindi þeim, er áður er getið og bjóða þau lítin þokka, þau eru ekki nema eyðigrjót, hamrar og hengiflug. Þar vaxa engin trè, þar búa ekki saungfuglar, sem láti til sín heyra, en eigi skortir þar gamma og má heyra læti þeirra; í gjánum hvína biljir og er sem forynjur láti; þessir klettar eru afar háfir en öræfi hvervetna umhverfis, og er þar ekkert afdrep komandi og farandi mönnum fyrir vindi og banvænu lopti, hvorki matur nè drykkur til hressíngar — en það virðist þó sem bári á vatni frammi í öræfunum! en það er ekki nema missýníng og sýnist svo, er sólargeislann leggur á sandana. Öræfin hafa að vísu sín vötn, en þau eru banvæn, vella þau upp úr undirdjúpum jarðarinnar, og er hver skepna dauð sem úr þeim drekkur. Mikið skilur landslag hèr og það er áður var á vikið, og

er það líkligt, að guð hafi með þessum hætti viljað sýna Gyðíngum fram á hamíngju þá er jafnan fylgir guðhræddum, og heillaleysi það er guðleysínginn hefir, því svo opt aðvaraði hann Ísraels þjóð, svo opt bendti hann henni.

Nú er að athuga, hvernig á því standi, að hèr eru lendur svo ólíkar, er hver liggur nærri annarri, en þá spyrjum vèr: hvað ætlaðist skaparinn hèr fyrir, sem hefir skapað allt það er lifir og sett því lög, er það lifi og deyi eptir; þó oss sè nú ekki að telja meðal þeirra manna, er drottinn gaf skyn og þekkíngu á lögum og gángi náttúrunnar, þá sjáum vèr þó svo mikið, að lækurinn, sem rennur um dalinn, á meira að gjöra enn svala þorstanum einúngis; hann hlýtur jafnframt að hafa í sèr lífsafl, er frjófgi landið umhverfis, og rennur oss þá í hug það er Kristur sagði um lífsins vatn, og skiljum nú, að það á ekki einúngis að vera til stundarsvölunar sálunni, heldur einnig manninum til fullrar endurfæðíngar.

Vestan á landinu helga er höfði nokkur ágæta fagur, og brotna þar á öldur er gánga inn af hafinu mikla — þar er landsendi. Við horfum yfir land þetta, og vaknar við það vonin um landið á himnum, er sálin skilur við jarðríki.

### 13. §.

*Fjöll, undirlendi, öræfi.*

Nú höfum vèr þegar rennt auga yfir land þetta allt í einu, og sèð hversu það er lagað, og

skulum því nákvæmar skíra frá hverju sèr í lagi er vèr höfðum fyrir augum, þegar vèr áður vorum að lýsa því.

Þá er fyrst að nefna fjöllin er skáldið kallar máttartrè jarðar[1], og hefir náttúran sett þar landamerki er fjöll eru. Norðan að landinu gengur fjallið Líbanon, það er allhátt og er jökull; í því er kalk mest megnis. Þar eru engin tímaskipti; vex himinhár Sedrusviðarskógur í hlíðunum þegar upp eptir kemur, en fjallsræturnar eru þaktar vínviði. Austanað landinu beint útífrá Líbanon gengur Antilíbanon, en í landsuður frá Antilíbanon gengur fjall nokkurt, vaxið Kýprusviði, og heitir Hermon, og hèt þessu nafni allur fjallgarðurinn í fornöld[2]. En þá gánga Gíleaðsfjoll í suður frá Hermon og afmarka landið að austanverðu, eru þau áföst við annann fjallgarð úr stökku blágrýti, og er hann þó frjófsamur; nyrðsti hluti hans heitir Basan, bezta nautland, með gildum eikarskógi, en syðsti hlutinn er Pisga, er einnig heitir Abarim. Peor og Nebó heita efstu tindarnir og standa einstakir, má þaðan sjá yfir mikin hluta landsins helga[3]. Að sunnanverðu gengur fjallið Seir að landinu, inn á milli Dauðahafs og Arabíu ennar grýttu; það er úr salti; en þar fyrir austan eru arabisku heiðarnar, og er komið er yfir þær, verður fyrir manni dal-

[1]) Sálm. 90, 2. [2]) 1 Kron. 5, 23. Sir. 24, 14. [3]) 5 Mós. 32, 49—50.

urinn við Dauðahafið — svona ramliga hafði drottinn um búið!

Þá eru enn fjöll í miðju landi, og var sem landslagið minnti Gyðínga á, að ekki skyldu þeir gefa sig mjög við verzluninni, er landið var mjög torveldt yfirferðar fyrir lestamenn (*Karavan*). Ekki var landið heldur að því skapi, að til mikils væri að hafa mikið riddaralið[1], og mátti það fæla hergjarna konúnga frá hernaðarfýkn. En í annann stað var landið gott til varnar fyrir útlendum ófriði, þar staði mátti svo byggja að þeir voru sjálfvarðir, er vígi var við hvern klett, í hverjum helli mátti hafa launsátur og hvert fjallskarð var einstígi, svo fáir menn gátu varizt fyrir óvinum, hversu margir sem verið hefði, því hèlt Benhadað að guðir Gyðínga væri fjallaguðir og óttaðist þá mjög[2]. Gegnum gjörvallan vesturhluta Palestínalands (það er: þegar svo naumt eru tekin landamærin sem verða má) hefst fjallaklasinn með dölum og vallendum, gengur hann út frá Líbanon og kvíslast útí greinir eður hliðarfjöll á alla vegu, og ætla menn að á einhverju þessara, þeirra er nyrðst liggja, hafi Kristur haldið ræðuna um þá er sælir væri[3], hefir ræðan tekið nafn af fjallinu og er kölluð fjallræða; en fjallið sem Kristur hèlt hana á hafa menn kallað Kristsfjall. Fyrir sunnan Líbanon, nær 10 mílum, er fjallið Tabor, auðkenniligt frá öllum öðrum fjöllum, og fagurt til að sjá, er það mjókkar

[1]) 5 Mós. 17, 16. [2]) 1 Kóng. 20, 23. [3]) Matth. 5 kap.

jafnt á alla vegu frá rótum til topps, rètt sem gjört sè af manna höndum[1]; einnig er það grasi vaxið og góðum skógi, sem mörg önnur fjöll þar í landi; það er ætlan manna, að á þessu fjalli væri það, er Kristur tók á sig himneska mynd[2], er og enginn staður líkligri enn þessi til að Pètur gæti eigi orða bundizt, er hann sá þá Krist, Móses og Elías, og yrði að segja: „hèr er gott að vera". — Nær tveim mílum sunnar, á Gilbóafjöllum, var það, er Sál konúngur fèll. En þá eru þar nokkru sunnar einstök fjöll Ebal og Garizim, og er Ebal norðar; þar bannfærði Jósúa lýðinn, einsog Móses bauð í andagipt sinni, en á Garizim var það sem hann blessaði hann[3]; á Ebal byggði Jósúa altari, fórnaði guði og skrifaði upp lögin; en á Garizim reistu Samverskir altari með leyfi Alexanders hius mikla, og skyldi það duga þeim í stað musterisins í Jerúsalem; Jóhannes Hirkanus eyddi að vísu altari þessu, en þó hèldu Samverskir uppi helgi fjallsins, og fór svo fram til Krists daga[4]. Ef vèr nú rekjum lengra suðurá við, komum vèr til Sílo eður Halmon, það er allhátt og skóglendi mikið, tók það helgi sína í 300 ár af sáttmálsörkinni, sem þar var geymd; er það yzti múli af fjallaklasanum á Efraimsfjöllum. Öll eru fjöllin fagrari vestra enn eystra í landinu, því verður það, að þess lengra sem dregur austur og suður eptir, þverrar frjófsemi óðum, en

[1]) Jer. 46, 18. [2]) Matth. 17, 2. [3]) 5 Mós. 11, 29. Jós. 8, 34. [4]) Jóh. 4, 20.

háfir klettar og illiligir eru tíðari, þartil komið er að fjalli lengst inni í eyðimörkinni, er það mjög kenniligt álengdar, er það er hátt og svipljótt, þetta fjall er kallað freistíngarfjallið[1] eður Kvarantanía, mun það sannast sagna, að þar muni ekki gott að vera, en mikið mátti um það finnast að líta þaðan og sjá yfir ríki og kosti veraldarinnar. Frá Kvarantanía er að eins dagleið til Jórsalaborgar, sem stendur á hinum nyrðstu af Júdafjöllunum, en þau eru syðsti fjallgarður landsins að frátöldum landamerkjafjöllunum við Dauðahafið. Fjallanna, sem Jórsalaborg stendur á, skal getið um leið og borginni verður lýst, hèr skal að eins nefna Olíufjallið, er svo kemur mikið við Krists sögu. Olíufjallið er hæst allra Júdeafjalla, er þaðan falligt að líta yfir Jórsalaborg og sèr yfir mikin hluta lands umhverfis[2]; það liggur austanvert við Jórsali, einn fjórðúng mílu, þaðan hinumegin við Jósafatsdal; það er úr kalki og er ágæta frjófsamt, vaxa þar ærin fíkjutrè og olíutrè, og tekur bæði fjallið og grasgarðurinn Getsemane (sem þýðir ólíuþrúgu) nafn af olíugróðanum. Á enum syðsta hnúki þeirra þriggja, sem á eru fjalli þessu, blótuðu konur Salómons konúngs goð sín[3], og því var það síðan kallað glötunar- og ásteitíngarfjall[4], en það á að oss kristnum betra nafn, því í grend við það var það er Kristur var uppnuminn[5].

[1]) Matth. 4, 8. [2]) Matth. 24, 3. [3]) 1 Kóng. 11, 7. [4]) 2 Kóng. 23, 13. [5]) Postg. 1, 12.

Landið er því flatlendara og liggur lægra sem meir dregur að ströndunum, — þó liggur það ekki undir sjáfargángi, — en í uppsveitum er hálendið meira. Af öllum höfðum er Karmel hinn merkasti, er hann yzti oddinn af fjallgarði nokkrum, sem gengur til útnorðurs af Gilbóafjöllum; það er einsog þessi staður hafi verið ætlaður til þess, að hugsað væri þar um guð í kyrrð og næði, því þar er svo afskekkt og náttúran svo yndæl; nafnið Karmel þýðir aldingarð, og ber höfðinn það nafn með rentu, er þar eru dalir frjófsamir og híngað og þángað djúp gil með straumvatni. Það er bæði, að ekki er það fjall á Gyðíngalandi að eigi sè það allt holt með hellrum, er fyrstu landnámsmenn lands þessa munu hafa búið í og stigamenn ósjaldan haft í bæli sín; enda eru ei færri á Karmel enn tvær þúsundir hellra, og var það þángað er þeir flúðu spámennirnir og fálu sig fyrir ofsóknum Akabs konúngs[1].

Af flestum fjöllum á Gyðíngalandi renna jökulvötn og ár niður í dalina, og frjófgast við það merkurnar, er landið hefir ena mestu gnægð af. Þrjár stórar merkur eru einkum um að ræða í landi þessu, og gánga tvær af þeim frá Karmel; þaðan gengur Jesreelmörk eður Esdrelonsvellir[2] austur að Tabor og Gilbóafjöllum; gánga einstök fjöll inní hana hèr og hvar; þar var það,

[1]) 1 Kóng. 18, 13. 19. [2]) Jós. 17, 16. Hós. 1, 5.

að hirðaraþjóðirnar höfðust tíðast við[1]); þar höfðu og hermenn herbúðir sínar; þar var og orustuvöllur[2]; þar vann Gídeon Midíaníta[3]; þar mátti Benhadað konúngur af því segja, að Gyðínga guð var ekki ósterkari á láglendinu enn í fjallaklúngrunum. Sú er hin önnur mörk sem gengur frá Karmel, er Sefela heitir (það þýðir völl) og liggur við Miðjarðarhaf; norðurhluti hennar nær að Efraimsfjöllum og heitir þar Saron, nafnkennd að fegurð; þessi hluti er mjórri enn suðurhlutinn, er nær austur að Júdafjöllum og suður að Bersabaeyðimörku; á öllu þessu láglendi eru hinar beztu hagagaungur fyrir hjarðir, gras og vatn nóg; því setti Abraham þar tjöld sín, er deilunni var lokið milli fjármanna hans og Lots, bróðursonar hans; bjó hann þá sjálfur á mörkinni hið eystra í lundinum Mamre hjá Hebron[4]; þó þótti Lot sem Jórdanarmörkin mundi lángtum fagrari og kostabetri, er áin flóði yfir hana og frjófgaði, var og landið mikið og grösugt, enda leizt honum landið svo gott sem væri það aldingarður drottins eða annað Egiptaland, er greri við vatnaleiðslur er áin þar flóði yfir. Um takmörkin á mörk þessari vita menn ógjörla, en eptir að Sódóma hrundi, náði hún yfir nokkrar mílur beggjamegin Jórdanar, þar er áin rennur í Dauðahafið. Í þessu heraði við Jórdan kenndi Jóhannes skírari[5], og lítur svo út sem það

[1]) 1 Mós. 37, 17. [2]) 1 Sam. 29, 1. [3]) Dóm. 6, 33.
[4]) 1 Mós. 13, 18. [5]) Lúk. 3, 3.

hafi fremur komið af því, að hann hafi viljað vera á vegi fyrir lestamönnum þeim er fóru þar um, —er jafnan voru mannaferðir um mörkina til Jórsala, —að eigi skorti hann tilheyrendur, enn að það hafi komið af því, að honum hafi þótt mikið undir komið að vera nærri þar sem hann var borinn og barnfæddur, í Júdafjöllum; með því líka að þar var hægt til skírnar er Jórdan var.

Nú segir svo um Jóhannes, að hann væri hróp-ari úti á eyðimörku; er það þá rèttnefni að vèr köllum þar mörk er hann kenndi og skírði? rèttnefni er það, því ekki megum vèr ímynda oss bera sanda einúngis þar sem ritníngin talar um eyðimörk, heldur að þar sè mólendi; kallast það í eyði meðan ei er ræktað og byggt, en getur þó gjarna verið grösugt[1]. Sannar eyðimerkur, það er: merkur þær er ófrjófsamar eru, þurrar, tómir sandar, með eyðifjöll-um, eru einkum fyrir sunnan Jórdanarmörk fram með Dauðahafi. Júdamörk, er liggur fyrir austan Júdafjöll, er þó ei með öllu gróðurlaus[2]. Verri eru eyðimerkurnar Engeddi-mörk og Zin-mörk eður Sif-mörk[3], sem liggja sunnar, einnig Bersaba, er má ætla að nái að landamerkjum Gyðíngalands að sunnan og vestanverðu. Þá eru minni eyði-merkur inní landinu, og er ei senniligt að Dauða-hafið valdi þar gróðurleysinu; meðal þessara eyði-marka kennum vèr einkum Jeríkós eyðimörk,

[1]) Matth. 14, 13, 19. [2]) Matth. 3, 1. [3]) 1 Sam. 23, 14; 24, 1.

því bæði er það, að hún er fyrirtak að fegurð, er hún að austanverðu, þegar dregur að Dauðahafinu, endar við ágæta fagran dal allan skógi vaxin, með pálmatrjám og allrafegurstu rósum og ylmandi; þar var það sem lauk ríki Júdeumanna[1]; og þartil kennum vèr eyðimörk þessa að því, að þar fastaði Kristur og þar var hans freistað[2], svo eyðimörkin, ásamt fjallinu sem á henni er, hefir tekið nafnið Kvarantanía (þ. þ. fertugdægra). það var öll von að ekki þætti árenniligt að ferðast frá Jeríkó, er lá í millum ennar fögru markar og öræfanna, til Jórsala, með því bæði var að ugga stigamenn og landið í mesta máta illiligt, var það og ósjaldan, að ránsmenn, er höfðu þar aðsetur sitt í hellrunum[3], rændu og lemstruðu ferðamenn.

14. §.

*Lækir, brunnar, ár, vötn.*

Lækirnir sem renna ofanaf fjöllunum eru ekki að fullu nógir til að bæta úr þörfum innbúa og ferðamanna, og láta þá allar þjóðir sèr einkar anut um, að eigi verði vatnsskortur, en einkum austurálfubúar; er það bæði, að þeim þykir sárt að vera vatnslausum, enda leggja þeir og alla alúð á að bæta þessa þurfð, og meta mikils, ef bót verður við ráðin. þegar lækir koma undan fjallsrótum, þar sem sandur er undir, mundi þeir bráðum þorna ef ei væri brunnar grafnir, að þar mætti fleiri rennur saman koma, og tálmar það einnig að minnsta kosti

[1]) 2 Kóng. 25, 5. [2]) Matth. 4 k. [3]) Lúk. 10, 30.

vatninu frá að þorna af sólarhita; það var bæði, að þegar menn fundu læk, er ei var fyrr fundinn, að svo mátti álíta sem guð hefði gjöf gefið, enda var það eitt af því er feðurnir höfðu til ágætis sèr, að þeir lètu brunna gjörá til heilla börnum sínum og barnabörnum[1]. Meðal linda er Sílóa fyrir sunnan Jórsali, nafnkennd fyrir gott og heilnæmt vatn[2]; húu spratt upp undan kalkkletti í Zíonsfjalli. Meðal brunna er Jakobs brunnur hjá Sikkem nafnkenndastur, þar er vatn tært, svalt og kemur lángt neðan úr jörðu, má vera því hafi Kristur hafið ræðu sína um hið lifanda vatnið, sem kæmi frá enni eilífu lífs uppsprettu[3]. En af því að færri voru brunnar með uppsprettuvatni enn landsfólkið með þurfti, einkum þegar það bjó í miklum þorpum og á harðbala mörkum, þá var tvennt til, að veita vatninu með vatnaleiðslum eða grafa gryfjur, og má á sjá hvílíkir hagleiksmenn og dugnaðar Gyðíngar hafa verið á konúngsstjórnar-öldunum, er þeir veittu vatninu frá Betlehem til Jórsalaborgar. Ef að nú Esekías konúngur kom slíku mannvirki til vegar[4], þá sýnist sem vatnaveitíngin við Sesareu, er Heródes hinn fyrsti lèt gjöra, hafi ekki neitt afar frægðarverk verið. Meira kveður samt að vatnsgryfjunum enn vatnaveitíngunum; þessar gryfjur voru grafnar í jörð niður í lögun einsog síll (trekt) á hvolfi, lètu menn þar safnast í rigníngavatnið og geymdu;

[1]) 1 Mós. 26. Jóh. 4. [2]) Jóh. 9, 7, 11. [3]) Jóh. 4, 6 o. s. fr. [4]) 2 Kóng. 20, 20.

því dýpri sem þær voru, því betri þóttu þær, af því vatnið var þá kaldara í þeim og svalara; þá mátti og nota gryfjur þessar til að hlaupa í og fela sig, ef ófriður var og gryfjurnar voru þurrar, mátti þar bæði liggja og hafa skjól gott, og launsátur mót óvinum[1]; einnig voru gryfjur þessar hafðar fyrir fángahús, einsog kunnugt er af sögu Jósefs og Jeremías spámanns. Til þess að geta náð vatninu uppúr gryfjum þessum bjuggu menn sig út með ólar og tilfæríngar, og höfðu með á ferðalögum[2]. Meðal þeirra brunna er málmblandið vatn er í, er dýkið Bethesda kunnugt hverjum manni sem lesið hefir Jóhannis guðspjall (5, 2); þar voru hjá 5 gángbogar fyrir sjúklíngana til að skýla sèr undir fyrir hretviðrum. Í Galíleu var og brunnur mönnum til læknínga; það var laug nokkur í grend við Tíberías.

Þegar vèr nú hverfum frá lindum og brunnum, þá er næst að geta um læki og ár, og eru þá margar ár eystra í landinu, en ógjörla vita menn hversu miklar þær eru, er það fer eptir rigníngum og vatnavöxtum, þareð það vildi verða ærinn mismunur, ef menn færu að mæla þær er rigníngar gánga, hjá því sem þær eru á öðrum tímum. **Ljónsfljótið** skilur landamæri að norðanverðu, kemur frá Hermon og fellur í Miðjarðarhaf; einnig rennur í það lækurinn **Kíson**, er kemur frá Tabor, og einsog ber það með sèr að hann er þaðan, svo fagur er

[1]) 1 Sam. 13, 6. [2]) Jóh. 4, 11.

hann; því er Jesreelsmörk svo kostagóð að lækur þessi frjófgar hana — þá Korseus við Sesarea og Jarkon við Joppe, sem ekki eru merkir af Biblíusögunni — þá rennur í það lækurinn Eskól[1] nokkru sunnar, ætla menn hann sama lækinn og Sórek[2], því bæði nöfnin benda á vínberin, sem vaxa þar á lækjar bökkunum; lækurinn rennur um dal samnefndan sèr. Syðsti lækurinn er Bezor[3], og rennur í sjó fram nálægt borginni Gaza. Meginfljótið var Jórdan, hún rennur beint í suður og gjörir heraðaskipti í landinu, þó ei sè hún landamerkjafljót milli þess og annarra landa. Það er mál manna, að hún komi frá Fíala, litlu stöðuvatni, og renni svo undir jörðu partil hana er að sjá við Sesarea Filippí. Undireins og hún kemur frá upptökum sínum, sem óhætt er að segja að sèu í Antilíbanonsfjöllum, er hún kölluð Jórdan, þó lítil sè, rennur hún svo gegnum Meroms vatn, og verður gruggug af, en smámsaman tærari er hún kemur hinumegin vatnsins og rennur þar í grýttum og sendnum farvegi. Við Bethsaída Júlías rennur hún í Genesarets–vatn, en síðan, er sjónum lýkur, rennur hún aptur um hart og sendið land með háfum klettum hèr og þar, þó eru sumstaðar runnar og sef á bökkunum[4]; er hún þá orðin nær því 30 álna að breidd og vatnsmikil, og fellur

[1]) 4 Mós. 13, 23. [2]) Dóm. 16, 4.

[3]) Það ætla sumir menn, að Bezor sè sama sem Sihor (Jer. 2, 18), þó mun líkara að Sihor sè sú grein Nílfljóts sem kennd er við Pelúsíum, en að Egiptalands- eður öræfa - lækur er svo kallast (1 Kóng. 8, 65; Amos. 6, 14) muni vera Rinókólúr í Bersöbu eyðimörk. [4]) 2 Kóng. 6, 2. Matth. 11, 7.

svo í Dauðahafið. Þessi á var það sem gjörði landamerki á þeim hluta landsins, er einkum var kallað Ísraelsland; hennar getur í ritníngunni að mikilli helgi, nær sem eitthvað mikið bar að. Það var Jórdan, sem bauð Ísraels niðjum þurra braut ígegnum sig inní Kanaansland, þegar Jósúa vann landið[1]; það var Jórdan, þar sem þeir Elías og Elíseus fengu þess ljósan vott, að þeir væri sannir spámenn, er þeir vildu bæta hugarfar landsmanna[2]. Það var við Jórdan að austanverðu er Jóhannes skírði[3], og skírði hanu hvergi annarstaðar; þar varð hann á vegi fyrir endurlausnaranum og skírði hann og sá andann líða upp yfir honum og heyrði röddina frá himni[4]; það er því sannmælt að kalla ána helga.

Fyrir sunnan og austan Jórdan rennur Arnonlækur í Dauðahafið. En í Jórdan falla lækirnir Jabok og Híerómax austanað, og rennur Híerómax nokkuð norðar. Meðal lækjanna sem renna útí Jórdan vestanmegin má nefna Kapernaumslæk, fellur hann í vatnið Genezaret, en einkum þó Keðron þ. þ. dökkur, er hann hefir nafn tekið af grugglitnum í vatninu, sem kemur til af því, að hellt var í hann fórnardýrablóðinu, og að í hann runnu forarvötnin úr Jórsalaborg. Lækur þessi sprettur upp á Júdafjöllum og rennur frambjá Jórsölum í landsuður og gegnum eyðimörkina og svo útí Jórdan og fer með henni í Dauðahafið. Þegar Kristur, um kvöldið sem hann var svikinn, fór yfir læk

[1]) Jós. 3. [2]) 2 Kóng. 5. [3]) Jóh. 10, 40. [4]) Matth. 3, 16.

þenna með lærisveinum sínum, þá var hann vel til þess fallinn að láta honum dauðann í hug koma[1]. Þess er þegar getið, þá er vèr töluðum um Jórðan, hver verið hafi hin helztu vötn í Gyðíngalandi; eru þau Merom, Genezaret og Dauðahaf. Meromsvatn lá nyrðst, í það rann Jórdan og sá straum hennar er hún rann gegnum vatnskorginn; rynni Jórðan ekki þarí mundi vatnið auðveldliga þorna upp á sumrum, er þar er vatnsmegn lítið; sef óx með vatninu og sóttu þángað villudýr og huldu sig. Þegar lengra kemur suðureptir, þó ekki muni nema nokkrum mílum, verður landið æ fagrara og fagrara, þartil komið er til Genezaretvatns; það tekur nafn af bænum Genezaret, sem í fornöld stóð þar á ströndinni[2]; en af því landið fyrir vestan vatnið lá undir Galíleu, þá kölluðu menn það og Galíleuvatn, og suðurhluti þess var kallaður Tíberíasvatn, af borginni Tíberías, sem þar stóð. Við þenna sjó hafði guð skapað mart falligt og breytiligt, svo undrum gegndi. Ofan af fjöllunum austan og vestan kemur köld fjallagola, en fjöllin gróðri og grasi vaxin með tærum lindum er renna í sjó fram; landið er suður og norður víðlendt og slètt og engi grösug. Þegar Kristur var á dögum, voru náliga bygðar allar strendur með vatninu, voru þar borgir auðugar og í blóma og mikil landsprýði að, mátti þá sjá mismuninn frá auðnunni og tómleikanum sem er til fjalla og dala, þar er óbyggt

[1]) Jóh. 18, 1. [2]) 4 Mós. 34, 11.

er. Vatnið er tært, með hreinum sandbotni og gnægð fiska; í þessu vatni lögðu þeir menn net fyrir fisk er síðar skyldu menn veiða[1]; á þessu vatni kenndi Kristur af skipi; hèr var það er hann gekk á sjónum[2] og þegar ósjórinn var kominn, er byljir dundu frá fjöllunum, þá hastaði hann á vindinn, svo þegar varð logn og ládeyða[3]. En bæði var það, að hann opt var í spámannserindi við þetta vatn og lèt þá flytja sig yfir það fram og aptur, annaðhvort til þess að komast hjá ofsóknum óvina sinna, eða aðsókn þeirra er vinir hans vildu vera, enda birtist hann við þetta vatn lærisveinum sínum seinna eptir upprisuna, og lèt þá sjá að þar var heimsins endurlausnari[4].

En hèrumbil 10 mílum fyrir sunnan þetta fagra vatn skilur svart frá hvítu þar sem hið geysistóra Dauðahaf er, með öræfum og bláberum hömrum umhverfis. Menn kalla það einnig Salthaf, annaðhvort af saltberginu að sunnanverðu við það eður af því, að vatnið er afar salt; það er og kallað Austurhaf, til aðskilnaðar frá Miðjarðarhafi, er menn hafa kallað Vesturhaf. En þó kveður mest að því nafni er það er Dauðahaf kallað, er hèr eru furðuligar og ógurligar menjar þarsem vatn þetta er; því þegar borgirnar í Siddims dal, Sódóma og Gomorra, Adamas og Zebóím sukku[5] og dauðinn svelgði þær, þá varð vatn

[1]) Lúk. 5, 1. [2]) Matth. 14, 25. [3]) Lúk. 8, 22.
[4]) Jóh. 21. [5]) 1 Mós. 19, 24.

þetta[1]. Í vatninu er engin lifandi skepna, og lítur svo út sem dauðinn ráði þar öllu, því nær því aldrei er það, að nokkur skepna láti þar til sín heyra nema hræfuglar, sem hlakka yfir æti; vatn þetta er einsog gröfin, að þess sèr ekki stað sem þángað kemur, því ár og lækir sem renna þar í sjást aldrei síðan.

15. §.

*Loptslag.*

Gyðíngaland nær frá 31ta mælistigi fyrir norðan miðjarðarlínu til hins 34da, hálfu í fátt, og er þar eitthvert hið mesta hitamagn, að því er venjuligt er í þeim löndum, þarsem kuldi og hiti eru að rèttum jöfnuði (þarsem ekki ángra ofurhiti eður kuldi); því skiptir hèr árinu í sumar og vetur einúngis[2] og dægrum skiptir meir að jöfnuði í daga og nætur enn hjá oss[3]. Kenna menn sólarhitans að marki þegar í febrúarmánuði; þó er hann megnastur frá apríl til septembersmánaðar; mundi og hitinn vera óþolandi á sumrum væri ekki vestanvindar og hafgola; þó er hitinn samt svo ákafur, að eigi má hafast við erfiði um daga, eru því kvöld og morgnar ætlaðir til erfiðis[4]. Það var því Ísraels niðjum einsog guðsgjöf, ef þrumur og eldíngar komu, er bættu loptið; fór og fjærri að

[1]) Það er allliklig getgáta, að jarðeldur muni hindrað hafa rás Jórdanar, er hún áður hafi runnið til sjáfar, og dauðahafið muni orðið af vatni hennar því er ei gat framkomizt; lætur þetta nærri bibliusögunni og líka bendir þará dældin eptir landinu. [2]) 1 Mós. 8, 22. [3]) Jóh. 11, 9. [4]) 2 Sam. 4, 5.

þeim þætti þrumuhljóðið vera reiðimerki guðs, hitt var heldur, að þeim þótti sem væri það bendíng frá honum, að óhætt væri að hætta sèr í stríð mót óvinum hans[1]. Mikið náttfall var mesta blessun á sumrum, er grasið var skrælnað[2], en þaraf gjörðust nætur kaldar og illt til ferða[3]; fèlli ekki á um nætur þá var við því búið að það kviknaði í jörðu af þurki og ofurhita[4]; en þó fór árferði þar eptir að guð gæfi regn í tíma, hvort sem regn kom seint eður snemma, meðan það gat að gagni orðið, þá var guð miskunsamur landsfólkinu, en ef ekki varð af regninu, var guðs hegníng yfir því og leiddi þaraf, að hver skepna svalt og kvaldist[5]. Þá þótti regn koma snemma, ef það kom er sáð var í jörð komið í októbermánuði (sáðregn), en það regn er seinna kom og mest bætti frjófsemdina, kom í martsmánuði, undir uppskerutímann (uppskeruregn)[6]. Á vetrum voru rigníngar sjaldgæfar, en ef þær komu, fylgðu þeim kuldar[7] og voru þær þá megnar, svo flóði yfir gjörvallt land[8], tók og af alla mannavegu[9]; snjór og jöklar voru á fjöllum uppi, einkum í desember- og janúarmánuðum, þá er mestir voru kuldar. Steypiregn voru sjaldgæfari[10] enn jarðskjálftar og var þó hvorugt allopt[11]. Af hafi kom vestanvindur og var hann hollur mjög, en norðanvindur

[1]) 1 Sam. 7, 10—11. [2]) 1 Mós. 27, 28. [3]) Lúk. 24, 29.
[4]) 2 Mós. 22, 6. [5]) 5 Mós. 11, 13. [6]) Jer. 5, 24.
[7]) Esra, 10, 9. [8]) Lúk. 6, 48. [9]) Matth. 24, 20.
[10]) Sálm. 42, 8. [11]) Jóh. 9, 5—6; sbr. Matth. 17, 20, 27, 51.

frá Líbanon, fylgði þeim heiðviðri á sumrum enn regn á vetrum[1]. Það er sagt, að frá öræfunum eystra kæmi banvænn austanvindur með brennanda sólarhita, og leið hann stundum áfram sem rauður mökkur, voðaligur, hnigu fyrir honum fegurstu blóm, er hann beit, og kenndi Jónas spámaður á honum forðum[2].

## 16. §.

### *Landskostir.*

Sè spurt um frjófsemi landsins, þá má svara einsog enir sannsöglu njósnarmenn Jósúa og Kaleb svöruðu forðum, „að landið er mesta afbragð og flýtur í mjólk og hunángi"[3]. Landið var vel ræktað á Krists tímum og helzt til mannmargt til að óarga dyr gætu hafzt þar við; því varð fremur vart við ljón þegar Samson lifði, og við birni á dögum Elías, heldurenn á Krists dögum. Þó voru úlfar enn í landinu og bitu sauðfè ef viðskila varð við hjörðina og smalann[4]; enn voru þar refsbræður (Skakalar) og bitu þeir fè, og voru slægir sem refar og illir sem úlfar, og skirrtust ekki við að brjóta upp leiði[5]; ennþá voru engisprettur og eyddu landið einsog verstu víkíngar[6]. Á tömum dýrum gátu ekki heldur verið orðin stór umskipti frá því er áður hafði verið; höfðu menn enn úlfalda til áburðar og gátu ei án verið[7]; ennþá voru asnar almennings

[1]) Orðskvið. 25, 23. [2]) Jóh. 4, 8. [3]) 4 Mós. 14, 8.
[4]) Jóh. 10. [5]) Sálm. 63, 11. [6]) Jóel, 1, 6 o. s. fr.
[7]) 1 Mós. 31, 17. Matth. 3, 4.

fararskjóti, er dýrið var spakt og meinlaust[1], en vígamenn riðu hestum[2]; gángsein yxn erjuðu og voru vinnudýr. Enn þá hafði hjartagóði maðurinn engan betra verð að bjóða syni sínum, er hann var aptur heim kominn enn Abraham hafði búið komumönnum enum ókunnu[3]. Hundar gengu enn so að enginn átti[4], og þóttu þeir ekki betri enn svín, er enginn Gyðíngur mátti svo mikið sem sjá, en heiðíngjar í Gergesena höfðu þau[5]. Enn voru fiski veiðar í sjó, einkum í Genezaretvatni; enn var sægur af hunángsflugum tömdum og ótömdum, og örnin varp enn uppi á Líbanon-fjalli, og smátitlíngurinn leitaði sèr lífsbjargar í plógfarinu[6].

Seðrustrèð á Líbanon var afarstórt, viðarhart og ylmandi og að öllu trjákóngurinn í Gyðíngalandi[7], en kunnugt er oss, að ekki áttu Ísraels niðjar meira með trè þetta enn fjallið Líbanon sjálft. Á Krists hèrvistardögum var minna að vera um trè þetta enn á dögum þeirra Davíðs og Hírams, voru og hvervetna skógar sjaldgæfir í Palestínalandi, því bæði var það, að innbúar landsins höfðu eydt skógnum, að þeir næðu þarmeð stærri bygð í landinu að boði Jósúa, því er hann bauð þeim Manassis og Efraims kynþáttum[8], og þaraðauk höfðu óvinir ósjaldan fellt skógana, er þeir

[1]) 4 Mós. 22, 21. Sak. 9, 9. Matth. 21, 5. [2]) 5 Mós. 17, 16.
[3]) 1 Mós. 18, 7. Lúk. 15, 23. [4]) 2 Kóng. 9, 10. Lúk. 16, 21.
[5]) 2 Pèt. 2, 22. Matth. 8, 30 o. s. fr.
[6]) Dóm. 14, 8. Matth. 3, 4. Ezek. 17, 3. Matth. 10, 29.
[7]) Sálm. 104, 16. [8]) Jós. 17, 15—18.

gjörðu árásir á landið[1]. Þó óx enn pálmatrè hjá Jerikó, það minnti menn á meir enn nokkuð trè annað að leita himinsins af öllu kappi; leggur þess er beinn og rèttvaxinn og ljómar af kollinum eins-og kórónu, en ávextirnir sem í gull sjái, blöðin eru laung og fögur, og höfðu menn þau fyrir friðarmerki og til skarts handa þeim er sigur höfðu unnið[2]. Vöxtugligir skógar eru ekki í landinu helga, en smáskógar hèr og hvar til fjalla, en það eru eikar og furuviðarskógar, einkum á Basanfjöllum, en fjallhrapi á bökkunum við Meromsvatn og Jórdan, og skorti landsmenn bæði skipa- og húsa- og eldivið; má vera þeir hafi fengið kol að frá öðrum löndum, en það vita menn til vissu, að þeir urðu að bjargast við þurkaðan við, t. a. m. vínviðargreinir, vallgresi[3] og annað því óhentugra. En gnægð var af aldintrjám í landinu, uxu sum af sjálfum sèr[4], sum ræktuðu menn í görðum[5]. Þar voru kjarneplatrè og balsamtrè, sem bæði var brennt til ylms og höfð til lækninga; þar voru fíkjutrè[6], ein tegund af morberjatrjám og voru þau reyndar fíkjutrè sem uxu sjálfkrafa og báru ávöxt tvisvar á ári[7]. Þó voru olíutrè og vínviður beztu kostirnir af grasaríkinu þar í landi, höfðu menn olíu þar sem hvervetna í austurlöndum til viðmetis, til brenslu[8], til smurnínga[9], og til lækn-

[1]) Dóm. 9, 48. [2]) Jóh. 12, 13. Opinb. 7, 9.
[3]) Matth. 6, 28. [4]) Lúk. 19. 4. [5]) Jóh. 18, 1. 20, 15.
[6]) Jóh. 1, 51. [7]) Matth. 21, 19. [8]) Matth. 25, 3.
[9]) Matth. 6, 17.

ínga[1]. Öldúngurinn Jakob hafði heitið Júda vínviðnum[2], enda mátti og óspart sjá hann í Júdeu og gegndi það undrum, er vínberja brúskarnir voru nær því alin að lengd[3]. Vínviðurinn óx einkum á hæðum og í fjalllendi. Þó óx hann og í víngörðum niður til dala og það var sannnefni að kalla víngarða þessa garða[4]; að sönnu settu menn þar trè í moldu, en hlóðu í kríngum þau smágarða og múra og hlífðu þeim með turnum og höfðu þar góð húsakynni ef ríkir voru, þar bjuggu umsjónarmenn og skyldu þeir hafa gát á, að ei kæmi óargadýr og gerðu usla í garðinum; af slíkum dýrum voru engisspretturnar hættuligastar, skaðræðismestar og verstar viðureignar, bar vindurinn þær áfram í ógurligri mergð, svo hvergi sá auðan himin, og gjörði við það myrkva mikin[5]. Mest óx af rauðum vínberjum í landinu og voru þau nær því fullþroska í júnímánuði, en vínuppskeran sjálf var þó ekki fyrr enn í september, og jók það á dýrðir laufskálahátíðarinnar, er bæði var súngið og margt annað haft til skemtunar. Vín blönduðu menn jafnan vatni er drekka skyldi, því vínið var megnt og mjög áfengt eingaungu, einkum hin ljúffengu vínin[6]. Bæði vín og olía var almennur kaupeyrir. En skyldi vínið senda og það var fyrir skömmu tekið úr vínpressunni (er var grafin

[1]) Mark. 6, 13. Lúk. 10, 34. Jak. 5, 14. [2]) 1 Mós. 49, 11.
[3]) 4 Mós. 13, 23—24. [4]) Matth. 20, 1. [5]) Jóel 1, 4 o. s. fr.
[6]) Postg. 2, 13.

í jörð niður og steinlögð innan á alla vegu) og ef gángur var í víninu þá er það var tekið úr henni, mátti alla varúð við hafa að ei væru gamlir leðurbelgirnir, ella rifnuðu þeir auðveldlega — því eptir venju austurlendínga lètu menn vín koma á skinnbelgi[1]. Með því áður hefir verið vikið á víðlendar heiðar og miklar hjarðir, munum vèr enn nokkru viðbæta og geta um graslendið í dölunum og á mörkunum; graslendi þessi voru fallin til akurirkju en ei til beitar, hafði Móses svo til ætlað er hann skipti landinu, að Ísraelsniðjar ei skyldu komast í slángur við heiðíngja og taka svo upp eptir þeim lesti og ósiðu; landið var og víða svo vel fallið til akurirkju að sjaldan þurfti meðöl til að bæta hana (t. a. m. salt til áburðar)[2]. Bygg og hveiti voru sáðjurtir landsmanna[3], og var ágóðinn nær hundraðfaldur einsog Kristur tekur til orða í dæmisögunni[4]. Kornskeru var lokið um hvítasunnu, þá var kornið troðið úr staungunum og tráðu uxar[5], og kjarninn hreinsaður frá fisinu með kornrekum[6], og er því var lokið var það fært í hlöðu[7]. Ef að nú uppskeran var svo góð, að kornið varð eigi þreskjað fyrrenn leið að vínuppskeru, og ef vínuppskeran þá var svo góð, að henni varð ekki lokið fyrir nýjár, þá er sáðtíð byrjaði að nýju, þá mátti segja, að guð hefði gefið mikla árgæzku[8].

[1]) Matth. 9, 17. [2]) Lúk. 14, 35. [3]) 5 Mós. 8, 8.
[4]) Matth. 13, 8. [5]) 5 Mós. 25, 4. [6]) Lúk. 3, 17.
[7]) Lúk. 22, 31. Matth. 13, 30. [8]) 3 Mós. 26, 5.

þó spámaðurinn segi: „að guð eigi gullið og silfrið sem er í landinu" þá megum vèr ekki ætla, að gull og silfur sè tekið úr fjöllunum í Júdeu, heldur er hèr meint til allrar veraldarinnar gulls og silfurs, einkum þess er flutt var á fönisiskum byrðíugum frá austurströndum Afríku til musterisgjörðarinnar; en málmar voru þó í landinu, bæði járn og kopar, einkum í heraði því sem Assers kynþáttur bygði[1], því þar er járngrjót, og útúr fjöllunum má sprengja kopar[2]. Meðal annarra steinategunda er Granítsteinninn og Jaspissteinn í Júdafjöllum, gips og kalk[3], og marmari í Gaza og jarðarbik (Asfalt) við dauðahaf.

## 17. §.

### *Skipti á landinu.*

Náttúran sjálf hefir skipt landinu þarsem áin Jórdan er, hafa menn og hvergi umbreytt þeim skiptum; skilur þá landið við fljót þetta, og heitir að vestanverðu landið fyrir vestan Jórdan, en hinumegin landið fyrir austan Jórdan, og hèldust þessi skipti á landinu frá því er Ísraels niðjar komu þángað, þá er það var fyrirheitið land; því fyrir vestan Jórdan lá það land, er Kanaansland hèt rèttu nafni, hið sannkallaða helga land, er drottinn guð hafði heitið þjóð sinni, Ísrael[4]. Því gjörði og Jósúa skýlausan mun á landinu fyrir austan og vestan Jórdan, er það fyrir austan skyldi vera eign þeirra

---

[1]) 5 Mós. 33, 25. [2]) 5 Mós. 8, 9.
[3]) 5 Mós. 27, 2. [4]) 5 Mós. 2, 29.

kynþátta, Rúbens, Gaðs og ens hálfa kynþáttar Manassis, er hann heyrði að þeim lèk hugur á þessum heruðum, eptir að þau voru unnin með stórvirkjum, en landið að vestanverðu skyldi vera guðs eign[1]. Fyrst vèr höfum svona áreiðanlega sögu fyrir oss að bera um skipti á landinu, er einsætt að fylgja henni hèr, þó það kynni að sýnast sem betur ætti við að skipta landinu í rómverskt landshöfðíngjadæmi og tvö fjórðúngshöfðíngjadæmi, þegar ekki er á annað litið, enn landsstjórnina á Krists dögum. En þóað Heródes Antípas* hefði bæði löndin til umráða, norðurhluta landsins fyrir vestan, og suðurhlutann fyrir austan, og gjörði af eitt höfðíngjadæmi, hèldu menn þó gömlu skiptunum í hversdags viðræðum, er náttúran hafði búið til, og var fyrir því ásigkomulag landsins og þjóðsagan að þessi skipti hèldist[2].

### 18. §.

### *Landið vestanmegin Jórdanar.*

Enu fyrirheitna landi var úthlutað til kynþáttanna strax eptir að það var unnið, og var Kanaan þannig skipt í 10 fylki, og hèldust þau skipti meðan gefinn var gaumur að ættunum; eigi voru fylki þessi jafn stór eður voldug, en þó var sèð fyrir því, að landið væri að því skapi sem þeir voru margir er þar skyldu taka bólfestu, og hèt hvert fylki því nafni er forfaðir ættleggsins hafði heitið.

[1]) Jós. 22, 19. [2]) Matth. 4, 25.

Júda ætt skyldi aldrei undir lok líða, var og kynþáttur hans sá eini er þjóðin hefir nafn af tekið og hefir það viðhaldizt síðan, var og þessi ættleggur mannmestur og voldugastur er fyrirheitna landið var unnið, enda tók hann og þann hluta lands er víðastur er um sig, allt að dauðahafi og náði út til Filistealanda, ásamt fylki Símeons ættleggs, er bjó litlu sunnar þar er meiri var auðn landsins; var það bæði, að Filistear voru háskaligustu óvinir, enda voru Júdeumenn færastir til landvarnar. Fyrir norðan Júda- og Símeonar-kynþætti bjuggu þeir Benjamíns og Dans kynþættir, bjó Benjamíns við Jórdan, þar er hún fellur í dauðahaf, en Dans út betur að miðjarðarhafi; voru þessir ættleggir mjög mannfáir á hinum seinni tímunum, en Efraims kynþáttur mannfleiri, voru og í honum miklir hermenn; bjó hann og annarr helmíngur Manassis kynþáttar millum Jórdanar og miðjarðarhafs; bjó Manasse norðar. Þar norðar tóku þeir kynþættir Issaskars, Sebulons, Assers og Naftalis sèr bólfestu, og náðu lönd þeirra fram með endilángri Jórdan, og bjó Naftali við uppspretturnar, þar er hún kom úr fjöllunum. En þá tók við ríki Fönikumanna sem bjuggu við miðjarðarhaf, við Karmel, er land Manassis kynþáttar endaði. Þær 48 borgir sem Levís ættmenn skyldu taka, láu hèr og hvar í löndum hinna annara kynþátta.

Þegar Kristur var á dögum, var landinu skipt í Júdeu og Samaríu, ætluðust Rómverjar til að það

væri eitt skattland, (er þess áður getið, þar er talað var um landstjórnina); var Pontíus Pílatus þar landsstjórnari þá er Kristur var krossfestur, en átti þó annann yfir sèr, en þá var Galílea hið þriðja fylki, lá það skattland nyrðst, vestanmegin Jórdanar, og var vesturhluti þess fjórðúngs er Heródes Antípas hafði. Þess skal síðar getið hvílík að voru hin helztu einkunn innbúa í hverju þessara fylkna; þess skal og getið, hverjar voru hinar helztu borgir þeirra.

### A. *Júdea.*

Með því að þetta herað var aðal-aðsetur niðja þeirra Júda og Benjamíns, og með því þar lá en fræga Jórsalaborg og rústir musterisins forna mitt í borginni, þá námu menn það fyrst að nýju, þeir er aptur hurfu úr útlègðinni, og lètu sèr meir umfinnast um leiði og bænhús feðra sinna enn makindi og velgengni, er þeim hefði hægt verið að njóta í útlöndum með styrk landstjórnarmanna þar. Það á einkum heima hjá Júdeumönnum, er fyrr er sagt um þjóðerni og lunderni fólks þessa þegar Kristur kom; þessum var það sannnefni að heita Gyðíngar, þóttust þeir vera þjóð sú er Messías skyldi fæðast af, þóttust vera verðir musterisins og vel hafa til gætt að viðhèldist venjur feðranna, því þótti þeim sem þeir væri rètt bornir til að fá Messías, er þeir svo lengi höfðu gjört sèr von um, þó bjöguð væri, og gjörðu þeir svo enn, þótt þeir dag frá degi

hefðu gjört sig meir og meir ómakliga til að heita Abrahams börn, og sú þjóð, er guð öðrum fremur hefði tekið að sèr, er þeir voru munaðargjarnir, gjálífir, prettóttir, fègjarnir fram úr hófi, fullir fjandskapar gegn öðrum þjóðum, svikulir og upphlaupsgjarnir mót keisara, er þeir svarið höfðu trúnaðareið, og það sem verst var, að mennirnir voru orðnir skinhelgir hræsnarar og spottuðu þarmeð guð. Þessi siðaspjöll má um kenna hinum lögvitru og heldri mönnum, er gjörspilltu fólkinu; voru fáir í Ísrael er ei drógu dám af slíku, eða voru slíkir sem Nathanael, að *byggi yfir góðri sál*. Meðal fólks þessa, er allt um það er frægt orðið um lángan aldur, lifðu enn einstöku manneskjur af Davíðs ætt, strjálar hèr og hvar og gætti þeirra lítið. Allir vissu að Messías skyldi fæðast af Davíðs ætt; menn bjuggust og við að Messías mundi verða jarðneskur konúngur, en þó var fólk af ættinni mjög svo fátækt, og hafði lítin höfðíngjabrag, og er þessi ætt ekki á nafn nefnd þegar það var afráðið af þjóðinni að selja Símoni Makkabea landsstjórn í hendur og æðstaprests embættið og hvorutveggi skyldi gánga í erfð, en það var þó áskilið, að tignin sem spámennirnir höfðu um spáð skyldi verða Davíðs ættar síðar; því var við því gjört, að enginn spámaður ákvað öðruvísi ef sannur var, og benti það öllum trúuðum á tímann, sem þeir gjörðu sèr von um, er annarr Elías mundi koma og smyrja niðja Davíðs,

er væri rèttkominn af Ísais konúngsætt[1]. En það er bæði, að guð getur gjört gott úr öllu, enda var fyrirlitníngin, sem Davíðs ætt var komin í, til þess, að guð lèt hana vera fría fyrir ofsóknum konúnganna frá Ídúmeu. Þess er getið í sögum, að nokkrir af Krists ættmönnum voru teknir og færðir fyrir Domitían keisara, er honum þótti ekki tryggt undir þeim að eiga, en er keisarinn sá, að það voru menn sem einkis áttu úrkosta, voru fèlausir menn og bændur, lèt hann þá þegar lausa og þótti sem ekki þyrfti að óttast slíka.

Auk Gyðínga bjuggu Filisteanna og Edomítanna afkomendur einnig í Júdeu. Filistealand náði með endilángri sjáfarsíðunni og lá vel fyrir kaupverzlun að vestanverðu, en stórir hamrar voru austanmegin til hlífðar landinu, er var flatt og búið hinum beztu landkostum. Í forneskju höfðu Filistear verið mjög voldugir og hraustir, fèkk og Jósúa ei heldur unnið borgir þeirra[2], hètu konúngar þeirra Abímelekar á dögum þeirra Abrahams og Ísaks. Ríkisstjórnin var bandamannastjórn. Á dögum þeirra Elís og Samúels þoldu Gyðíngar hvað mest ofríki þeirra, en Davíð vann þá þegar, áður hann varð meir enn smalamaður, og síðan, er hann varð konúngur, og voru þær sigurvinníngar Davíðs mjög ágættar, voru þeir úr því unnir og undirlægjur þartil skiptin urðu á ríkinu. En þá óx að nýju uppgángur Filistea er eigi sátu hreystimenn að ríki

[1]) 1 Makk. 14, 41. [2]) Jós. 11, 22.

Davíðs konúngs svo sem verið höfðu þeir Úsías og Ezekías og réðust þeir þá á fjallbygðir Júdeumanna. En svo fór að lokum, að land þeirra var lagt undir Assýriska og Egipzka[1] og fór svo fram þartil þeir á dögum Makkabea, og úr því, liðu ljúft og leitt með Júdeumönnum.

Ídúmea lá syðst í Júdeu, og því syðst alls Gyðíngalands[2], og því skilur hana á við landamerki Týrusar og Sídonar, er norðast eru. Hefir Ídúmea tekið nafn af Edomítum eða Edoms (þ. e. Esaús) niðjum, var fólk þetta mjög harðsókt og lifði af dýraveiðum, fór það suður á bóg til Seirsfjalla og rak Hóríta af landi brott og tók landið allt að rauðahafi, en lèt Jakobs ættmenn halda því landi er þeim hentaði bezt, er þeir fóru um með hjarðir sínar; en er Esaús ættmenn höfðu tekið sèr bólfestu lögðu þeir stund á verzlun og handiðnir; voru þeir jafnan óvinir Gyðínga frá dögum Mósis til þess er Davíð var á dögum[3]. En þó kom þeim það fyrir ekki, því Davíð lagði undir sig allt land þeirra[4], og stukku þá margir Edomítar af landi brott, og er enginn efi á, að við það eru handyðnir þeirra komnar til útlanda. En eigi sátu þeir af sèr færi að komast úr ánauðinni, og þótti því betra er fyrr var að þeir segðu upp trú og hollustu[5], og er svo var komið, voru þeir hinir

[1]) Zefan, 2, 4—6. [2]) Mark. 3, 8.
[3]) 4 Mós. 20, 17. Sálm. 83, 6—7. [4]) 2 Sam. 8, 14.
[5]) 2 Kóng. 8, 20.

verstu óvinir Gyðínga, og þótti ærin gleði í að eyða Júdeu, er landsmenn voru útlægir í Babýlon; hlaut Daríus Hystaspis að veita þeim lið er heim komu mót óvinum þessum, þó náskyldir væri, og sló Antíokus Epífanes ekki hönd í móti að fá slíkra manna liðstyrk, en svo lauk, að þeir Júdas Makkabeus og Jóhannes Hirkanus unnu sigur á þeim, svo gjörsamligan, að þeir urðu undirmenn Gyðínga, og hlutu þaráofan að taka að þeim Mósis lög.

*Borgir.*

Höfuðborgin var Jórsalaborg (Jerúsalem); þar fór fram landsstjórn Júdeu; þar áttu hinir lögspöku fund; þar var helgistaður allra þeirra sem trúðu á guð; þar var borg sem hverjum útlendum, er þar kom, mátti finnast mikið um; þar var borg sem miklar sögur höfðu frá gengið, og mátti hverjum mikið um finnast, hvaða trúar sem hann var; þar var borg sem hverjum kristnum manni er einsog helgistaður, því þar kenndi endurlausnarinn, þar gjörði hann kraptaverk, þar leið hann, og dó, og reis upp frá dauðum, og þar varð hin fyrsta kristni með aðstoð heilags anda. Menn telja það mjög óvíst, hvort að borg þessi muni Salem verið hafa, þar er Melkísedek var, prestur guðs ens hæsta[1], eður hvort nafnið Jerúsalem muni komið af nöfnunum Salem og Jebus[2]; eður hvort það á sèr þýðíng, og merki „griðastað"; en þó má með sanni segja, að borgin var af Kristi sjálfum kölluð aðsetur kon-

[1]) 1 Mós. 14, 18. [2]) Jós. 15, 8.

úngsins mikla[1], og urðu þá fleiri til að kalla hana heilaga enn spámaðurinn Jesajas einúngis[2], og meira var þá ágæti hennar, enn að menn minntust hennar í svardögum, og veittu henni svo slíkan heiður að hneixli varð að. Það má til sanns færast að kalla hana griðastað, þegar á það er litið einúngis, að þar var friðarhöfðínginn mikli, og að hann lèt þaðan kenna orð friðarins, en að öðru leiti var borg þessi lík orustuvelli alblóðugum. Lengi fram, eptir daga Jósúa, vörðu Jebúsítar hinn efra hluta bæarins, þá er kynþættirnir þeirra Júda og Benjamíns höfðu tekið hinn neðri hlutann, en þar kom að lyktum, að Davíð vann alla borgina[3], færði bygð sína þángað frá Hebron, og sat hann þar og hans eptirmenn síðan. Enn illa vannst þeim að verja hana, þó þar væri vígi góð, leið og ekki á laungu áður borgin var tekin af Sísak frá Egiptalandi og skömmu síðar af Jóasi frá Ísraelsríki[4] og eyðilögð að lokunum af Nebúkanezar frá Babýlon[5]. En er Júda niðjar komu aptur til landsins, hlutu þeir að víggirða borgina að nýju, og vera þó á meðan búnir til bardaga, voru þó víggarðarnir ei svo ramgjörvir, að duga mættu mót Antíokus Epífanes, voru því síðan bygðir að nýju, en gjöreyðilagðir af Rómverjum, svo þeirra sá engan stað síðan, lètu og Rómverjar sèr mjög annt um að borgin yrði eyðilögð með nafni og ágæti, því breyttu þeir nafninu

[1]) Matth. 5, 35. [2]) Jes. 48, 2. [3]) 2 Sam. 5.
[4]) 1 Kóng. 14, 25. 2 Kóng. 14, 13. [5]) 2 Kóng. 25.

og kölluðu „Ælia Capitolina". En ekki var meira um friðinn að vera innanbrjósts hja innbúum borgar þessarar, er þar áttu föðurland, enn svo, að þeir urðu til að taka spámennina af lífi, grýta píslarvotta og krossfesta sinn endurlausnara.

Það átti saman hversu borg þessi lá og þverlyndi bæarmanna. Norðanmegin er landslag bratt, og landið efst jafnhátt Zíonsfjalli sem borgin stendur á; er hallinn jafn, svo ekki skilja dalir borgarstæðið frá landinu utanborgar; en hvervetna annarstaðar að, á þrjá vegu, er að gánga uppámóti til borgarinnar[1], því bæði er það, að landið er því brattara sem nær kemur borginni, og diúpir dalir skilja bæinn frá útlendinu, hæðum og fjöllum. Vesturhluti dala þessara hefir tekið nafn af Gíhonfjalli og er kallaður Gíhon; en suðurhlutinn var dalurinn Hinnon eður Gehinnon, er mjög hefir verið óþokkaður, var það í dal þessum að menn blótuðu Mólok, hið hræðilega goð, barnablótum[2]; kölluðu menn hann einnig Tófet, þ. þ. trumbudal, er menn lètu slá trumbur og leika á hljóðfæri, að ei mætti heyra óp þeirra er blótað var[3]. En eptir að goðið var brennt í dal þessum, og allur viðurbúnaður þessa viðurstyggiliga blótskapar, var dalurinn einsog voði öllum þeim sem trúðu á guð, og þótti sem aðsetur fordæmdra mundi vera þar í Gehenna[4]. Skamt fyrir sunnan Hinnon lá Hakeldama, blóðsakurinn,

[1]) Matth. 20, 17, 18. [2]) 2 Kóng. 16, 3.
[3]) 2 Kóng. 23, 10. [4]) Matth. 5, 22.

er keyptur var til legstaðar handa ferðamönnum, fyrir höfuðsfé það er Júdas hafði tekið[1]. Að austanverðu var Keðronsdalur eða Jósafatsdalur, og skildi musterið frá olíufjallinu, um hann rann Keðron, þar voru margir fagrir sáðgarðar og leiði mörg, fóru menn að dæmi konúngsins sem gaf dalnum nafn sitt, með því og menn ímynduðu sèr, að þar mundi upprisa og síðasti dómur framfara[2]. Það var næsta torsókt fyrir óvini að komast yfir dali þessa, er svo voru djúpir, og upp að borginni, er lá svo ofarliga, og partil var borgin víggirð þreföldum múr, ramgjörvum og mesta mannvirki, voru girðíngarnar áfastar hvor við aðra, var og einkum þörf á þeim að norðanverðu, er háfir hamrar hlífðu staðnum annarsstaðar. Það er sagt, að á múrunum væri virki gjör í ferhyrníng, og að á yzta múrnum væri 60, en þá 14 á hinum öðrum, og 90 á hinum þriðja. Það lætur nærri, að borgin muni verið hafa hálfönnur míla umhverfis, og þegar Kristur var á dögum, voru nær því 150,000 búfastra manna í henni, en paraðauki voru endrum og sinnum grúi manna frá útlöndum, er fóru kaupferðum til borgarinnar, og margir Gyðíngar, er sóktu fróðleik að Gamalíel og hans líkum, eða einhverjum lögspökum manni, og ótöluligur grúi manna á hátíðum, svo ei gátu fyrir komizt innanborgar, en urðu að vera í smábýlum þar í kríng, eða tjalda úti á mörkinni, og voru þó bæarmenn svo gestrisnir að

[1]) Matth. 27, 7—8. [2]) Jóel 3, 7 o. s. frv.

eigi máttu þeir fè taka þótt þeir lèði hús þeim er komnir voru til bænagjörða í musterinu[1].

Borgin sjálf ber þess og menjar að landið er grýtt. Zíonsfjallið er hyrníngarsteinn hennar, en hin önnur fjöll, er borgin stendur á, eru hæðir er gánga af því, og kallast því borgin Zíon[2] jafnan og borgarmenn Zíons börn. Zíonsfjallið sjálft lá í sunnanverðri borginni, var þar á reistur hinn efri hluti hennar; hin fjöllin er borgin var á bygð hètu Akra, Móría og Bezetha. Akra lá í norður frá Zíon og var þará reistur hinn neðri hluti bæjarins; en þá var Móría í austanverðum bænum, þar stóð musterið, en fyrir norðan Móría Bezetha, og er þar eigi reisugligt, eru þar götur mjóar og kotúngabýli, og er lítið þar um að segja utan það, að sagt er að Heródes mikli hafi þar höll gjöra látið og prýdt þarmeð þenna hluta bæjarins. Ef menn kynni að fýsa til að sjá hversu musterið var gjört í hinni helgu borg, þá er að fara inn um það borgarhlið er sauðahlið heitir, og er eitt meðal þeirra 10 hliða sem á eru borginni[3], eða inn um eitthvað það borgarhlið sem veit til olíufjallsins; að austanverðu er þaðan að gánga upp til musterisins[4], og ljómar það allt af fannhvítum steini og gulllit-

[1]) Matth. 26, 17.

[2]) t. a. m. Sálm. 132, 13, 14, og er ei annað að sjá hèr, enn musterið hafi byggt verið á Zionsfjalli, en þess er að gæta, að fjallið Móría er talið með Zion og hvorutveggju kölluð Zion einu nafni.

[3]) Nehem. 12, 39. Jóh. 5, 2. [4]) Lúk. 18, 10.

uðu þaki, var það reist á sama stað og Salómon hafði það byggja látið í fyrstu, við hlöðu Ornans jebúsíta, þar sem drepsóttinni linnti[1], og þótti þeim kynþáttum Júda og Benjamíns sem þessi staður væri enn sameign þeirra beggja[2]; hafði og Serúbabel svo til ætlað, að musterið sem hann lèt gjöra skyldi í öllu vera svo gott og vandað sem verið hafði hinn fyrri helgistaður þjóðarinnar, þótt efni hans væri helzt til lítil til slíks mannvirkis; að vísu mátti heyra, að gamlir menn lètu illa yfir nýja musterinu, er þeir báru það saman, svo lítilfjörligt sem það var, við slíka skrautbyggíng sem áður hafði verið, en úngir menn voru næsta glaðir, og Haggaí spámaður hèt landsfólkinu því, að guð mundi skreyta musteri þetta og gjöra það fagrara enn hið fyrra hefði verið, kvað gullið og silfrið vera hans eign[3]; rættist og það sem spámaðurinn sagði, fremur að því, að Kristur kenndi þar, er einn átti ráð allra sanninda, heldur enn að því, að Heródes mikli skreytti musterið með feykiligri viðhöfn, að hann mætti vaxa í augum Gyðínga og sjálfum finnast mikið um sig[4]. Tveir voru garðar umhverfis musterið, annarr utar en annarr innar. Sá er utar var, var kallaður heiðíngja-

[1]) 1 Kron. 21, 18 o. s. fr.

[2]) Sálm. 78, 68. Jósúab. 18, 28. [3]) Hagg. 2, 6—9.

[4]) Heródes hóf musterisbygginguna 22 árum fyrir Krists burð, og var því verki ei lokið fyrr enn á dögum Agrippa ens ýngra, 64 árum eptir Krists burð; fór því verk þetta fram um Krists daga (Jóh. 2, 19—20), þó mun ei efamál, að beðið hafi smiðið stöku sinnum.

garður, var hann gjörr með gángbogum og laungum stólparöðum, og bar Salómons gángbogi af öllum öðrum, hann lá við austanverðan garðinn[1]; var hann bæði einhverjar helztu menjar ens gamla musteris, er svo var ágætt, og svo ramgjörr, að hvorki hafði hernaður nè aldur náð að vinna á honum. Úr garði þessum var það er Kristur rak sölumenn og kaupendur, er saurguðu staðinn með prángi, og glöptu fyrir þeim er voru á bæn fyrir innan í musterinu[2]; nafnið á garðinum sýnir, að þar máttu einnig heiðíngjar viðhafast. Má og vera, að hèr hafi samkunda eða musterisskóli verið, og væri það hèr er Jesús, þegar hann var 12 vetra, spurði og svaraði ritníngafróðum mönnum[3]. Það er og ætlan manna að hèr væri musterisbustin, er freistarinn vildi að Kristur skyldi hlaupa niður af[4]. En þá voru nú margar tröppur upp að gánga til þess garðsins er innar var, og skildi hann múrveggur allmikill frá heiðíngjagarðinum, tók þá við sá hluti garðsins sem næstur var, og kvennagarður var kallaður, er konur skyldu fjær vera helgistaðnum enn karlar, en þó máttu allir gánga gegnum kvennagarð og vera þar ef vildu. Í garði þessum nam Kristur staðar, er hann sá ena fèlitlu ekkju láta hvítínginn í fátækrasjóðinn[5]; garðurinn var gjörr í ferhyrníng, og útí hornunum voru herbergi handa holdsveikum mönnum, skyldu þeir sem þóttust heilir orðnir af sjúkdómi þessum sýna

[1]) Jóh. 10, 23. Postg. 3, 10. 5, 12. [2]) Matth. 21, 12.
[3]) Lúk. 2, 46. [4]) Matth. 4, 5. [5]) Mark. 12, 41.

sig þar prestunum[1]; þar var og herbergi handa þeim er guði höfðu bindindisheit unnið (Nasíreum), skyldu þeir þar t. a. m. raka höfuð sín og þvíumlíkt[2]. Þá var nær enu helga musteri þjóðgarðurinn, og var múgurinn í austurhluta hans en prestarnir í vesturhlutanum; í prestagarðinum var ofn gjörr, máttu menn hans ei án vera er þeir gengu berfættir, en gólfið lagt marmara; hèr var altari til brennifórna, lá hjá því salthrúga er salti skyldi sá á fórnarkjötið[3]; altari þetta stóð á miðju gólfi, og var autt rúm milli þess og þess hluta musterisins sem helgur var kallaður[4], var það umgirðt með lágum pílárum og mátti enginn koma þar inn fyrir nema prestarnir einir. Í þeim hluta musterisins er helgur var, og Kristur kallaði helgan, stóð hinn vígði ljósastjaki, borðið með skoðunarbrauðunum og altari til reikelsisfórnar. Þó nú altari þetta ei stæði í þeim hluta musterisins er öllu var helgari, er það

[1]) Matth. 8, 4.

[2]) Postg. 21, 24. 26. Það var gjört við því í lögum Gyðinga, að guði skyldi heit vinna, voru og heit mjög tíðkuð meðal þeirra og með ymsum hætti, hètu menn guði annaðhvort fórnum eður fègjöfum til helgidómsins, eður hètu föstu og hófsemi og kölluðust þá Nasírear; skyldu þeir eigi vín drekka eður aðra áfenga drykki og eigi skera hár sitt meðan á heitum stóð, (4 Mós. 6, 1—21) og varaði það lengur eður skemur eptir því sem á stóð, að menn voru bundnir við heitið, stundum alla æfi; unnu menn og ýmist sjálfir heitin en ýmist foreldrar. Þessir eru nafnkenndastir þeirra manna er heit unnu: Samson hinn sterki (Dóm. 13, 5—14) og Samúel (1 Sam. 1, 12), Jóhannes skírari (Lúk. 1, 15) og Páll postuli (Postg. 18, 18. 21, 24).

[3]) Mark. 9, 49. [4]) Matth. 23, 35.

þó talið þar með; má vera að komið hafi af því, að það stóð gagnvart honum og æðstipresturinn kom þar með friðþægíngarfórn einusinni á ári[1]. Millum þess hluta musterisins er helgastur var (allrahelgasta) og ens helga hlutans var tjald mikið og þykkofið, voru þará gjörvir Kerúbar[2], ofnir með tjaldinu; það rifnaði í sundur, þá er Kristur lèzt[3]. Meðan samkundutjaldbúðin var við lýði[4], þá var í aðalhelgidóminum sáttmálsörkin, og í henni geymd lögmálsspjöldin; þar var og gullkannan með Manna í og Aronsstafurinn alblómgaður. En á Salómons dögum var ei annað í aðalhelgidóminum enn sáttmálsörkin og lögmálsspjöldin, og á dögum Krists var þar hvorki eitt nè annað. Helgir dómar frá dögum feðranna

¹) Ebr. 9, 4.

²) það var trú ebreskra manna og margra annarra þjóða í fornöld, að kostir þeir allir, afbrigði og atgjörvi, sem þeir urðu varir hjá manninum og í náttúrunnar riki, væri hverr öðrum nákvæmlega sameinaðir einsog limir á einum líkama, og því gjerðu þeir mynd nokkra, að þá mætti sjá þar alla saman; þessi mynd var Kerúb hjá Ebreskum, en það var mynd uxa, manns, ljóns og arnar, (sem sjá má í spádómsbók Esekías 1, 4 o. s. fr., 10, 1 o. s. fr. og 2 Mós. 25, 18. 37, 7); skyldi ljóns- og uxamyndin sýna afl og styrkleik, en mynd manns og arnar vit og glöggskygni; en fyrst að nú kostir allir, afbrigði og ágæti voru sameinaðir í Kerúb, því táknaði hann þá ekki sjálfan guð? hebreski maðurinn svarar: vegna þess, að eiginlegleikar hverrar veru eru annað enn veran sjálf, Kerúbar tákna einúngis eiginlegleika guðs, almætti og speki o. s. fr., en almætti, speki o. s. fr. eru ekki sama sem guð; guð hefir þessa eiginlegleika, en er þó annað; því er hann ætið hjá Kerúbum sinum, og fylgja þeir honum jafnan, og þó er sitt hvað, þeir og hann.

³) Matth. 27, 51. ⁴) 2 Mós. 25, 10.

voru að mestu undir lok liðnir, en það sem eptir var var sumt geymt í loptherbergjum þeim, er yfir voru því er heilagt var og helgast musterisins, og sumt í herbergjum, er gjörð voru utífrá til hliðanna; má vera að í einu þessara herbergja hafi lærisveinar Krists saman komið, er heilagur andi kom yfir þá á hvítasunnudegi[1]. Lýsíng þessi er allstutt á slíku musteri, sem er eitthvert hið frægasta af öllum í veröldu, slíka ímyndun og hjátrúarfulla sem Gyðíngar gjörðu sèr um helgi þess, að þeim þótti það mesta guðlast, ef nokkur vogaði að fá sèr til orða, að þar mundi að koma, að það yrði í eyði lagt[2]. En það lá þó fyrir, að þar skyldi ei steinn yfir steini standa, sá er eigi væri niður rifinn. Á Móríafjalli að norðan- og vestanverðu lá kastalinn, var hann fyrst bygður af Antíokus Epífanes, en síðar unninn af Símoni Makkabea og bygður ramgjörvar, síðan var þetta vígi mjög bætt af Heródes mikla; hann breytti nafni þess, og kallaði Antonía, til heiðurs við Antoníus, í stað Baris, sem það hafði áður heitið; síðar bættu það Rómverjar, svo hægra væri að halda fólki í skefjum, á hátíðum einkanlega[3]. Á Móríafjalli var og þínghúsið og höll jarlsins (*Prætorium*); fyrir framan hana var grundvöllurinn hækkaður með steinleggíng af allavega litum steini; þángað gekk Pílatus út til ráðherranna af eptirlæti við þá, er hann vissi, að þeim þótti mikið fyrir að gánga inn til hans, heiðins manns, áður þeir hefði neytt páska-

¹) Postg. 2. ²) Postg. 6, 13. ³) Postg. 21, 22.

lambsins[1]; hèr setti hann og sat að dómi, úti, að sið Rómverja. Þegar komið er frá Móría yfir brattar og óslèttar götur til útsuðurs, verður þar fyrir Akra; nafnið er griskt og þýðir tind, því Antíokus Epífanes lèt þar gjöra vígi, að þaðan mætti sækja musterið, var Akra þá hærri enn Móríafjall og því lètu Makkabear lækka það, að ei væri það jafn-hættulegt, ef musterið yrði sókt þaðan. En að bryggju er upp að gánga til Zíonsfjalls, og tekur það hærra enn öll fjöll önnur er borgin stendur á; þar sat Davíð konúngur, í vígi því er hann hafði unnið af Jebúsítum, en á dögum Krists sat þar æðstipresturinn. Nálægt Zíon bjuggu þjónustumenn musterisins, þeir er minnst kvað að (*Netinim*), þar á hæð nokkurri er Ófel hèt, og lá í millum Zíons og Móría[2].

Vèr höfum nú gjört við, að menn skyldu hafa gèngið gègnum borgina og byriað ferðina austanað, og komið svo útúr henni útnorðursmegin. Þenna veg gekk Kristur er hann bar krossinn, og konurnar frá Zíonsborg fylgðu honum og grètu. Þar fyrir utan bæinn er hæð nokkur, eigi há, og heitir Golgata; margir illgjörðamenn höfðu verið þar af lífi teknir, en eittsinn stóðu þar þrjú krosstrè, og á það er var í miðju var rituð þessi yfirskript í þremur málum: „Jesús af Nazaret, konúngur Gyðínga", á þessu trè var endurlausnarinn krossfestur millum tveggja illgjörðamanna, og á því fól hann sinn anda

[1]) Jóh. 18, 28. [2]) Esr. 8, 20.

í hendur föðursins. Skammt þaðan átti Jósef frá Arimatíu gröf, höggna í stein, og var þarí lagður líkami ens heilaga, er ei skyldi rotna. Úr gröf þessari reis hann upp á þriðja degi eptir sinn dauða, einsog um hafði verið spáð í ritníngunni.

Emaus lá í sömu átt frá Jerúsalem sem Golgata, í útnorður frá borginni; þángað var það er Jesús fylgðist með lærisveinum sínum daginn sama sem hann reis upp frá dauðum[1]. Borgirnar, sem voru fyrir norðan Jerúsalem, voru sumar neðan undir Efraimsfjöllum, en sumar í dölum er skáru fjöll þessi, og eru þessar hinar helztu:

Gíbea; þar var Sál konúngur borinn og barnfæddur[2].

Efrem, lá við öræfin hjá Jerikóborg; í bæ þessum hafðist Kristur við nokkurn tíma, frá því er hann hafði vakið Lazarus upp frá dauðum til páskahátíðar þeirrar er hann átti síðasta, og urðu menn hans þar lítt varir[3].

Rama — svo kölluðu menn fjallabæi jafnan — er kunnug af sögu Samúels; var hann þar fæddur, og stofnaði þar spámannaskólana, eptir að hann sjálfur hætti embættisstörfum[4].

Betel gaf Jakob nafn sitt og þýðir það Guðshús[5]. Þessi bær var á landamærum Ísraelsríkis að sunnanverðu, eptir að skipti voru orðin á ríkjunum, Júda og Ísraels, því lèt Jeróbóam kon-

[1]) Lúk. 24. [2]) 1 Sam. 15, 34. [3]) Joh. 11, 54.
[4]) 1 Sam. 1, 19. 19, 20. [5]) 1 Mós. 28, 19.

úngur setja þar annann þeirra tveggja gullkálfa, er hann hafði gjöra látið handa þeim 10 kynþáttum, að ei skyldu þeir þurfa að sakna Jerúsalems musteris[1]; var altari þetta brotið af Jósíasi, hraustmenninu, og báru menn nú mestu virðíng fyrir spámönnunum, dauðum í gröfinni[2].

Gíbeon var sá staðnr er þeir Jósúa og Sál áttu mestar orustur hjá[3].

Mizpa var þar, er þjóðfundir voru haldnir á dómaranna dögum[4], en þegar ríkin voru aðskilin hvort frá öðru, var borg þessi á landamærum, og var þá vígi Júdaríkis mót Ísrael[5]. En það varð borginni að smán, er Ísmael lèt þar drepa Gedalía.

Þessar borgir láu austanvert við Jerúsalem:

Betfage og Betanía hjá olíufjalli. Þorpið Betfage er að því kunnugt orðið, er Kristur var þar staddur, þá er hann lèt sækja ösnuna og folann og hèlt þar á innreið sína í Jerúsalem[6]. Þorpið tekur nafn af fíkjum, sem uxu svo mjög þar á sunnanverðu olíufjallinu. Hverr er sá, er eigi þekki Betanía, lítin bæ og laglegan, þar sem pálmaviðurinn vex? Þar sagði Kristur við Mörtu, er hann áminnti hana, að eitt væri það sem nauðsynin ræki eptir að gjöra; þar vakti hann Lazarus af dauða; þar smurði María Krist, er skamt var þá til hans dauða, og þar í grennd var það er hann stè upp til himins[7].

[1]) 1 Kóng. 12, 28. [2]) 2 Kóng. 23, 15. [3]) Jós. 9. 2 Sam. 2. [4]) Dóm. 20, 1 o. s. fr. [5]) 1 Kóng. 15, 22. [6]) Matth. 21. [7]) Lúk. 10. Joh. 11, 12. Lúk. 24.

Jerikó er mikil borg, 5 mílur frá höfuðborginni, þar vaxa rósir og smyrslajurtir, sem kunnugt er af grasafræðinni. Þessi borg er og kunnug af biblíusögunni, er Jósúa vann hana, en óorð komst á hana, er Símon Makkabeus var drepinn með svikum. Í borg þessari dó Heródes mikli, hafði hann mjög bætt velmegun hennar, og bar hún þess menjar á Krists dögum. Borgin lá vel við tolltekju[1]. Þareð flestum Gyðíngum var lítið um að fara um Samverjaland, kjöru þeir heldur að fara Jerikóar veginn, er fara þurfti frá Galíleu eður norður- og austurhluta lands til Jerúsalem. Á þessum vegi læknaði Kristur tvo blinda menn er leituðu hans hjálpar þá er hann fór þar yfir[2].

Þegar farið er yfir Jeríkóardal, þar sem rósirnar vaxa, til Jórdanar, er að nema staðar hjá Gilgal; þar settu Ísraelsmenn herbúðir sínar, er þeir stigu fótum á hið fyrirheitna landið og reistu upp steina tólf til minníngar um þenna atburð[3].

En þessar borgir láu fyrir sunnan Jerúsalem: Betlehem þ. þ. brauðhús, lá í góðu heraði og hèt það Efrata; er að gjöra mismun á bæ þessum og öðrum samnefndum í Galíleu; hèr var Rakel grafin[4], en síðan sátu þar ættmenn Davíðs konúngs og var hann þar fæddur[5]. Þó bar lítið á þessum bæ jafnan. Þess væntu menn að hèr mundi Kristur

[1]) Lúk. 19, 2. [2]) Matth. 20, 29. Mark. 10, 46.
[3]) Jós. 4. [4]) 1 Mós. 35, 19 sbr. Matth. 2, 18.
[5]) Rut. 2, 4. 1 Sam. 16, 4.

fæðast af Davíðs ætt[1], er Mikka hafði svo um spáð[2]: „Betlehem í Efratsheraði!" segir Mikka, „er eigi það, að þú sèrt enginn smábær, er í þèr fæðist höfðíngi Ísraelsfólks, sá enga á sèr byrjun?" Í grennd við Betlehem lá Karmel, þar er þau Nabal og Abígael bjuggu[3], þar var Adúllamshellir, þar sem Davíð og menn hans höfðust við, er þeir fóru landflótta[4].

Þá er Hebron í suður þaðan; þar bjuggu í forneskju feðurnir helgu, og höfðu þar tjöld sín og lunda er þeir enga áttu landsvist, og voru þeir þar leiddir er þeir önduðust og fóru til feðra sinna[5]. Þar bjó og Davíð í 7 ár og 6 mánuði, er guð hafði gefið honum ríki[6].

Þá lá Juttaborg í Júdafjöllum og má sjá af Jósúabók[7] að þar var prestabær, má því vera að það væri í bæ þessum er þau Sakarías og Elísabet, foreldrar Jóhannis skírara, höfðu aðsetur[8].

Bersaba var syðsti bær í landinu helga og lá við öræfin.

Fyrir vestan Jerúsalem láu út við miðjarðarhaf, á landamærunum að sunnanverðu, gamlar og sterkar borgir í Filistealandi. Þar var Gaza, þar er Samson lèt líf sitt, að hann banaði 3 þúsundum sinna óvina. Þar var Askalon, og var Heródes mikli borinn og barnfæddur þar. Þar var Asdoð, þarsem líkneski Dagons datt af stallinum

1) Matth. 2, 5. 2) Mik. 5, 1. 3) 1 Sam. 25.
4) 1 Sam. 22. 5) 1 Mós. 13, 18. 25, 9. 35, 29. 50, 13.
6) 2 Sam. 2, 3. 7) Jós. 21, 16. 8) Lúk. 1, 39.

fyrir framan sáttmálsörkina, er tekin hafði verið[1]; þar boðaði Filippus mönnum trú rètta[2]. Þar var Gat, og var hann þaðan heljarmaðurinn, sem Davíð vann[3], það var og í þessari borg að Davíð lèk á konúnginn[4]. Þar var og borgin Ekron, var þar musteri Bals og goðaspá[5]. Fyrir norðan Ekron lengra uppi í landinu lá Arimatía (má vera hún hafi Rama heitið í forneskju); þaðan var Jósep, Krists trúi vin[6]. Einnig var Nikopólis í upplandinu, hún hèt og Emaus, og er að aðgreina bæ þenna frá þeim er áður var getið. En þá lá Lydda nær hafi; þar læknaði Pètur Eneas af limafallssýki[7].

Enn eina mílu frá Lyddu lá Joppe fram við sjó, og er sú borg lángtum nafnkunnari, stendur hún á hæð, og er þar víðsýni mikið og fagurt umhverfis; var borg þessi mjög nafnkennd að kaupverzlun, er þar hafði tíðkazt frá alda öðli[8]; lèt Salómon flytja þángað til hafnar Seðrusvið frá Líbanonsfjöllum[9]; slíkt hið sama gjörðu þeir Serúbabel og Jósúa, og tóku það eptir honum er þeir bygðu aptur musterið[10]. En síðan lètu þeir Makkabearnir bæta höfnina og refsaði Júdas Makkabeus þar svikum borgarmanna og brenndi skip þeirra[11]. Í borg þessari vakti Pètur Tabítu (eður Dorku) af dauða, einnig sá hann þar sýn og gekk við hana úr skugga um að heiðíngjar voru ætlaðir til að taka hlut í guðs

[1]) 1 Sam. 5, 3. 4. [2]) Postg. 8, 40. [3]) 1 Sam. 17, 4.
[4]) 1 Sam. 21, 13. [5]) 2 Kóng. 1. [6]) Lúk. 23, 50.
[6]) Postg. 9, 32—33. [8]) Jón. 1, 3. [9]) 2 Kron. 2, 16.
[10]) Esr. 3, 7. [11]) 2 Makk. 12, 3.

ríki, og er það hinn mesti fagnaður fyrir alla oss er af heiðíngjum erum komnir[1]. Frá Joppe gengur grandi með sjó fram, allt að landamærum Galíleu, og er sá 7 mílur að lengd; þar stóð borgin Sesarea á Saronsvöllum, álitleg borg og landsprýði; en til greiníngar frá Sesarea Filippí tók hún nafn af Palestínalandi; var það ósjaldan að lestamenn fóru um hjá borg þessari, er þeir fóru til Galíleu, einnig komu þángað opt embættismenn Rómverja og hermenn frá Jerúsalem, því í Sesareu var ekki minna um að véra valdsstèttina á þessum dögum, enn kennivaldið í Jerúsalem; þó kom eigi svo, fyrr enn á dögum Krists, því Heródes mikli kjöri borg þessa til höfuðborgar Rómverja í Palestínalandi og kallaði Sesareu í stað þess er hún áður hafði heitið Stratons–kastali (*turris stratonis*), var það og næsta vel til fallið að Rómverjar hefðu borg þessa, er Gyðíngar höfðu ei verið þar í fyrstu heldur verzlunarmenn útlendir, lá og borgin við sjó, svo hægt var að ná til Rómverja, svo lá hún og á haganlegum stað, að senda mátti herlið á alla vegu út um landið. Lètu og rómverskir landstjórar sèr vel líka borg þessa er var traust og ramgjör; þar var höll Heródis, gjörð af marmara og sátu þeir þar. Þar sat Páll í fángelsi þá er þeir Felix og Festus voru landsstjórar og var það fángelsi þó ei með versta móti[2]. En með því borg þessi var mikil, var það mikill fagnaður að snemma tóku menn þar við

[1]) Postg. 10. [2]) Postg. 23.

kristni, er Kornelíus lèt skírast við komu Pèturs, og fluttu þeir Páll og Filippus þar kristniboð[1].

B. *Samaria.*

Þetta fylki var lítið og töldu Rómverjar það vera part af Júdeu, það var uppland, er það lá upp af grandanum, er Sesarea stóð á, og náði til Galíleu að norðanverðu, en að austanverðu til Jórdanar, og að sunnan- og vestanverðu til Júdeu. Hafði fyrrum átt landið kynþáttur Efraims og hálfur Manassis; kom það að vísu fram sem Jakob hafði spáð um Efraims afkomendur, að þeir mundu verða fleiri enn Manassis[2], en ei voru þeir mjög svo vandir að landi sínu, því þá er þeir skyldu taka það, ráku þeir eigi alla Kananíta brott, en gjörðu þá skattgylda og skyldu þeir hafa landsvist á meðal þeirra[3], var því heiðni aldrei eydt í landi þessu, en fór hörmulega í vöxt, svo tók af tilbeiðslu á sönnum guði á dögum þeirra Ísraels–konúnganna, lèt því mjög að líkindum, að þeir fáu af Júda niðjum sem ei höfðu lotið Bal, lítilsvirtu þá mjög er kastað höfðu trú sinni og hnigið að blótskap. Þó bar annað til fjandskaparins millum Júdeumanna og Samverskra og varð við þann atburð er síðar varð, því Salmanassar hafði tekið til fánga mestan hluta landsmanna,

[1]) Postg. 21, 8 o. s. fr. Filippus sá er hèr er getið, bjó í Sesareu og var eigi postulinn, heldur forstöðumaður fátækra, er ei ólíklegt að hann hafi verið sá er kristnaði Samaríaland og fèhirði Kandöku drottníngar á leiðinni milli Jerúsalem og Gaza (Postg. 8). [2]) 1 Mós. 48, 19. [3]) Jós. 16, 10.

og flutt til Assyríu, og látið þegna sína heiðna setjast þar að í landi Ísraelsmanna, einsog vandi var herkonúnga þeirra er vitugir voru, en illir og ójafnaðarfullir. En sem nýlendumenn þessir voru seztir þar að, sóttu þá mjög villudýr, svo þeir máttu ei viðhafazt, kom þeim þá í hug það er þeir höfðu heyrt um fjallaguð Ísraelsmanna, máttkan guð, fèkk þeim það mikillar áhyggju, að þeir mundu hafa styggt hann, og leituðu því um að þeir mættu fá einhvern Jehóvaprest frá Assyríu þángað aptur er kæmi þeim í sátt. Þannig varð trúin blönduð meðal fólks þessa, er þángað var komið frá ymsum þjóðum, og er svo sagt, að þeir hvorki óttuðust guð nè fóru að eigin venjum eður eigin lögum[1]. Þó fór svo smátt og smátt að efldist trúin á sannan guð, svo að þegar sú saga barst, að Gyðíngar væru heim komnir aptur úr útlegðinni og vildu reisa musterið að nýu, gjörðu þeir menn á fund þeirra með slíkri orðsendíng: „að samverskir menn vildu eiga hlut að byggíngu með þeim, er þeir trýðu á sama guð sem þeir, kváðust hafa fært honum fórnir frá því er Assarhaddon var á dögum". En þeim Serúbabel og Jósúa þótti slíkt vinar tilboð eigi tryggt, kom þeim í hug hversu forfeður þeirra höfðu verið ginníngarfífl nábúa sinna og horfið til skúrgoðadýrkunar, og neituðu tilboðinu, og hefir þeim verið láð það helzt til mikið, en sást það brátt, að mjög litu Samverskir hèr á sinn hag, því hvorki spöruðu

[1]) 2 Kóng. 17, 34.

þeir svik nè ofríki að byggíng musterisins og múranna mætti að engu verða. Að lokunum gjörðu þeir sèr sjálfir musteri á Garizimfjalli og gekkst mjög fyrir því Eliasib (eður Manasse) prestur Gyðínga, er rekinn var af landi úr Júdeu af Nehemías, er hann átti dóttur landshöfðíngja heiðins[1], dýrkuðu samverskir menn nú guð í musteri sínu og fengu þartil leyfi hjá Alexander hinum mikla. Þó var aldrei sá staður í Samverjum, að þeir vildi láta líf fyrir trú sína, vantaði á að nokkur væri slíkur þar sem Matatías hjá Gyðíngum. Musterið á Garizim var brotið af Jóhannes Hirkanus, og var það gefið að sök, að það væri saurgað með skurgoðadýrkun. Þaðan í frá varð fjandskapur milli Gyðínga og Samverskra, so aldrei greri um heilt síðan, skorti og Gyðínga eigi dramb til að bæta þar ofaná fullri fyrirlitníng, að því er hatur og fyrirlitníng getur orðið samfara, og þá er Samverskir urðu að þola, að ríki þeirra væri bælt undir Gyðínga, lètu Gyðíngar óspart sjá, hvorsu fjærskildir þeim þætti sèr vera Samverskir að trú og ættstofni. Á Krists dögum þóttu engin brixli verri enn þau, ef Gyðíngur var samverskur kallaður[2]; var það og helzt til skjaldsèð að nokkurr Gyðíngur ætti vinartal við samverskan mann[3], eður að Gyðíngar nokkru sinni færi um Samaríuland, er þeir áttu leiðir milli Júdeu og Galíleu, og var þó sá vegur öllu skemmri. En þegar svo bar að, að einhverjum Gyðíng ekki var blandað sætara enn sam-

[1]) Neh. 13, 28. [2]) Jóh. 8, 48. [3]) Jóh. 4, 27.

verskum manni, eða hann var útlægur gjörr af Gyðíngalandi, þá lèt hann sèr það lynda að vera með samverskum manni, er báðir áttu sama láni að fagna[1]. Þó má vera að þessi áþján, er Samverskir urðu að þola af Gyðíngum, hafi hvatt þá til að láta það ásjást, að þeir væri ekki verri drengir enn Gyðíngar, og hafi sú verið tilætlun guðs, með því þeir ógjarna vildu láta þá sæmd, að vera Jakobs ættar[2], og þann hlut, er þeir þóttust eiga í þeirri velgengni, sem Móses hafði heitið þegar Messías kæmi[3]. En með því fólk þetta var lítið og lítils virt, voru menn hrokaminni, og tóku betur mentun og því er til heilla var enn Gyðíngar, er þóttust sjálfsagðir að eiga hlut að í ríki Messías[4]; að vísu var ekki trútt um, að trú þeirra væri blönduð og þeir legði óþokka á Gyðínga svo sem Gyðíngar gjörðu þeim[5], en allt um það var meiri mannúð og drengskapur hjá fólki þessu þar fyrir norðan Efraimshamra, enn fyrir sunnan þá. Margir voru þeir af Samverskum, er eigi voru kristnir, en þó voru flestir þeirra fúsari að taka við trú, bæði fyrir og eptir Krists himnaför[6], enn Gyðíngar, er til hefði verið að ætla, að væri afbrigðir annara sem sannir guðs þjónar.

---

[1]) Lúk. 17, 12—17. [2]) Jóh. 4, 12. [3]) Jóh. 4, 25.
[4]) Lúk. 17, 16. Jóh. 4, 40. [5]) Jóh. 4, 22. Lúk. 9, 54. Samverskir fóru t. a. m. eittsinn með leynd inn í musterið og saurguðu það á þann hátt, að þeir köstuðu þar inn í gaungin mannabeinum, þá er páskahátíð skyldi halda, og má ráða, að það muni verið hafa þá er Kristur kom í musterið 12 ára gamall.
[6]) Jóh. 4. Postg. 8.

Borgir þar:

Syðsta borgin er Síló og telja sumir hana til Júdeu, því að því er menn kunna skil á lá hún einhversstaðar hjá Efraimsfjöllum milli Betel og Sikkem[1]. Síló var helgastur staður í gjörvöllu landi, frá því Jósúa lifði[2] til Samúels daga, er þar var geymd sáttmálsörkin, en þá tóku hana þaðan Elíssynir og höfðu með sèr, er þeir börðust við Filistea, einsog hún gæti gjört úr því er ábrast í hugrekki, þar menn voru guðlausir[3]. Þar var það er Benjamínítar tóku konurnar[4]. Þar beiddi Hanna guð að hann gæfi henni son[5]. Er það í fám orðum að segja, að hèr voru allar hátíðir haldnar og fórnir færðar, og fór svo fram þángað til að svo mjög fór að bera á Jerúsalemsborg, og gleymdist Síló þá með öllu.

Sikkem lá í mjög fögru plázi, þar er lundar uxu, olíutrè og vínþrúgur, láu þar umhverfis há fjöll, Ebal og Garizim, þau er mest eru kunn orðin. Í þessu plázi hafði Jakob, ættfaðirinn, byggt guði altari[6], má og vera hann hafi látið grafa brunninn sem við hann var kendur síðan[7]. Þángað fluttu menn bein Jóseps frá Egiptalandi og voru þau þar grafin[8]. Frá því er Jósúa lifði var borg þessi frjáls[9], og var þá mikill uppgángur hennar, þartil að því kom er Jótam hafði fyrir sagt, að þaðan mundi eldur koma er Ahímelek var, og mundi sá eyða bæjar-

---

[1]) Dóm. 21, 19. [2]) Jós. 18, 1. [3]) 1 Sam. 4, 4.
[4]) Dóm. 21, 23. [5]) 1 Mós. 33, 18, 20. [6]) 1 Sam. 1, 9, 11.
[7]) Jóh. 4, 12. [8]) Jós. 24, 32. [9]) Jós. 20, 7.

mönnum í Sikkem[1]. Síðan var borgin byggð upp að nýju af Jeróbóam konúngi og sat hann þar[2]: þótt ekki yrði það nú lengi að hún væri konúngasetur, mátti henni þó annað til gyldis telja, er samverska musterið var þar á Garizim rètt hjá staðnum, og fór þar fram guðsdýrkun og fórnfæríngar, að menn ekki þurftu að sakna musterisins í Jerúsalem. Á dögum Krists kölluðu Gyðíngar staðinn Sikkar annaðhvort af því, að þeir hafa breytt samhljóðendum, sem allopt tíðkaðist meðal þeirra, eður þeir hafa gefið þar nafnagiptur, með því að orðið „Sikkar" þýðir stað þann, þar er menn drekka sig ölvaða, voru og Gyðíngar og samverskir eigi vandari að kveðjum hvorjir við aðra enn svo, að eigi varð þeim mikið fyrir að uppnefna hvorjir aðra.

En fyrir austan Sikkem lá fögur borg, er Tirsa hèt, lá hún á fjalli, við læk samnefndan[3], þar var önnur höfuðborg Samaríu og dó þar Abja, sonur Jeróbóams konúngs[4]. Nálægt Tirsa láu Ænon og Salem við ána Jórdan, þar er Jóhannes skírði[5]. Þá lá Skýtópólis (Betsean) þar fyrir norðan við Jórdan.

Í miðju landi var borg sú er Samaría hèt, og tók Samaríaland þar nafnaf, en borgin sjálf tók nafn af Semer, er seldi Omra konúngi fjallið, að hann reisti þar konúngs aðsetur sitt[6]. En þeir er tóku ríki eptir Omra prýddu mjög og umgirdtu borg-

[1]) Dóm. 9, 20. [2]) 1 Kóng. 12, 25. [3]) Lofkvæð. 6, 4.
[4]) 1 Kóng. 14, 17. [5]) Jóh. 3, 23. [6]) 1 Kóng. 16, 24.

ina, og það svo ramlega, að Benhadað fèkk ekkert aðgjört er hann sat um hana, og Akab sat að ríkjum[1]. Þó var hún unnin af Salmanassar[2]. Af því að borgarmenn voru mjög gjarnir til uppreisnar, lèt Alexander mikli setja þar griskt setulið. Seinna var nafninu breytt á borginni, því er hún hafði lengi heitið, og kölluð Sebaste grisku nafni, en það er dregið af heiti Águstusar á latínu; voru þetta aðgjörðir Heródis konúngs ens mikla, var hann vanur að sýna þannig hollustu sína.

Nokkrum mílum fyrir norðan Samaríu lá Jesreel, og tók mörkin þar (sem áður er getið) uafn af bænum, var þángað að fara fyrir Akab konúng, er hann átti þar höll góða, þar hafði og Nabot víngarð sinn, og þegar víngarðurinn var kominn á vald konúngs, þá mætti Elías Tesbíter honum þar og bar konúnginum hegníngarorð guðs[3].

## C. *Galílea eður vesturhluti Antipasarfjórðúngs.*

Nyrðst, næst Fönikulandi, lá Galílea og voru þar heiðíngjar meðal landsbúanna; en þareð orðið „Galílea" þýðir hverfi, eður fylki, þá er eigi að vita, hvort að fylkið allt hefir kallað verið heiðíngjaherað (Galílea þeirra heiðíngjanna) — er ekki þótti neinn heiðurstitill — eður sá hluti þess, sem lá næst borgunum Týrus og Sætt[4]; því í þessum norðurhluta lands bjuggu bæði Fönikumenn, Arabiskir og

[1]) 1 Kóng. 20. [2]) 2 Kóng. 17. [3]) 1 Kóng. 21.
[4]) 1 Makk. 5, 15. Matth. 4, 15.

Egipzkir og höfðu frið við landsmenn, er þeir voru eigi svo vandir og upptektasamir sem aðrir Gyðíngar. Suðurhluti lands þessa náði að Samaríalandi, bjuggu þar eintómir Gyðíngar, nema í borgunum er stóðu við sjóinn, þar bjuggu griskir menn og rómverskir, sem hvervetna í borgum, þar er mikil var verzlun. Þó landið væri eigi stærra enn 9 mílur á lengd og 8 á breidd, að því er menn hafa haldið, þá var þó fólk þar margt, því landskostir voru mæta góðir, voru og margir atvinnuvegir, því ei var minni arður að verzlun og sjóferðum enn kvikfjárrækt og fiskiafla, og svo mátti auðgast af handiðnum og smíðum sem af jarðirkju. En þegar slík voru landgæði, þá er hægt að ráða, hvílíkt hafi orðið lunderni landsbúanna, er eigi undarligt; þótt þeir yrðu munaðargjarnir og léti sig minnu varða þó ei væri nákvæmliga farið að því sem Mósis lögmál bauð heldur enn Júdeumenn gjörðu, er voru menn vandari að siðum. Með því að landsmenn væntu Messíasar, þóttust þeir einúngis eiga að gjöra guði skil, og þótti þeim sèr því frjálst að gjöra hvað þeim vel líkaði, svo sem gjört höfðu menn á dögum dómaranna. Voru þeir að vísu mjög fyrirlitnir af Jerúsalems og Júdeumönnum, með því að enginn var þar Rabbí sem nokkuð kvað að, og þeir í fjarska frá höfuðborginni, og mál þeirra bjagað og veik frá þjóðmálinu, svo að þekkja mátti; en Galíleumönnum þótti sú fyrirlitníng ekki þúng, er land þeirra

var öllum kostum búið. þegar nú Qvirinius, jarl á Sýrlandi[1], taldi fólkið til skatts í fyrsta sinni, lèt hann þá verða vara við, að þeir væru keisarans undirmenn, og mátti þá sjá hvað illa þeir kunnu ófrelsinu; þá gjörði Júdas frá Gamala (*Gálonîti*) uppreisn, mesti fullhugi, og veittu honum margir í Galíleu slíkan mannstyrk, að hann tók nafn af flokki þessum og var kallaður Júdas hinn galileiski; var ófriður sá, þótt hann yrði sefaður með ofurefli liðs, hættuligur um lánga tíma, og var það lengi, að menn drógu dám af honum og bjuggu yfir óspektum; er það allíkligt, að þeir er Pílatus lèt drepa í Jerúsalem, er þeir færðu fórn í musterisgarðinum, væri af flokki þessum[2]; má vera, að Zelótar þessir — var flokkurinn svo kallaður — hafi girnst að fá menn til uppreisnar í Jerúsalemsborg. þareð nú Kristur var borinn og barnfæddur í Galíleu að því er menn ætluðu, þá má nærri geta að íllt væri því að svara, hvort keisari ætti skatt af landinu[3]; en þó að nú Kristur ei væri fæddur í Galíleu, þá lifði hann þar þó mestan hluta æfi sinnar og lèt þar sjá að hann var öllum spámönnum meiri, sýndi gnótt speki og gæzku, að það mætti framkoma á vegsamlegan hátt er ritníngin segir, að hann mundi gjöra landið þeirra Sebúlons og Naftalis kynþátta vegligt, er áður hafði verið svo fyrirlitið, sem það er argast þótti í Galíleu enni heiðnu[4];

1) Lúk. 2, 2. 2) Lúk. 13, 1. 3) Matth. 22, 15.
4) Jes. 9, 1.

ber ritníngin þess vitni að svo var. Vilji menn vita hvað því sætti, að Kristur skyldi fremur kenna í Galíleu enn Júdeu, þá er ekki ólíkligt að það hafi tilhaldið, að ei var jafnhætt við ofsóknum ráðsins mikla í Jerúsalem eður Rómverjanna, og fólk í Galíleu ei svo smásmugligt og upptektasamt og í Jerúsalem, var og hægt til flutnínga yfir Genezaretsvatn yfir í umdæmi Filippusar, þar er mjög var kyrrt og friðligt. Þó nú Kristur hættuminnst hefði getað verið í landi þessu meðan á stóð hèrvistartíma hans, hlaut hann samt að velja Galíleu heldur enn Filippusar land, þareð mikill hluti landsins var heiðið og taldist eigi með Kanaanslandi; en hann var kominn til að bæta ráð fáráðra manna af Ísraelsþjóð. Þareð hann nú fór frá einum stað til annars, sem Rabbína vandi var til, stundum einn, en þó optar með lærisveinum sínum, og sneri stundum leið sinni frá alfaravegum, að ei skyldi þyrpast að honum múgurinn, má á það ætla, að hann hafi verið í flestum helztu þorpum og borgum Galíleu, er voru næsta margar, og er oss því hugleikið að tala um þær er nafnkenndastar voru.

Þessar voru borgir fyrir vestan Genezaret:

Tíberías. Var borg þessi svo nefnd af Heródes Antipas til heiðurs við Tíberíus keisara, í stað Kinneret, sem hún hafði áður heitið. Þar hafði Antípas aðsetur sitt. Til þess að efla og auðga bæinn veitti hann útlendum þar landsvist og mikil

rèttindi, þaraf leiddi, að við hirð hans voru mjög griskir og persiskir menn til saungva og konur til dansleika, má og nærri geta, að fremur væri það hvimleitt enn geðfellt Gyðíngum, svo fastheldnir sem þeir voru við lögin, að höll hans var skreytt allsháttuðum myndum frá heiðnum þjóðum. Það var því ekki að búast við, að lögð væri stund á fræði landsins í borg þessari, og því hèlt ekkert til þess, að Kristur tæki þar aðsetur, enda sá Heródes hann heldur aldrei þar, þó ei sè með öllu ólíkligt, að hann hafi komið við í bænum er hann tók flutníng yfir suðurhluta vatnsins, sem tók nafn af bænum[1].

Kapernaum lá norðan og vestanverðu við Genezaret og var aðsetursstaður Krists[2], er hann kom þángað á ferðum sínum[3]; var það þar, er menn heimtuðu að honum skatt, er þeir töldu bæinn vera hans heimili[4]; mun hann drukkið hafa af lind bæjar þessa, beðið til guðs í skógarrunnum hans og tekið dæmi og líkíngar af fegurð náttúrunnar þar; var fegurð og yndæli landsins þar svo viðbrugðið, að það hefir orðið að orðtaki síðan; má vera að Kristur veldi þenna stað sèr til heimilis sökum landsfegurðarinnar, með því og, að hèr bjó Mattheus og tengdamóðir Pèturs, og hægt var til flutnínga yfir vatnið[5], enda gladdi hann hèr margan, er áður var óglaður, ef ei skorti hann trú til; fundu bæjarmenn það og,

[1]) Jóh. 6, 1. [2]) Mark. 2, 1. Matth. 4, 13. [3]) Matth. 9, 1.
[4]) Matth. 17, 24. [5]) Lúk. 4, 38. 5, 27.

að önnur var kenníng hans enn annarra, manna og þótti þeim sem þar væri maður er mikið ætti undir sèr[1]; samkunduhöfðínginn þar lèt sèr segjast, að guðs sonur gæti lífgað þá af dauða, sem hann vildi, svo sem guð faðir[2]; Kristur fann að höfuðsmaðurinn var sá trúmaður, að trautt mundi nokkur vera hans líki í öllu Ísraelslandi og var þó maðurinn heiðinn[3]; en með því hann sá, að mestur hluti Gyðínga er voru í borg þessari hafði ei slíka trú sem maðurinn heiðni, þá lýsti hann yfir hegníng þeirri er skyldi koma yfir hana, kvað henni hafa verið lypt mjög til himna, en þar mundi að koma, að henni mundi hrundið til helvítis[4]. Þessi voru og hegníngarorð Krists, auk annara, er hann hafði mót þeim borgum, þar er hann hafði mest kraptaverk gjört, en menn ekki sèð að sèr að heldur; „hörmuliga fer þèr Kórazin", segir hann, „hörmuliga fer þèr Betsaída! því hefði slík furðuverk gjörð verið í Týrus og Sídonborgum sem hèr hafa gjörð verið, mundu menn þar fyrir laungu hafa tekið sekk og ösku og bætt ráð sitt." Menn vita með vissu að borgir þessar láu við Genezaretsvatn, en óljóst er hversu þær láu hvor úti frá annari. Það ætla sumir menn, að fjallendið millum Tíberias og Kapernaum muni Kórazin verið hafa; en með því að Kristur tekur aðra bæi til jafns við þessa, er ei ólíkligt að Kórazin hafi verið einhverr sá bær, er liðið hafi undir lok snemma á

[1]) Mark. 1, 22. [2]) Mark. 5, 22. [3]) Matth. 8, 10.
[4]) Matth. 11, 23.

tímum. Betsaída var fiskiver eigi mikið, og voru sumir af þeim þaðan, er Kristur kvaddi til fylgðar með sèr, og kvað þá skyldu menn veiða; þar voru þeir fæddir Filippus, Andreas og Pètur[1]; má og vera að þar hafi og fæddir verið þeir synir Zebedeus[2].

Þessar voru borgir í upplandinu:

Nain lá sunnarliga í Esdrelonsdal, hinu fagra heraði, þar var það er Kristur færði ekkjunni son hennar aptur lifandi, þann er hún átti einan barna og grèt hann þá dauðan[3]. Skamt þaðan, í seiðhúsinu í Endor, var það, að Sál konúngur frètti, að þá átti hann skammt ólifað[4].

Nazaret liggur eina mílu frá Taborfjalli, stendur bærinn á fjalli og er að sjá sem blómsturkerfi sè þar á fjallinu sem hann er. Þó bær þessi bæri nafn sitt með rentu og svo mætti að kveða, að hann væri hin mesta prýði, þá var þó Gyðíngum nær skapi að gjöra gis að nafninu og þýða það svo, að bæjarmenn mættu óvirðíng af hafa, því bæði var það, að menn lögðu mikla fyrirlitníng á Galíleuland, enda var enginn bær þar jafn fyrirlitinn sem Nazaret, svo það varð að orðshætti um bæ þenna, „hvað þaðan mætti gott koma", lèt og Natanael það á sèr heyra, svo góður maður sem hann var[5]. Það er með sannindum sagt,

[1]) Jóh. 1, 45. [2]) Matth. 4, 21. [3]) Lúk. 7, 11 o. s. frv.
[4]) 1 Sam. 28, 7. [5]) Jóh. 1, 46.

að bæjarmenn þar voru eigi þess verðir, að hinn heilagi spámaður væri nefndur eptir borg þeirra, því Nazarear byrgðu eyru sín fyrir því er hann kenndi, voru menn svo mjög vantrúaðir, að fyrir ekki kom að gjöra kraptaverk þar, og ef þeir hefðu haft ráð á, mundu þeir ei hafa séð í að hrinda honum niður af fjalli því, sem hann svo opt hafði gengið um í barnæsku sinni[1]. En allt um það ólst Kristur þar upp, þar Jósep og María áttu þar heima[2], tók hann og, þá hann hóf að kenna, nafn af borg þeirri hvaðan hann var, svo sem landsvenja var til[3], og því má öllum kristnum finnast mikið um bæ þenna, meðan veröld er bygð; erum vèr allir Nazarear, er vèr trúum á Jesús frá Nazaret, þann er krossfestur var og uppreis frá dauða[4].

Nokkrar mílur í norður frá Nazaret hefir María hlotið að ferðast þegar hún var boðin til brúðkaupsins í Kana, var og Jesús boðinn þángað og lærisveinar hans, og var það þar er hann byrjaði á kraptaverkum og lærisveinarnir fengu trú á honum[5]. Þar var Jesús staddur er hann læknaði son konúngsmannsins, þann er veikur lá í Kapernaúm, og þurfti ekki meir til þess að maðurinn yrði heill, enn vilja hann heilan[6]. Þó að nú Natanael læi ekki betur orð til Nazarets enn svo, að honum þótti sem fátt mætti þaðan gott koma, þá bar Kristur

[1]) Lúk. 4, 29. [2]) Matth. 2, 23. Lúk. 2, 52. [3]) Jóh. 18, 5. [4]) Postg. 24, 5. [5]) Jóh. 2, 1, 2, 11. [6]) Jóh. 4, 46 o. s. frv.

þó sjálfum honum betra orð, þótt hann væri frá Kana, sem líka var í Galíleu[1].

En nær því í miðri Galíleu, allskammt frá Kana, lá Seforis, gömul borg, á fjalli, hafði hún í fornöld verið höfuðborg landsins, þartil Heródes Antípas flutti konúngssetrið til Tíberíasborgar, með því sú lá betur við er fára þurfti yfir vatnið til Pereu; lèt þó höfðíngi þessi sèr annt um að Seforisborg væri ramliga girdt að hana mætti verja, og leitaði við að hún væri þokkuð af Rómverjum, því breytti hann nafni hennar og kallaði Díokesareu, til heiðurs við „hinn alvalda keisara".

Þessar borgir láu í syðri hluta Galíleu, sem nú eru taldar. En í nyrðri hlutanum er að geta einnar gamallar borgar, er Lais hèt, var hún kölluð Dan eptir það að Dans afkomendur höfðu unnið hana, og hèlzt það nafn síðan[2]. Borgin lá fyrir norðan Meromsvatn hjá Antilíbanonsfjöllum og var nyrðsta borgin í Galíleu, og gjörvöllu landinu helga, en Bersaba var hin syðsta, svo sem áður er sagt. Því kölluðu menn Ísraelsþjóð, þá er þeir vildu hana alla nafngreina, þjóðina millum Dan og Bersaba[3]. Það vissi og Jeróbóam, að Dan var landamerkjaborg á ríki Ísraels, lèt hann það ásannast, er hann reisti þar annann gullkálfanna til blóta, en hinn stóð í Betel, svo sem getið er[4].

Við Miðjarðarhaf voru ei allfáir verzlunarstaðir

[1]) Jóh. 1, 46; 21, 2. [2]) Dóm. 18, 29. [3]) 2 Sam. 17, 11. 2 Kron. 30, 5. [4]) 1 Kóng. 12, 30.

Palestínalands, og mjög í uppgángi, en engin svo sem Tólómeusborg (*Ptolemais*); er hennar þegar getið í fornöld, lá hún þá undir Fönikuland og var kölluð Akkó, er þýðir odda; var borgin því svo kölluð, að hún lá á tánga, norðanvert við fjörð nokkurn, en það var fjörður sá, er Karmel liggur við að sunnanverðu. Ógjörla vita menn af hvaða Tólómeus borgin hefir tekið nafn sitt, er var algengt orðið á Krists dögum, en kunn er hún að svikunum við Jónatan Makkabeahöfðíngja[1], og enn getur hennar seinna í biblíusögunum, og þó að góðu, er kristnir menn tóku þar Pál postula báðum höndum á ferð hans til Jórsalaborgar[2].

19. §.

*Landið fyrir austan Jórdan.*

Þessi heruð láu millum Jórdanar og Gileaðs, er þeim bætt við landið helga og þau talin með því, þegar flest heruð eru með því talin. En það þykir óvíst, hvort öræfin er liggja hinumegin Gileaðsfjalla skal telja til Palestínalands eður Arabíu ennar óbygðu. Antilíbanonsfjöll að norðanverðu, en Arnon að sunnanverðu, voru hèr sjálfsköpuð landamerki. Land þetta, er Gileað hafði heitið um lánga tíma, tóku þeir kynþættirnir Rúbens og Gaðs og hálfur Manassis kynþáttur til aðseturs sèr áður Kanaansland væri unnið, leið og landið ljúft og leidt með Ísraels-konúngsríki og taldist með því.

[1]) 1 Makk. 12, 48. [2]) Postg. 21, 7.

En þá er þeir Júda-niðjar voru heimkomnir úr útlegðinni, höfðu þeir allan hraða á að komast yfir Jórdan, að þeir næðu landi forfeðra sinna, og tóku því ekki aðsetur í Gileaðslandi. Máttu landsmenn síðan búa við ríki Sýrlenzkra eður Egipzkra og vera undirmenn þeirra í stað Babýlónar, þar til Rómverjar lögðu undir sig landið og öll nálæg lönd. Águstus keisari fékk Pereu (þ. e. landið hinumegin Jórdanar, er svo var kallað um þær mundir) í hendur vini sínum, Heródes mikla. Þegar Ídúmear fengu þannig ríki þar og héldu því með styrk Rómverja og margir Gyðíngar, þeir er verzlunargjarnir voru, sóktu til landa þessara, þar er mjög gekk á lestaferðum og verzlun vegfarenda, þá jukust með þeim hætti viðkynni millum Kanaanslands og Pereu-héraða, og kom svo, að þau töldust með Palestínalandi. En með því, að Gyðíngar þeir, sem hér tóku aðsetur, urðu að láta sèr lynda að búa millum sýrlenzkra, arabiskra, egipzkra og griskra manna, þá fór svo fjærri að þeir gætu farið að allri þeirri háttsemi sem lögin buðu, að þeir urðu Galíleumönnum minni, og þótti Júdeumönnum, er svo mjög gættu laganna, sem fjærstæðara væri það með slíka menn, að þá mætti bræður kalla, enn þá. Eru að vísu hèruð þessi miður kunn af biblíusögunum, enn þau löndin fyrir vestan Jórdan, en með því að hèr gætir borga, þar er fyrirrennari Krists kenndi og skírði, og með því Kristur sjálfur[1] ferðaðist

[1]) Matth. 4, 25.

þar um mönnum til heilla og hamíngju, er ekki tilhlýðiligt að hlaupa yfir þær, þá er lýsa skal landi sem af honum hefir helgi tekið. Löndin voru aðskilin og nefnd eptir höfðíngjum þeim, er þau höfðu til umráða: Filippusar fjórðúngur og Antípasar fjórðúngur.

A. *Filippusar fjórðúngur.*

Filippus rèði fyrir Trakkonítis (en suðurhluti Trakkonitis var Íturea, og bygðu hann ránsmenn og lítt siðaðir), Gálonítis og Batanea, var hann höfðíngi mannúðarfullur og rèttsýnn. Má þá ætla að Jakobsfljót muni skilið hafa fjórðúngana, hans og Antípasar. En með því að lönd þessi voru hentari til beitar enn akuryrkju gaf þar ei að líta margar borgir, en þó voru nokkrar þar, miklar og glæsiligar.

Borgir:

Paneas tók nafn af heraðinu norður við Hermon, þar sem hún lá, það var nyrðst í Filippusarfjórðúngi; Filippus lèt byggja bæinn upp, breytti svo nafni hans og kallaði Kesarea, bættu menn þá við nafni Filippusar og kölluðu Kesarea Filippi, til aðgreiníngar frá Kesarea Palestínalands. Það var nær borg þessari við uppsprettur Jórdanar að Símon Pètur játaði trú sína á Krist[1], er hann var þángað kominn, að hann mætti komast hjá svikráðum Farísea. En lítið var þó annað að sjá enn fólk væri

[1]) Matth. 16, 16.

hèr með öllu heiðið, hafði Heródes látið byggja hof af marmara til heiðurs við Águstus, og Agrippa ýngri gaf borginni nýtt nafn og kallaði Neróníu, í höfuðið á Neró keisara, versta heiðíngja sem nokkurn tíma hefir að ríkjum setið.

Á bökkunum landnorðan-megin við Genezaret lá Betsaída, sem og fèkk viðurnefni og var kölluð Júlías til heiðurs við keisaradótturina og til aðgreiníngar frá Betsaída í Galíleu; hafði borgin fyrr meir ei verið annað enn fiskiver, en seinna var hún kostuliga bygð af Filippusi. Þegar Jóhannes skírari var dauður, var það þar í landareignina, sem þá var óbygð, að Jesús kom, þar læknaði hann sjúka og kenndi fólki hvað guðs ríki væri, en síðan mettaði hann þar 5000 manna með 5 brauðum og 2 fiskum[1].

Sunnar, við Genezaret, láu þær borgir Dalmanúta[2], Gerasa, allfögur borg, og Gamala, sem landareignin tók nafn af, er var kölluð Gamalitika. Þar lá kastalinn Magdala[3], þó mun María frá Magdala þar eigi fædd, mun hitt heldur, að hún sè fædd í Galíleu.

Við ána Híeromax lá levítaborgin Mahanaím, að því er senniligast þykir, þar lèt Abner lýsa því yfir að Ísbóset var til konúngs tekinn; þar bárust Davíð tíðindin, að Absalon væri drepinn í Efraimsskógi[4]. Þar lá og Jabesborg, hana vann Sál kon-

[1]) Lúk. 9; Jóh. 6. [2]) Mark. 8, 10. [3]) Matth. 15, 39.
[4]) 2 Sam. 2, 17, 18.

úngur með herskyldi, birjuðu á því stórvirki hans í konúngdóminum og mundu borgarmenn honum það dauðum, þótt hann dæi óvirðuglíga[1]. Þar lá enn Gadara, mikil borg, ein af tíu borgunum eður Dekapólis; borgir þessar voru flestar austanmegin Jórdanar, en þó var Skýtópólis vestanmegin, voru þær fráskildar þjónustu við þá Antípas og Filippus, en þjónuðu Rómverjum og unnu margra rèttinda[2]. Með því að útlendir menn bygðu herað þetta, þá var þar ekki hlýdt Mósis lögum að því, að ei hefðu þeir þesskonar dýr sem Gyðíngum bauð við[3].

Hjá Gilead, syðst í fjórðúnginum, lá borgin Ramot, þarsem Akab konúngur tók á sig dularbúníng, að hann mætti dauðann umflýja, þó fyrir ekki kæmi[4].

B. *Perea eður austurhluti Antípasar fjórðúngs.*

Sá hluti Heródis fjórðúngs, sem lá austanmegin Jórdanar, kalla menn Pereu, þegar minnst er með talið. Landið var votlendt og því að miklu leiti kostagott; urðu þeir kynþættir Rúbens og Gaðs jafna að berjast og verja það fyrir ágángi nágranna sinna, einkum þeirra Ammoníta og Móabíta, og voru opt miður sigursælir; en þegar ýmsum veitti betur, Ísraelsmönnum eður óvinum þeirra, áttu

[1]) 1 Sam. 11, 31. [2]) Matth. 4, 25. [3]) Mark. 5.
[4]) 1 Kóng. 22.

Borgir
í landi þessu í því jafnan, að skipta höfðíngjum; svo fór t. a. m. fyrir borginni Rabbat-Ammon, höfuðborg Ammoníta[1], og á líkan hátt fyrir Aróer, sem Jeremías spáði að eyðilögð mundi verða[2], og þeim borgunum: Hesbon hinni fögru og fiskisælu borg[3], og Kiríataim, sem getið er frá alda öðli[4].

Þessar eru hinar merkustu borgir fyrir lesendur nýja testamentisins.

Pella segja sumir læi við ána Híerómax, aðrir við Arnon, en hitt mun heldur, að hún hafi legið við Jaboksá. Í ritníngunni getur að sönnu ekki þessarar borgar, en hún er í minnum höfð fyrir trú og undankomu kristinna manna í fyrstu kristni; leituðu þeir þángað og var þeim þar borgið þegar Jórsalaborg var eyðilögð, þá er þeir höfðu tekið eptir fyrirboðum þeim[5], er Kristur hafði fyrirsagt, að væru undanfarar eyðileggíngarinnar.

Betabara hèt hin önnur borg, þar skírði Jóhannes syndara til lífernisbetrunar og Jesús Krist til hans andliga embættis[6]. Það er ekki ólíkligt að borg þessi hafi og heitið Betanía, og þarf ekki að taka það fram við þá, sem hafa lesið bók þessa að framan, að ei má slengja þessari Betaníu saman við þá á Olíufjallinu, þar sem vinir Krists bjuggu. En vel mega nöfnin Betanía og Betabara fara sam-

¹) 2. Sam. 12, 29. ²) Jer. 48, 19. ³) Lofkv. 7, 4. ⁴) 1. Mós. 14, 5. Jer. 48, 1. ⁵) Matth. 24. ⁶) Jóh. 1, 28. Matth. 3, 5.

an, er annað þýðir naust (*Bet-Ania*) en hitt ferjustað. Þó má ætla að fleiri væri ferjustaðir á Jórdan, kemur mönnum einkum saman um, að annar muni verið hafa hjá Skýtópólis, en hinn á veginum, þá er farið er til Jerikó og Jórsalaborga; en á ferjustað þessum, er síðar er getið, kvað áin vera svo djúp, að ei er stædt í vatninu, og því ei fært að láta þar skírast. En hvernig sem því er varið, þá má samt sjá af sögu Jóhannis skírara framantil[1], þegar hún er borin saman við freistíngarsöguna í Jerikósöræfum[2], að allar eru líkur til, að Jóhannes muni skírt hafa í Betabara enni syðri.

Skammt frá Dauðahafinu lá höll Antípasar, þar er hann var til skemtunar sèr, og hèt hún Heródíum, var þaðan skammt Makkerus, öflugur kastali og stóð á fjallsgnípu; þángað var Jóhannes skírari settur í fángelsi, þángað spurði hann, þar er hann var bundinn, stórmerki þau er Kristur gjörði og þar lèt hann líf sitt fyrir hefndargirni Heródíu[3].

---

Með slíkum atburðum lauk æfi Jóhannesar skírara, hróparans á eyðimörku; hafði hann lokið verki því, sem honum var fyrir sett. En Kristur var enn uppi, sá er Jóhannes hafði götuna greidt, og er hans verki eigi fyrr lokið, enn ein verður hjörð og einn hirðir. Hans rödd hljómar enn,

[1]) Matth. 3. [2]) Matth. 4. [3]) Matth. 14, 3. 10.

og er hún meir enn dauðar og daufar menjar á fósturjörð hans, þeirri er hann átti hèr á jörðu, er postular hans og guðspjallamenn hafa eptirlátið oss lífsins lærdóma frá honum, og frá hverjum helgistað, þeim er bygður er í hans minníng, má heyra, að hann býður þeim til síns safnaðar sem hann vilja aðhyllast — og skyldum vèr góðan gaum að gefa, unna mikils og fylgja feiginsamliga, mun þá að því koma, að vèr sjáum hann augliti til auglitis á himnum, þar sem hann hefir ætlað oss vist hjá sèr.

---

# REGISTUR.


GYÐÍNGALAND
(Jórsalaheimur)
eður
Landið Helga
á krists dögum,
útgefið
1842.
Galílea
Samaría
Júdea
Perea
JERÚSALEM
( Jórsalir. )
MIÐJARÐARHAF
Damaskus
Sidon
Sarepta
Týrus
Ítúrea
Trakonitis
Auranitis
Hermon f.
Libanon
Antilibanon
Akkó
Karmel f.
Tiberias
Gadara
Dekapólis
Batanea
Gálon
Cesarea
HALF
MANASSE
Samaría
ISSA-
SKAR
Sikem
Apollónia
Gerasa
Makanaim
E F R A I M
G A D
Ramot Gilead
Rabbat-Ammon
Jaffó
(Joppe)
D A N
BENJAMIN
Jerikó
Perea
Abarim f.
Ekron
Gat
JERÚSALEM
Askalon
J Ú D A
R U B E N
Gasa
Hebron
Rabbat-Móba
Siklag
Gerar
MEON
Karak-Móba
Sóar
DAUÐA-HAF
EDOM
Rinókolúra
Golgata
BESETA
Heródes höll
SALEM
Getsemane
Olíu fjall
Musteríð
Móría fjall
Akra
DAVÍDS
STAÐUR
Síons fjall
Betfage
Betania
HINNOMS DALUR
JÓSAFATS-DALUR
Kidron
52°
53°
54°
55°
33°
32°
31°
austur frá Ferró
Em Baerentzen & Co lith Inst

